# DRottiñs vors JEsu Christi Fædingar Historia,

## Med Einfalldri Textans Utskijringu.

J Þriatiju Capitulum iñrettud, eptir þeim Þriatiju Fædingar Psalmum.

Af Sr. 

## Stephani Halldors Syni

Presti ad Mirkaa.



Selst Iñbundiñ 10. Fiskum.



Þryckt a Hoolum i Hialltadal, Af Jooni Olafssyni. 1771.

Luc. 2. v. 11, 12.



J Dag er ydur Lausnarinn fæddur, sá ad er Christur DRottinn, i Borginni Davids: Og hafid þad til Merkis, ad þier munud finna Barn-id Reifum vafid og lagt vera i Jotuna.

# Til Lesarans.

HAd diirmæta og verduga Ord, ad JEsus Christur er opiñberadur i Holldinu, og komiñ i þeña Heim synduga Meñ Saaluhoolpna ad giøra, er saa Gudhrædslunar Leyndardoomur, er opnar oss Fiaarsioodu Guds Outsegiañlegu Myskunsemda vidur oss, þaa vier eñ þaa vorum hans Ovinir, og fiarlægir Borgar-Rietti þess Andlega Israelis: Pad er þad diirmæta verduga Ord, fyrir hvad vier, i Syndunum Andlega daudir, endurlifnum aptur, til lifandi Vonar, til ad þioona Gudi alla vora Liifdaga, kuñum verda Hluttakendur Gudlegrar Nattturu og Eilijfs Lijfs Erfingiar. Pad er saa Leyndardoomur, er uppørfa aa þa sønu Gudrækni, er alldrei aa ad vijkia wr voru Hiarta, sem kan hugga oss i Daudanum, forsvara oss i Doominum, og leida oss iñ aa Land lifandi Maña, sem frelsar oss fraa þeim ytstu Kvalaña Myrkrum, eñ færir oss til Arfskiptis Heilagra i Lioosinu. Par fyrir, þegar vier vilium reña Augum vorum til þess Eymdaña Afgruns, i hvert vier, vegna Syndariñar, nidursocknir vorum, og aa adra Sijdu yfirvega Afgrun þess Guddoomlega Kiærleika, er sendi siñ Son i Heimiñ, voru Holldi iklæddañ, uppaa þad, allir þeir sem aa hañ trwa, fyrirfarist ei, helldur hafi eilijft Lijf; A og kañ oss, sem vilium Guds Børn heita, og Samarfar Christi, eckert iñdælla vera, so sem eckert er Nytsamlegra, eñ ad yfirvega Holldtekiu vors Drottiñs JEsu Christi, og til vor þar af fliootandi Otal margar Guds Velgiørdir. Petta hefur fyrir Augum hast þad merkilega og liduga Skaald, Æruverdugur og mi-

og Velgaafadur Kieñimañ Sr. Guñlaugur Snorrason, nu Sooknar-Presiur til Helgafells og Biernarhafnar Safnada, i sijnum Psalmum wt af Fædingar Historiu vors Drottiñs JEsu Christi; hvoria, so sem nockurs-konar Leidarvijsir, brwkad hefur Æruverdugur Guds Mañ Sr. Stephan Halldorsson aa Myrkaa, i þessum sijnum Fædingar Hugvekium, hvøriar hañ sendi mier fyrir nockrum Arum sijdañ, i þeirri Von, eg kyñi hiaalpa til þess, ad þetta hañs Gudrækuis Erfidi verda mætti fleirum Guds Bornum til Andlegra Nota: Og þar eg fiñ þiergreindar Hugvekiur ei einasta samhlioda Guds Ordi, helldur til Lærdooms, og Sidserdis Betrunar þienandi, þa læt eg þær nu aa Prent wtgaanga; Med þeirri Hiartañlegu Osk, ad Drottiñ Diirdarinñar leggi sijna rijkuglega Blessan til þessa Verks, hañs haaleita Nafni til Lofs og Dijrdar, og hañs Bornum til æskilegustu Saalar-Heilla!

Skrifad aa Hoolum i Hialltadal, aa sialfa Paals-Messu, Arid 1771.

Gisle Magnusson.
B. H. St.

# 1. Capituli.

Um Skatt-Skriftena.

MJn Saal! Lyptum nu um Stund ockar Trwar-Augum uppa þann nijfædda JEsum, þinn himneska Broodur og Brwdguma, sem kominn er i Heiminn til ad giora Syndarana Saaluhoolpna, medal hvorra þu maatt vel reikna þig hina mestu, 1. Tim. 1. v. 15 og so sem hann er i ollu giefinn ockur og fæddur, Es. 9. v. 5. so laatum allt hvad med ockur er, alla innra og ytra Manns Krapta, fagna samhuga hanns blessadu Fædingu og Auglijsingu i Holldinu. Þetta er saa mikli Fognudur, sem Engellinn bodar, og skiedur ollu Foolki: Alldrei hefdum vid, myn Saal, feingid neina riettkallada Gledi-Stund, nema þetta blessada Barnid JEsus, hefdi ockur fædt og giefid verid; Verum ockur þvi ad taka so þessum Fognudi, ad hanns Kraptur mætti innþrickiast i Hiarta, Hugskot og Sinni; giefum ockur þvi Toom-Stund til ad hugleida þetta blessada Fagnadar Efni. En þar sem vid finnum uppa ockur so mikinn Vanmaatt og Veikleika til verdugrar Hugleidingar a þeim mikla Gudhrædslunnar Leindardoom: Ad Gud er opinberadur i Holldenu, 1. Tim. 3. v. 16. þa allt hvad af Holldi er fædt, þad er Hollid, Joh.

3. v. 6. eñ holldlegur Madur skyniar ei hvad Guds Anda tilheyrir, 1. Cor. 2. v. 14. Þa leitum Lids, mijn Saal, hiaa honum sialfum, sem er Þad Lioos-ed, er upplyser alla Menn komanda i Þennañ Heim, Joh. 1. v. 9. Verum ockur ute uñ nija Raad og Daad i JEsu Fædingar Forþienustu, Aller Mannsins Þaanckar eru fraa Barndoom̃i oniter og einkis verdir; enn i Barnenu JEsu bijr øll Fylling Guddoomsins lijkamlega, Col. 2. v. 9. og af hanns Fyllingu, seigir Johannes, hofum vier aller medtek-id Naad fyrir Naad. Joh. 1. v. 16. Þvi mun hañ laata sinn Naadar-Krapt fullkomnast i ockar Van-mætti, og sinn Barndoom rǽda Boot aa ockar Bernsku, er vid i hanns Otta og Elsku hyggium ock-ur ad skoda og yfirvega hanns dyrmætu Forþien-ustu. Einginn Steinkur kann ad huxast nie talast hæleitari, enn saa, er syndugu Mannkyni veittist af Fodur Lioosanna, Þegar hann gaf Þvi sinn eingietna og elskulega Son, hvorium hann lagdi og alla Hlu-ti i Valld, bædi aa Himni og Jørdu, Matth. 11. v. 27. Þvi kann mannlegt Hiarta aungvann Hlut æd-ri edur ypparlegri sier til Hugleidingar taka, eñ Þa Visdooms-fullu og Mystunar-rijku Raadstøfun DRottins, sem hañ fraa Eilijfu giort hefur uñ vo-ra Saaluhiaalp i Þessum Syni sijnum, Herranum vorum JEsu Christó. So snij eg Þa mijnu Maali til Þijn, miñ JEsu, læt Þijna himneska Naad blessa mitt Aform, og stioorna Hiarta mijnu og Maalfæ-ri, so hvad sem eg hier uñ tala og Þenki, Þad mætti

verda

verda þijnu Nafni til Lofs og Dijrdar, AMEN.

# Textinn.

Enn þad bar til i þann Tijma, ad þad Bod gieck wt fraa Keysaranum Augusto, þad Heimurinn allur skylldi Skattskrifast, og þessi Skattskrift var hin fyrsta, og skiedi i þann Tijma, þa Cyrenius var Landstioornari i Syria. Og allir fooru ad laata skrifa sig nidur til Skatts, hver til sinnar Borgar. Þa foor og Joseph af Galilæa wr Borginni Nazareth upp i Judeam, til Davids Borgar Bethlehem, af þvi ad hann var af Hwsi og Kyni Davids, ad hann lieti Skattskrifa sig med Mariu sinni Trwlofadri Kvinnu, sem var Oliett. Luc. 2. v. 1-6.

Þessarar Skatt-Skriftar, sem Augustus Keysari uppaabaud, hefur H. Andi laatid Gudspiallamanninn gieta vid Jesu Fædingar Sögu, vegna þess, ad af henni vottast, ad Gydingar voru komnir undir annarlegt Walld, og hofdu nockurn Part mist sitt Frelsi, þar fraa þeim var horfinn Kongs-Tignin og hin ypparsta Walldstiorn, sem þeirra eiginn Ættlegg Juda fylgt hafdi, allt fraa Davids Dögum; Og þetta aatti öllum ad vera

Mark og Mid Meßiæ Hijngadkomu, so sem Jacobs Spaadoomur þar um hlioodar: Su Konunglega Spyra skal ecki burttakast fraa Juda, nie helldur Lærimeistarinn fraa hanns Footum, fyrr enn Schilo kiemur, Gen. 49. v. 10. Velldis Spyrann burttookst fraa Gydingum, ecki laungu fyrir Christi Fædingu, enn Lærimeistarinn, sem merkir þad mikla Raad i Jerusalem, segia Menn ad Herodes hafi afmaad a sama Ari og Christur fæddist. So þegar Gydingar voru komnir undir annarlegt Walld, þa sendi Drottinn þeim þann Hertogann, sem þaa frelsa skylldi af Walldi Myrkranna, Col. 1. v. 13. og ei einasta Gydinga, helldur og einninn Heidingia. Vier komunst allir i Adams Falli i obærilega Skulld vid hinn Almaatuga Gud, og urdum Skattgylldir undir eilijfann Dauda, af þvi ad Adam, og vier allir i hanns Lendum, syniudum Gudi þeß riettaSkylldu Skatts Hlijdninnar. Þeßu ysirlijsir Logmaalid segiandi: Bolvadur veri saa sem ecki giorir allt þad sem skrifad stendur i Logmaals Bookinni, Devt. 27. v. ult. Hefdum vier þvi ordid ad gista eilijft Kvalanna Faangelsi, nema annar Fullvedia hefdi i Borgun fyrir oß geingid; Hvorsvegna ad Sonur Guds, intekinn af brennandi Elsku til vorrar Velferdar, took a sig Þioons Mynd, fæddist undir annarlegu Walldi, jafnvel þo hann hefdi sialfur allt Walld a Himni og Jordu, Matth. 11. v. 27. gioristLogmaalinu undirorpinn, og betaladi so fyrir oß hinn sijdarsta

Þen-

Pening, med sinni Hlijdni, er hann sijndi Fodurnum allt i Daudann, jaa, allt i Krossins Dauda, Phil. 2. v. 8.

O miin Saal! Forundra þig i Hiartans Audmykt og Andakt yfir Grunnlausri Giædsku þijns Himneska Fodurs og Skapara, er hann took þad Wijsdoomsfulla Myskunar-Raad sem alleina duga kunni þier og øllum Heimi til Saaluhiaalpar, ad laata hann sem var Løgmaalsins Herra gioraſt Løgmaalinu undirorpinn, og þo hann Løgmaalid uppfyllti i øllum Greinum, þa ber hann samt þess Bølvan, til ad frelsa oss þar fraa, sem Daglega briootum Løgmaalid, Gal. 3. v. 13. Hann var i Guds Mynd, segier Paall, Phil. 2. v. 6. 7. þo hiellt hann þad ecki fyrir Raan Gudi lijkur ad vera, helldur mijnkadi hann sig siaalfann, so hañ med sinni blessadri Audmykt bætti fyrir vora Drambsemi, og med sinni diwpu Nidurlægingu afrekadi oss þa allra betstu Uppheſd, sem er: Ad vier meigum Guds Born kallast, vier allir sem a hañs Nafn trwum, Joh. 1. v. 12.

Textinn segier: Ad Joseph Hafi Ferdast Med Mariu Uppi Judæam Til Ad Lata Skattskrifa Sig, eptir Bodi Keysarans. Af þeirra Dæmi maattu, miin Saal, Hlijdnina læra. Hlijdni er betri enn Offur, sagdi Samuel vid Saul, 1. Sam. 15. v. 22. Eckert Offur var Gudi þacknæmt i gamla Testamentinu, nema þad framfært væri i Hiartans Hlijdni: Hun er saa Skylldu Skattur

sem Skaparinn skilur sier af Skiepnunni; Latt þier þvi aungvann Hlut so skylldann vera, sem ad hlijdnast Bodum þijns Skapara; Og þa hefur þu þad Offrid tilreidt, sem honum þacknæmt er fyrir JEsum Christum, nær þad er upptendrad med Elldi Elskunnar til Guds.

Vier eigum ecki helldur ad gleima þeim Skylldu Skatti sem vier eigum ad gialldu Yfirvolldunum, er Gud hefur sett i sin Stad a Jordunni og skipad ad sijna þeim Hlijdni og Hollustu, hvors vegna hann verdur sialfur þar med dijrkadur, þa vier, hanns vegna, veitum Heidur og Hlijdni hanns Þienurum, so sem Christur segier um Kiennendurnar: Hvør ydur heyrir, hann heyrir mig. Hier ad auk þa leggia Yfirvolldin mikid in hiaa sijnum Undirsatum med þeirri vakandi Umhyggiu, er þau bera fyrir þeirra Velferd, bædi lijkamlegri og Andlegri, eins og einn Fadir fyrir Bornum: Hvors vegna þau i Ritningunni kallest Fedr. Vert þvi ecki, Christinn Madur, so Oþacklatur vid Gud nie hanns Umbods Menn, ad þu med Naudung edur Tregdu vtilatir þa Hollustu, sem þeim ber: Þvi hvør hann mootstendur Valldstioorninni, segir Paall, Rom. 13. v. 2. sa mootstendur Guds Skickan, enn þeir sem i mooti standa, munu yfir sig leida Dooms Afelli, þvi greinir hann kiooslega, hvad vier sieum um skylldugir Yfirvolldunum segiandi: Giefid þad hvørium sem þier skylldugir erud, þeim Skatt, sem Skattur heyrir, þeim

þeim Toll er Tollur heyrir, þeim Otta er Otti heyr-
ir, þeim Heidur sem Heidur heyrir. Enn þu,
HErra JEsu, sem vor vegna ert undirgiefinn ord-
iñ, og hefur oss til Eptirdæmis Yfirvalldinu Skyll-
dur golldid, Matth. 17. Vyrdstu ad styrkia Yf-
irvolld-nn i ollum þeim Verkum, sem þau eiga i
þijnu Umbodi ad giora, og gief Undirsaatunum
hlydinn Hiorru, so ad vier, hvor i sinni Kallan,
fundum Kostgiæfilega vora Skylldu i þijnum
Otta, ad þijn verdi Dijrdiñ og vor Velferdiñ, Amen.

## 2. Capituli.

Uñ Fædingu Christi og Reisana.

Og er þau voru þar, þa kom Tijm-
iñ ad hun skylldi fæda, og hun fæd-
di siñ Frumgietiñ Son, og vafdi
haañ i Reifum, og lagdi haañ nidur i Jo-
tuna, hviad þau hofdu eckert Rwm i Gi-
estta Herberginu, Luc. 2. v. 6-7.

Merk hier nu fyrst, mijn Saal, Drottinns
Vijsdoomsfulla Speki, einniñ hanns Orimf-
anlega Trwfesti, sem alldrei hefur brugdist fraa Ei-
lijfd: Med Skatt-Skriftinni vottadi Augustus
Keysari sijn Yfir-Raad yfir Judum; Enn þa so-
mu liet Gud þiena til þess, ad fæera Messiam til
sijns rietta Fædingar-Stadar, sem ad var Bethle-
hem, eptir þvi sem Spaamadurinn Micheas þad
liooslega fyrir segier: Og þu Bethlehem Ephra-

tá, þu sem ad ert lijtil a medal Þusunda i Juda, ut af þier skal mier koma sa, sem vera skal HErra i Jsrael, Mich. 5. v. 1. So kann hinn almättugi Gud ad snwa ollum Hlutum sijnum til gooda, hafa Hondina med i Verkum og Athofnum Mannana, og stioorna þeim a þann Hætt, sem þeir kannskie eckert afvita og sijst tilhugdu. Lænngt þokti Guds Monnum i Gamla Testamentinu ad þreigia eptir Fyrirheitinu um Meßiam, þo kom þad fram a þeim sama Tijmans-Punct, sem þar til var akvardadur i Guds Fyrirhyggiu, og þad med ollum þeim Krijngumstædum sem Spaadoomarnir greindu; Þvi Guds Fyrirheit meiga alldrei bregdast, og ecki einn Titill a Jord falla af hanns Ordum. Lættu þvi þitt Urrædi, mijn Sæl, vera þad sama i ollum Naudum, ad vona uppa Drottinn, Þvi Vonin lætur ecki til Skamar verda, Rom. 5. v. 5. Vid hana mættu og skalltu liggia, so sem obrigdult Lijfs-Atkier i allri Areynslu.

Textinn seigir: Ad Tijminn Hafi Komid Þad Maria Skylldi Fæda. Þessi Mariu Tijmi var Guds Myskunar Tijmi, Mannkynsins Endurlausnar Tijmi, allrar Verralldarinnar Hiælpræðis Tijmi; þvi a þeirri somu Tijmans Stundu opnadist su Lijfsins Uppspretta, hvadan flotin er oll Naad og Blessan, oll Heill og Velferd, er syndugu Mannkyni hlotnast: Þvi þar er eckert annad Nafn Monnum giefid undir Himnenum, i hvoriu þeim byrie hoolpnum ad verda, utann alleina Nafned JEsu.

Ack

Act. 4. v. 12. Minnstu hier wt af, mijn Sæl, æ Tijmann: Tijminn er Guds, hier, sem annad Avaxtar-Fie, epterlaaten̄, hvar af Renta verdur sijdar meir heimtud, þegar kiemur ad Reikningsskapar Tijdinni. Varastu þvi ad eyda Tijmanum med Leti og Hyrduleysi, edur Ogudlegu Lijferni og vondum Verkum: Brwka so Tijmann, medann hann giefst, ad þu þurfir ecki þar eptir ad siaa med Angist, þa Tijminn giefst ecki leingur. Þetta er þinn Vitiunar Tijmi; Medtak þvi ecki Guds Nædar Vitiun til Onijtis, þviad i þægann Tijma bænheyrdi han̄ þig, og æ Deigi Hiælpræddisins hiælpadi han̄ þier, 2. Cor. 6. v. 1. 2. Tijmans Punctar standa i DRottins Hendi, þad er ei vert þaa ad vita; varastu þess vegna ad skygnast þar i fram̄ yfir Hoof og Mæta, med holldlegri Forvitni, edur ad vera hugsiwkur um̄ eptirkomandi Tijma; Befala hid okomna DRottni, og vona æ hann, hann mun þvi vel til Vegar koma, Ps. 37. v. 5. Sæll er sa, sem alltijd reiknar Guds Tijma vera sinn Tijma, hvort hann er til Gledi edur Sorgar, og er æ Gledinnar Tijma varfærin̄, og æ Sorganna Tijma þolgoodur, bijdandi i Stodugleika Vonar og Trwar eptir DRottins Hiælpar Tijma, þvi þo han̄ meigi stundum lijda Undanndraatt, þa mun hann samt komandi koma og ecki tefia, þvi sa verdur alldrei til Skam̄ar sem bijdur DRottins.

Hun Fæddi Sinn Frumgietinn Son; Þegar Satan horfadi fraa Gudi, þa wtklakti han̄ a skræ-

mislegum Frumgietningi Syndar og allrar Olucku, hvar af Bølvan og Daudi kom yfir Adam og alla hanns Nidia; JEsus Christur, sem kominn er ad nidurbriota Diøfulsins Verk, 1. Joh. 3. er af Mariu Meyu borin og fæddur i Heim heññ, so sem himneskur Frumgietningur allrar Blessunar, hvar af Nadinn og Lyfid er aptur komid yfir Adam og alla hanns Nidia, þvi hann er Frumgietningur medal margra Brædra, sijns Fødurs Kraptur, 1. Cor. 1. v. 24. til ad leida þaa alla, sem hønum teingiast fyrir Trwna, til Arf-Skiptis heilagra i Lioosenu. Col. 1. v. 12. Gud giæfi, ad vors Endurlausnara blessud Fæding bæri hiaa oss þann Avøxt, ad vor iñri Madur endurfæddist til andlegs Lijfs i Trwnni og goodum Verkum, sa hann fyrir Krapt þeirrar skijru Guds Orda Mioolkur mætti daglega Dafnaa, taka i allri Gudrækni, ad vier fullkominn Madur yrdum, sa hañ er i Mæling fullkomins Alldurs Christi, Eph. 4. v. 13. og þo vor Ummyndan eptir JEsu Mynd, sem er Riettlæti og Heilagleiki Sannleikans, v. 24. verdi i þessu Lijfi ecki nema Haalfverk vegna vors Hollds Veikleika, og medfilgiandi Spillingar, ad vier samt mættum i ødru Lijfi bera hana fullkomlega, þar sem Haalf-Verkid mun Enda taka!

Þennañ sinn frumgietna Son Vafdi Maria J Reifum. Blessud er Audmijkt þijn, miñ HErra JEsu, ad øllu ertu oss lijkur ordinn, ad fraatekinni Syndinni; Sannarlega ert þu eirn og hinn sami, sem

sem David syngur um̃, er han̄ seigir: Þinn Klædnadur er Liooß sem þu ert i, þu wtbreidir Himininn sem annad Vefnadar-Tialld, Ps. 104. v. 2. Þo giørdist þu þurfinn almennilegra Reisa, þa þu tookst aa þig Eymdir vorar, til ad wtvega oss þad Klædi, er hylia kynni vora andlega Blygdan.

Mitt Hiarta særist og æängrast, þa eg hugsa til þess, hvad margt andstyggilegt Synda Afkvæmi eg alid hefi i mijnu Briooste, og reifad med holldlegum Þaunkum, Saaluñi til Meins og Skada; Eñ þad er mijnu Hiarta hin besta Grædsla og Gledi, ad þeinkia aa þinn signada Barndoom, sem var heilagur, hreirn og frææskilinn Syndinni, Ebr. 7. v. 2. þvi þad vard miñi Saalu til blessadrar Um̃bootar allra siña Bresta og Bodorda-Brota; þvi med þijnu Sakleysi hefur þu fyrir mijnar Sakir bætt, og med þijnu Riettlæti, riettlætt mig rææinglaatann.

Hun Lagdi Hañ J Jotuna, Þvi Ad Þau Høfdu Eckert Rwm J Giesta-Herbergenu. Hvar var nu, minn JEsu, þijn eilijfa Kongs Tign, sem Salomon segir, ad Himnanna Himnar fææi ei innilukt, 1. Reg. 8. v. 27. ad þu hlijtur ad kreppast hier i einum Villudijra Stalli? Vissulega hefur þu þo frææ Eilijfu hast allt Valld aa Himni og Jordu, og þoo medtookt þu þijner eigiñ þig ecki, þegar þu komst til þinnar Eignar, Joh. 1. v. 11. so sneñia took þiin blessada Fææteekt ad byriast, mz hvorri þu bættir Ørbyrgd vora og Efnaleysi aa øllum goodum Hlutum: Þvi þad meigum vier vita, Christner Meñ ad eck

stied

edur þad an Orsaka, ad Guds Syni velsi so aud-
virdilegur Fædingar Stadur: Vier Syndarar-
ner hofum þess bestu Not, bædi i þessu og odru Lijfi.
Fyrst þa komum vier i Heim þennan af Lijfi vorr-
ar Moodur, so sem Giester og Framande, berer og
nakter, og gietum sialfer aungva Biorg oss veitt,
þa sorgar oss Guds fodurleg Giæska fyrir Herber-
gium og allri Hiwkran, so vier ecki deyum wtaf i
vorri Vesolld; þo vier sieum vesælaster allra Guds
Skiepna, i þvi, ad flestar þær eru nockurn Part
sialf-færar skomu eptir Fædinguna, enn Manski-
epnunni mæ leingi framfara til þess hun skridid gi-
etur, þvi helldur uppreitt stadid, þa hefur samt vor
blessadi Lausnari raadid so Boot a þessu voru
Synda-Straffi, ad vier kunnum vid Lijfid ad halld-
ast, med bærilegum Naudum, fyrir Forsioon hans
sem Lijfid gaf. Enn fyrir þvi, ad Tialldbwd þessa-
ra Herbergia er forgeingileg, og vier hofum hier ecki
blijfanlegan Sama-Stad, Ebr. 13. v. 14. þa er oss
tilreidd og bwinn, fyrir JEsum Christum, ein onn-
ur Bygging, af Gudi uppbygd, Hws eigi med
Hondum giort, þad æfinlegt er a Himnum, hvar
um hann sialfur taladi vid sijna Læri sveina, undir
sijna Pijnu; Eg fer ad tilbwa ydur Stad, Joh.
14. v. 2. vid hvoria Von vier lifum, so leingi sem vi-
er erum i Fiarlægd fra DRottni. 2. Cor. 5. O!
HErra JEsu Christe, þegar vier skulum gaanga
vora sijdustu Reisu, fra þessa Heims Herberg-
ium, laat oss þa DRottinn minn, niota þinnar

Ut-

Utlegdar og Anaudar, jaa allrar þinnar Forþienustu, so vier fyrir hennar Krapt, mættum þa medtekner verda i þau Himnesku Dyrdar Herbergi, so sem Heima-Menn Guds og hanns Engla, til ad niota þar eilijfrar Vistarveru, hvar ad er Gnoogt Fagnadar og gledilegt Lijf til Guds hægri Handar eilijflega. Ps. 16. v. 11. Bænheyr þad fyrir þijns Nafns Sakir, Amen.

# 3. Capituli.

Um Bodskap Engelsins til Fiaarhirdaranna.

DEr Fiaarhirdarar voru þar i sama Bygdarlage vakande, sem voktudu Hiord sijna um Noottena, og siaa, ad Engill DRottins gieck til þeirra, og DRottins Byrti liomadi i krijngum þaa, og þeir urdu nærsta miog Ottaslegnir, og Engillinn sagdi til þeirra: Ottist ecki, siaaid, eg boda ydur mikinn Fognud, þann er skie skal ollu Foolki; þviad i Dag er ydur Frelsarinn fæddur, sa ad er Christur DRottinn i Borg Davids. Og hafid þad til Merkie: Þier munud finna Barnid Reifum vafid, og lagt vera i Jotuna. Luc. 2. v. 8-12.

SO sem þessi blessadi Bodskapur er lijka kominn til vor, sem saatum i myrkvum Dal og Dauda-

anns

ans Skugga, so latum ofs hann i einni andlegri Hiartans Gledi nockud framar yfirvega. Og ad hier vel heima þad Salomon seigir; Goodr Bodskapr af fiarlægu Landi er sem kallt Vatn þyrsti Saulu, Prov. 25. v. 25. Eingiñ Bodskapur hefr so gledilegr bodiñ verid fra Veralldar Upphafi, sem sa, er Guds Englar bera af Himni i JEsu Fædingu; hann er ein blessud Svala Lynd ollum ormæddum Saalum. Þar la eitt hrædilegt Anaudar-Ok ad Herdum allra Adams Nydia, sem var Syndinn, þeim yfir Hofud geingiñ, med sijnu filgiandi Straffi; Hiti Gudlegrar Reidi, hvorrar Elldur ad brennur allt til nedsta Helvijtis, smellti Hiartad; Logmalsins Bolvan orvijngladi Samvitskuna, so Saalarinnar Kraptar skrælnudu upp, eins og Gras i Sumar-Þurk, þar eckert la annad fyrir ofs enn sw Gryfiann hvar eckert Vatn var inni, Zach. 9. v. 11. eñ Sonur Guds, JEsus Christur, hrærdur af Medaumkan yfir Oforum vorum, opnadi gruñlaust Naadar-Haf sijns himneska Fodur, so þadann wtflutu til vor aumra Syndara, lifandi Myskunar-Fossar, sem fridstilltu Samvitskuna, hugsvoludu Hiartanu, og endurnærdu Saalena; Hier til eru aller Naadar-þyrster og naudstadder kallader af DRottni, fram af Spamannsins Munni: Nu vel, þier sem þyrster erud, komid til Vatnanna, og þier sem aungva Peninga hafid, komid og kaid Okeipis Vijn og Midolk. Es. 55. v. 1. David fieck eitt Sinn undarlega sterka Lyst til

Vatns

Vatnsins i Brunnenum undir Bethlehems Porti, sem var umkrijngd af Philistæis, so hanns Kappar brutust giegnum Ovinaña Fylkingar eptir Vatnenu; 2. Sam. 23. Enn sijdann er i Bethlehem uppsprotteñ eirn lifandi Lijffins Brunnur, af hvorium ef nockur dreckur, þa skal hann ei hwngra nie þyrsta ad eilijfu. Joh. 4. v. 14. Þessi blessada Lijfsins Lynd er ecki af Fiandmonnum umkrijngd, þvi þad er frij-opinn Brunnur, Zach. 13. v. 1. til hvørs ad øllum er lidugur Gangur veittur; Gud giæfi! Vier eptir þvi værum riettilega hwngrader og þyrster, og mundum vier hier af Lijf-kroptugu Sæolun odlast, og þad med enn meiri Feiginnleik helldur enn eirn þyrstur Madur af kolldu Vatni.

Þar fyrir, Guds Born, þier sem finnid til Hitans af Guds Reidi, þier sem finnid hiær ydur Skort a øllu Goodu, og heyrid med Hiartans Angri og Kvijda Hootanir Løgmaalsins, komid hijngad, komid hijngad, segie eg, og heyrid Bodskap Eingilsins er hann ber oss i Guds Umbodi: Ottist Ecki, Siaid, Eg Boda Ydur Mikiñ Føgnud, Þann Er Skiedur Ollu Foolki, Þviad J Dag Er Ydur Lausnarinn fæddur. O! Blessadur sie sa Mystkunsami og Milldirijki Gud ad eilijfu! Sem oss hefur frelsad fra øllum Orvæntingar Otta, þvi þad fyrirheitna Kviñunnar Sæd ier nu i Heiminn komid til ad sundurmola Høggorms sins Hofud, Gen. 3. v. 15. Fra Daudanum, þvi sa nijfæddi Lausnarinn hefur Daudann upp-

svelgt

svelgt i Sigur, Esa. 25. v. 8. Fra Syndariñar Straffe; þvi Blóodid JEsu Christi hreinsar oss af allri Synd, 1. Joh. 1. v. 7. So vier þurfum nu ecki framar neitt ad ottast, nema Gud sialfañ ad þvi ad syndga, þo med aungvum Prældooms Otta, helldur med einum Sonarlegum Otta, i Elsku og Kiærleika, aalijka og eitt hlijdid Barn Ottast ad styggia goodann Fodur; Uñ allt þetta hefur sialfur Gud laatid sinn Anda giora oss fullvissa fyrir Postulans Munn, seigiandi: Þier hafid eigi medtekid Prældooms Anda, so þier þurfid aptur ad ugga uñ ydur, helldur hafid þier medtekid eirn Oska-Barna Anda, fyrir hvorn vier kollum: Abba, elskulegi Fader.

Vissulega er þetta eirn mikill Fognudur, þvi hañ hugsvaler oss yfirgnæfannlega i allri vorri Hrygd. Þetta er almennilegur Fognudur, þvi hann skiedur ollu Foolki, og heyrir eins vel til þeim syndugasta sem þeim heilagasta, nær þeir leita hañs med audmiwkum Anda og Naadar-þyrstu Hiarta. Þetta er ockar einka Lijkn og Huggun, mijn Saal, þegar Samvitskañ sañar aa ockur so og so margar Synder mooti Gudi, so þar er ecki Fridur i ockar Beinum fyrir þanns Ognan, Ps. 38. v. 4. þvi Christur er kominn i Heimenn til ad giora Syndarana Saaluhoolpna, 1. Tim. 1. v. 15. og ad kalla synduga enn ecki riettlaata til Ydranar. Matth. 9. v. 13.

Hier nærst minnustum þess mijn Saal: Ad þa Adam hafdi brotid Guds Logmaal, þa rak Drott-

inn hann wt af Paradijsar Alldingardi, og setti Cherubim i Gards-Hlidid, med eitt nakid sveipandi Sverd, til ad geima Veginn sem liggur til Lijfsins Tries, ad Madurinn skylldi ecki ad þvi komast. Nu er aptur af Guds Engli bodadur Adam og ollum hanns Nidium frij og lidugur Vegur til þess Himneska Lijfsins Tries, þeirrar Paradijsar sem þar uppi er: JEsus Christur Sonur Guds er þetta Lijfsins Trie, sprottid af Root Jesse, berandi fagurbloomgada Lijfsins Avexti, sem alleina kuña wt ad drijfa þa Olyfian, sem Adam aat i sig med Avoxtum Skilnings Triesins, Goods og Ills. Giætum vid, mijn Saal, lagt þess Bloo vid ockar Akomur, þa mundum vid heilbrigd verda, þvi Johannes segier: Ad þau þieni Heidingium til Heilsubootar, Apoc 22.v.2. Lunduriñ skylldi fordum Jonæ Spamañi fyrir Soolar-Hitanum, o hann nædi ecki ad brenna hann; Enn þegar Bruna-Hiti Gudlegrar Reidi vill smellta vorar Saalir, þegar Stormar Freistinganna skaka og skelfa vorar Samvitskur, þegar Hretvidri Hormunganna vilia nidurslaa vor Hiortu, þa er vid ollu þessu hin sama Boot: Ad vier, med audmiwkri Bæn og stodugri Trw, flyum undir Skugga þessa Blessada Lijfsins Tres; Þar kunnum vier ohulter felast, medann Reidinn fram hiaa geingur. Ad sijdustu maa þad vera oss til Eptirtecktar, ad þessi blessadi Bodskapur, um JEsu Fædingu, var fyrst borinn Fiarhyrdurunum, sem voktu yfir Hiord

sinni um̃ Roottina. Vilier þu, Christinn Madur, ad Lausnarans Fæding komi þier til Nota og Blessunar, þa mættu ecki sofa i Andvaraleysinu, helldur hlijtur þu ad vaka, jæ, hallda sijfellda Vakt yfir þinni Sælu, so sæ Helvijtski Ulfur, Diofullinn, og hanns Sendisveinar, Heimurinn og þitt eigid Holld, nái ecki ad yfirfalla þig. Minnstu þess er Lausnarinn sagdi: Vakid og bidied, so þier fallid ecki i Freistni, Matth. 26. v. 41. Enn þu, Himneski Israels Vaktari, sem ecki sifiar, Herra JEsu Christe, hafdu eitt vakandi Auga yfir oss, þinni veiku Hiord; Byrdstu ad vaka i oss, fyrir þitt Ord og Anda, og lææt vor Hiortu vaka i þier, fyrir lifandi Trw og Hiartfoolgna Gudrækni; Og þegar sa sijdarsti Daudans Dwr æ oss rennur, þa gief Drottinn, ad vorar Sælir mættu flytiast af þijnum Englum til þess eilijfa Sauda-Hwss, og glediast þar af þijnum Dijrdar Lioma um̃ allar Alldir, Amen.

# 4. Capituli.

Um̃ Lof-Saung Englaña.

OG jafnskiott var þar hiæ Englenum Margfiolldt Himneskra Hersveita, sem lofudu Gud og sögdu: Dijrd sie Gudi i Upphædum, og Fridur æ Jordu, og Moñum goodur Vilie. Luc. 2. v. 13. 14.

Hlust=

HErstum hier til, mijn Sal, hvorniñ þeir Himneſku Herſkarar loſa Gud, og ſamfagna ockur med þa bleſſudu Hellſu-Giøf, ſem ockur er veitt i Jeſu Fædingu. Skylldt være ockur med Englunum undir ad taka, og læra af þeirra Dæmi, ad prijſa Fodur Myſkunſemdanna, 2. Cor. 1. v. 3. og hugleida þa ſtooru Nad, ſem hañ audſyndi ølluñ Mañlegu Kyni i Sendingu ſijns Sonar i Heim þenna: Ja, einginn Hlutur er ſkylldugri enn ad vegſama Gud, ſem er ſiálf Dijrdinn og Vegſemdinn; Og þo allar Skiepnur ſieu hier til ſkylldugar bædi a Himni og Jordu, þa er þo einginn ſkylldugri þar til enn Mannſkiepnann, þvi uppa aungva þeirra hefur hinn eilijfi Gud ſlijku koſtad: Ecki hefur Jeſus Englana helldur Abrahams Sædi a ſig tekid, Ebr. 2. v. 16. þo prijſa Englarnir hanns Fædingu: Hvad mun oſs þa byria, oſs, hvoriuni hann er alleina giefinn og fæddur, Eſa. 9. v. 5.? Himin og Jord eru full af Dijrd Drottinns, og hvort ſem vier Augum rennum, þa ſiaum vier i allri Att hanns Dijrd, hanns Almætti, hanns Vegſemd; Enn hellſt ætti oſs til Hiarta ad ganga Dijrd hañs Myſkunar og Oumrædilegs Kiærleika, er hann augliijſti oſs i ſijnum Syni; Þvi medal allra þeirra Myſkunar Verka, ſem hann framid hefur fra eilijfu, þa er þetta hid allra meſta og ypparlegaſta; Ad hann liet ſinn Eingietna Son, i hvorium hann alleina hafdi ſijna Velþocknan, taka a ſig vora Natturu, til þeſs ad lijda i henni Kvol og Dau-

da, ofs, sijnum Ovinum, til eilijfs Hiaalpræðis. Hier um talar siaalfur Sonurin: So elskadi Gud Heiminn, ad hann wtgaf sin eingietin Son, uppa pad, ad aller peir sem a hann trwa, fyrirfarist ecki, helldur hafi eilijft Lijf Joh. 3. v. 16. O! Hvad maklega maa hvor vorra fyrir sig undir taka med Jacob: Minni er eg DRottinn, allri peirri Myskun, og øllum peim Sannleika, sem pu hefur veitt pijnum Pienara: Gen. 32. v. 10. Og med Daniel: Pu DRottinn ert riettlaatur, enn vier meigum skammast vor, Dan. 9. v. 7.

Fridur A Jordu, segia Englarner. Pa vorer fyrstu Forelldrar Adam og Eva, brutu Guds Logmaal, pa felldu pau yfir sig, og alla sijna Nidia, Oblijdu hanns almaattuga Guds, so vier vorum aller sem Fridlausir Obocta-Men, og pad vid hann, um hvorn Spaamadurin segier: Nah. 1. v. 6. Hvor mun standa fyrir hanns Reidi? Eda hver maa blijfa fyrir hans Grimd? Hanns Reidi brennur, sem Elldur, og Biorginn springa i sundur fyrir honum. Hvad skylldi ofs pa gledilegra vera, enn ad Guds Englar boda Frid yfir Jordunni? Hvar fyrir boda peir Fridinn? Pvi Fridarins Hofdingi var fæddur, hvor ed sagt hefur: Joh 14. v. 27. Minn Frid gief eg ydur. Hvilijkur er pessi Fridur? Pad er Fridur vid Gud i Himnenum, hans Naad og Vinaatta, hvar af ad kiemur Samvitskunnar Fridur i Gudi, vid hvern vier vitum ofs forlijkta. Hier um talar Paall, Rom. 5. v. 1. segiandi:

di: Med þvi vier erum nu riettlæter ordner fyrer Trwna, þa hofum vier Frid vid Gud, fyrir DRottinn vorn JEsum Christum. Þetta er sa Fridur, sem Verolldinn fær ei giefid, og Verolldin fær ei af oss tekid, þvi þo hun hvervetna Ofrid sijni og Ofsookner, þa em eg þess fullviss, ad hverki Daudi nie Lijf, hverki Engill nie Hofdingia-Stiettir, eda Magt, hvorki hid nælæga nie Okomna, eigi Hæd eda Diupt, nie nockur önnur Skiepna, fær oss skilid fra Guds Kiærleika, hvor ad er i DRottni vorum JEsu Christo. Cap. 8. v. 38. 39. Þessi Fridurin huggar skielsdar Samvitskur vorar, nær vier finnum hia oss heilags Anda Vitnisburd ad vier sieum fyrir Jesum Christum Guds Born ordnir. v. 16. Þessi Fridur endurnærir sorgmædd Hiortu allra Guds Barna, þvi þo þau hafi Hrygd i Heimenum, þa hafa þau Frid og Fognud i JEsu Christo. Þetta er Fridur Guds, sem er ædri ollum Skilningi, Phil. 4. v. 7. þvi helldur legur Madur fær hann ecki skyniad, helldur þeir einir, sem uppljster af heilogum Anda þeckiu so Synder sijnar, ad þar var ecki Fridur i þeirra Beinum, sokum þeirra Misgiorda, Ps. 38. v. 4. þessir þeckia hvad kostulegur, hvad dijrmætur og hvad gledilegur ad er þessi Fridur, þegar Guds Andi sannfærir þa aptur, um Naad Guds og Fyrirgiefning allra þeirra Synda fyrir JEsum Christum. Þegar Vatns-Floodenu rienadi fordum af Jordunni, þa setti Gud sitt Fridar-Teikn i Skyjunum þar uppa, ad hann

villdi ecki framar fordiarfa allt Hollð. Gen. 9. v. 11. Enner hanns Giædska villdi binda eilijfann Frid vid vórar Saaler, þaer af hanns Hiarta wtgeinginn sa himneski Fridar-Boginn, hanns Eingietinn Sonur JEsus Christur. So opt sem vier horfum nu a hann vorum Trwar-Augum, þa verdum vier fullvisser þar um, ad Guds Reidi-Flood sæ alldrei grandad oss ad eilijfu. Undir þessu blessada Fridar-Merki skulum vid hallda ockur, mijn Saal, þar meigum vid aarna ockur allskyns Heilla, i fullri Von nadugrar Bænheyrslu, þvi Gud hefur til ockar Þaanka Fridarins, og oll hanns Fyrirheit eru i þessum hañs Syni Ja og Amen. 2. Cor. 1. v. 20.

Ad Siidurstu, seigia Englarner: Og Moñum Goodur Vilie, edur, Velþocknan. Ecker er hiaa oss, so sem af oss sialfum til, nema þad eina, sem Anstygd er fyrir Gudi, þvi þar er einginn sa ed gott giorir og ecki eirn; Ps. 14. v. 3. enn i Christo hefur Faderiñ alla sijna Velþocknan, Matth. 3. v. 17. og fyrir hañ og i honum alleina erum vier Gudi velþockadir, Eph. 1. v. 6. so þar er eingiñ Velþocknan Guds til Syndarans, nema su sem kominn er af þeim Teingdunum, sem ordnar eru milli hanns og vor i JEsu Holldgan, so vier erum Hollð af hañs Holldi og Bein af hanns Beinum, Eph. 5. v. 30. og hann skamast sijn ecki ad kalla oss sijna Brædur. Ebr. 2. v. 11. Þvi seigir Johañes: 1. Joh. 4. v. 10. J þvi er Kiærleikuriñ, ecki ad vier elskudum Gud, hellð-

helldur ad Gud elſkadi oſs, og ſendi ſiñ Son ad hañ være Forlykun fyrir vorar Syndir.

Vilier þu nu, Saal mijn, ecki finnaſt of Oþackꝛ laat þijnum Gudi og Himneſka Fodur fyrir ſo hꝛaꝛ leita og Ometanlega Raad, þaa laat aptur aa moot þijna Velþocknan vera i Guds Vilia, og þijna Liſting i hanns Logmaali, ecki einaſta ad tala þar um, helldur og einninn ad liſa þar eptir i Falslauſꝛ ri Trw, Hræſnislauſum Kiærleika og goodri Samvitſku, 1. Tim. 1. v. 5. Vilier þu JEſu Fridar niſota, þa Hugleid hvad til þijns Fridar heyrir, ſem er: Ad hallda Eindrægni Andans, i allri Gudrækni, fyrir Band Fridarins, Eph. 4. v. 3. Þu ert ordinn Gudi velþockud i hañs Synꝛ ni, þo er þad med þeim Skilmaala: Ad þu Ottꝛ iſt Gud Pſ. 147. v. 11. ad þvi ad ſyndga, og laatꝛ ir hanns Myſkun avinna þig til goodra Verka, til hvorra þu ert ſkopud i Christo JEſu, Eph. 2. v. 10. Vakta þvi Hiarta þitt fyrir ollu þvi ſem þeſſum bleſſada Fridi kañ ad raſka, ſem er: Holldꝛ ſins Verk; ſo ſem Hoordoomur, Frillulifnadur, Saurlijfi, Lauſung, Skurgoda-Dijrkan, Fiolꝛ kijngi, Fiandſkapur, Þrættan, Kijf, Reidi, Aꝛ greiningur, Tvijdrægni, Flockadraattur, Hatur, Mord, Ofdryckia, Ofaat og þeſſu lijkt, Gal. 5. v. 19. 20. 21. Hvor ſaa ſem Frid giorir vid þeñꝛ ann Ołlldar-Flock, hañ hefur tapad JEſu Fridi, og er ordinn af Siaalfſkapar-Vijtum Barn Reidꝛ innar. Enn, þu bleſsadi Fridarins Hofdingi, giꝛ

ef ofs Fulltijngi af Hædum, mooti þinni Fridar Giof so ad taka, og hana ofs i Nyt fœra, ad ofs audnast mætti, eptir asstadna Hiervistar Styrioud vora, i Himneskum Fridi og Fognudi, þig med Fodur og H. Anda, ad lofa og priisa um allar Eilijfder, Amen.

# 5. Capituli.

Um Reysu Fiaarhyrdaranna til Bethlehem.

Og þa er Englarnir fooru fraa þeim til Himins, toludu Hyrdararnir hvor vid annan: Gaungum vær til Bethlehem, og siaaum þad Verk er þar er skied, sem Drottinn hefur opinberad ofs. Og þeir komu med Skunda, og fundu bædi Mariam og Joseph, og þar ad auk Barnid liggia i Jotunni. En þa þeir hofdu þad sied, vijdfrægdu þeir þad Ord wt, sem til þeirra var sagt af þessu Barni. Og allir þeir, er þad heyrdu, undrudust af þeim Ordum, sem þeim var sagt af Hyrdurunum. En Maria vardveitti oll þessi Ord, og yfirvo þau i sijnu Hiarta. Luc. 2. v. 15. = 19.

Atum nu mijn Saal þad Tijmanlega bijda um Stund, enn komum og forum vid med Bethle-

lehems Fiaar-Hyrdurum ad leita ad þeim mifsæd-da JEsu, og þeinkium ockur um, hvar og hvorn-inn vid kunnum hann ad finna: Ecki gietur þad latid sig giora med Lijkamans Footum edur Aug-um, i þeirri Jardneſku Bethlehem, þvi hann er ad ſijnilegum Samviſtum vikinn fraa þeſſari Ver-olldu, ei ad ſijdur ſegieſt hann Matth. 28. v. 20. vera hiaa oſs alla Daga, allt til Enda Verralldar: Og er hann ad finna i þeirri Andlegu Bethlehem, edur Braud-Hwſi Guds Heil. og Lyfkroptugu Orda, þar er hann med ollum ſijnum Fædingar og Forþienuſtu Avoxtum oſs fyrir Augum afmaa-ladur Gal. 3. v. 1. Þar fyrir, viler þu, Chriſt-inn Saala, finna þinn JEſum, þa heyr med Gaa-umgiæfni hvad Gud talar til þijn i ſijnu H. Ordi, og trw þvi af Hiarta. Gaumgiæfnin og Trw-inn eru þær Hendur, ſem JEſum eiga ad finna, ſkoda og aaþreifa: Gaumgiæfninn giefur Ordinu Inngaungu i Hiartad, Trwinn innſiglar Ordid i Hiartanu; Þvi hvor haſi medtekur JEſu Vitn-isburd, (ſem hann vottar fyrir oſs i ſijnu Ordi), ſa innſiglar þad, ad Gud ſie Sannordur, Joh. 3. v. 33. Þad er, hann finnur til þeſs, ſo ſem eitt Inn-ſigli þrickt i ſitt Hiarta, ſem er Trwinn, ad Gud ſie Saññordur, ſo ſem Lutherus wtleggur þeſſi Ord, og ſo dregur lijka Trwinn til ſijn þann Naadar-Krapt ſem Ordinu jafnann fylgir. Sa ſem hey-rir Ordid aan Gaumgiæfni, hiaa honum er þad ſem Skoogar-Þitur, er geingur inn um eitt Eyrad,

og wt um̃ annad, þar fellur þad Himneska Sæd-
id um̃ hardbarinn Veg i Syndarans Hiarta, og
verdur Footum trodid, og Fuglar Loptsins eta þad,
Luc. 8. v. 5. Saa sem ecki festir Hiartans Trw at
sierhvoriu þvi, sem Drottinn segier honum, og læt-
ur segia af sijnu Ordi, hann fær alldrei JEsum
fundid, þvi Vantrwarinnar Skijla haanger þar
milli Hugskotsins Augna og Guds Evangelii, so
hann nær ecki ad siaa þess Dijrd, ælijka og Israels
Synir gaatu ecki sied Biartleika Moysis Asionu,
er hann heingdi Skijluna þar fyrir, Ex. 34. v. 33.
Þvi segier Paall: 2. Cor. 4. v. 3. 4. Er nu vort
Evangelium hulid, þa er þad hulid þeim sem for-
tapadir verda, i hvorium ad Gud þessarar Verall-
dar hefur forblindad Hugskot vantrwadra, so þeir
siaai eigi þad klaara Evangelii Lioos Christi Lioo-
ma. Enn þu, sindugur Madur, snw þier til
Drottinns, Cap. 3. v. 16. og bid JEsum ad legg-
ia af vid þig þau Smyrslinn, med hvorium þu
kunnir ad smyria þijn Augu, so þu siaair: Apoc.
3. v. 18. Andvarpa med David: Ps. 119. v.
18. Opna þu mijn Augu, so eg siaai þa furdann-
legu Hluti i þijnu Logmaali, og trw þvi fyrir viist,
ad ef vier, sem vondir erum, kuñum ad giefa Born-
um vorum goodar Gaafur, þa muni miklu fram-
ar saa Himneski Fadirinn, giefa þeim H. Anda,
sem hann þar um̃ bidia, Luc. 11. v. 13. Fordum
Daga Leidsagdi Drottinn Israels Foolki um̃ Ey-
dimorkina med einum Stoolpa, er var sem Elldur

um̃

um̃ Nætur, eñ Sky um̃ Daga; Oss Leidsegier hann giegnum þessarar Veralldar Eydimørku, fyrir Elldstoolpa sinna H. Orda, er vijsa oss Leidina til Christum, og upplijsir so vor Augu ad vier saaum hann sied og þeckt. Mundu þig um̃ þad, mijn Saal, ad þu missir ecki Sioonar a þessum Elldstoolpanum, medann þu ert enn ad þreita þijna Pilagrijms Reisu, giegnum allar Hættur og Villu-Stiga Veralldarinnar. Þar er einn svartur Stoolpi, Heimsins vondra Eptirdæma, og Hollds-ins skadlegra Girnda, hvorium ad þessarar Veralldar Born eptirfylgia, er framar elska Mirkrid enn Lioosid, og rasa so fram̃ eptir þeim breida Glotunarinnar Vegi; Enn sa Vegur er mioor, Matth. 7. v. 14. sem liggur til JEsum Christum: Þvi er einginn Von þu saair hann ratad, nema Guds Ord sie Lioos a þijnum Vegum, og Lampi þinna Foota, Psal. 119. v. 105. Þetta Lioosid skijn i myrkvum Stad: 2. Pet. 1. v. 19. Þad burtdrijfur Myrkur Sorganna, þvi þad gledur Hiartad; Ps. 19. v. 9. Þad eydir Myrkri Faa-vitskunnar, þvi þad upplijsir Hugskotid, og giefur Vijsdoom Skilningslitlum, Ibid. v. 8. Þad fraa-snijr Myrkri Syndanna, þvi þad greidir vorar Fætur fram̃ a Fridarins Veg, Luc. 1. v. 79. Gacktu þvi, Christinn Saala, i þessu Lioosinu, so Mirkurinn hondli þig ecki.

Undarleg þookti, og þad ei aan Ordsaka, sw dijrdlega Opinberan, sem þeim umkomulausu Fi-

aarh yrdurum veittist at Bethlehems Morku, enn vel mætti hun uppvekia Menn til þess, ad þeinkia um Fæding Messiæ, sierdeilis þar sem Engillinn bodadi hana Hyrdurunum med berum Ordum. Vidlijka mat um Guds Ord tala; Ad þar kiemur margt fram, sem vorum Skilningi er undarlegt og Ogrypannlegt, þvi hvornum kan manleg Skynsemi, af Sjondinni villt og blinduð, fa skyniad edur gripid þau dijrdlegu Guds Leyndardooma? Hvorium vier verdum þo ad trwa, eptir þvi sem þeir eru oss i Ordinu auglijster, ef vier viljum annars hoolpnir verda. Hvor sa sem holldlegri Skynsemi fastlega filgir i Trwarinnar Greinum, hann lærir enn kiemst þo alldrei til Sannleikstins Vidurkienningar, 2. Tim. 3. v. 7. lijkur Gydingum, sem af eiginn Innbirlingu wilogdu Spaadoomana um Messiam, uppaa veralldlega Vijsu, sie tru sig þvi so miog at hanns audvirdilegu wtvortis Asigkomulagi, og trwou hvorki hanns Ordum nie Verkum. Þvi eigum vier Postulans Heilræd, 2. Cor. 10. v. 5. ad hafa: Ad taka til fanga alla Skynsemd undir Christi Hlijdni. Þad sem Skilningurinn fær ei gripid, þad a Trwinn ad hondla, annars er Trwinn eingin Trw; Þvi hvad er þad, þo Madur trwi þvi, sem Skynseminn þeckir, og Augunn sia? Enn i þvi eriar a Trwnni, sem Madur sier ecki, og allri manlegri Virsku er Orijpannlegt, eins og fyrir Mariu, er Engillinn bodadi henni, ad hun skylldi Son gieta i Kvidi sijnum, jafnvel þo hun hefdi

aung=

aungvann Karlmann kient, og hun sagdi: Eg em Ambatt DRottins, verdi m er eptir Ord þijnu. Luc. 1. v. 38. So trwdi Abraham, Rom. 4. v. 18. Guds Fyrirheyti, um̃ þad, ad honum skyldi Sonur giefast, i Von, og stadfostu Trausti til Guds Sannleika og Trwfesti, fram̃ yfir Von og allann Skilning mannlegrar Natturu, og þetta heitir ad giefa Gudi Dijrdina, ibid. v. 20. er v.er hølldum faungnum vorum Skilningi, uppa þad, ad Guds oriwfanleg Ord skuli hia oss Stad fiña.

Textinn seiger; Ad Maria Hafi Vardveitt Øll Þessi Ord Og Yfirvegad J Sinu Hiarta, hvar af vier læra meigum, ei einasta ad heyra Guds Ord, helldur og eirnin ad vardveita þau i sidsomu Hiarta, so framt sem vier viliũm JEsum þar inni fiña, Sædid kann ei Avoxt færa, nema þad liggi i Jordunni og deyi; So kann Guds Orda Sædi ecki ad færa hia oss Avoxt, nema vier geimum þad i Hiartanu, og veltum þui fyrir oss med sijfelldri Um̃þeynkingu. Þo vier naium ecki strax þeim rietta Skilningi a einu edur ødru i Ordi DRottins, þa sannt ef vier þeinkium þar um̃ ydugleg., mun Hugskotid smáasaman̄ upplijsast, og vier æ meir og meir fiña þess Nadar-Krapt og blessadann Sætleika.

Þau Ord, sem hier seg.r ad Maria hafi vardveitt hia sier, voru um̃ JEsu Holldgan og Fædingu. Þad ætti oss miñs-stædast ad vera, og er hid allra gledilegasta, ad sw himneska Sool Riettleti...s uppranñ hier a Jordu i Lijkingu syndugs Holds,

Rom.

Rom. 8. v. 3. þo ann Syndar, Ebr. 7. v. 26. til þess ad Syndararner skylldu finna Hiaalpræðid undir hanns Vænglum. Þetta er þad dijrmæta verduga Ord sem Paall um̃ talar, 1. Tim. 1. v. 15. ad Christur er kominn i Heiminn til þess, ad giøra Syndarana saaluhoolpna, medal hvørra eg er hin̄ mesti, segir hann, hvad þu mætt lijka vel jaata, mijn Saal; Enn þier er þo Myskunsemi yfirkomin̄, þvi Sonur Guds er kominn ad kalla synduga, enn ecki riettlaata til Yðrunar. Matth. 9. v. 17. Gleymdu alldrei, mijn Saal, þessu blessada Efni, yfirveg þad ann Aflaats i Hiartanu, þvi þad er þijns Hiarta einasta Boot og Huggun. O! HErra, vyrdstu fyrir þinn H. Anda, ad innsigla so þitt blessada Ord i vorum Hiortum, ad vier fyrir þess Krapt og Upplijsingu, mættum festa so ꝏ þier Augu vorrar Trwar hier i Naadinni, ad oss audnast mætti ad sia þig og skoda Augliti til Auglitis i Dijrdin̄i; Bænheyr þad fyrir þijns Nafns Skulld, AMEN.

# 6. Capituli.

Um̃ Heim-Reisu Hyrdaran̄a og þeirra Packlæti.

Og Fiaar-Hyrdararner sneru aptur, dyrkandi og lofandi Gud, fyrir allt þad, hvad þeir hofdu heyrt og sied, eptir þvi sem þad var sagt til þeirra. Luc. 2. v. 20.

Um̃

Um̃ þessar Tijder framkomu þau blessudu Fyrirheit, sem DRottinn gaf i gamla Testamentenu, um̃ Kvinnuñar Sædi, er sundurmola skylldi Hoggormsins Hofud, Gen. 3. og i hvoriu ad Pioodernar skylldu blessast, Gen. 22. v. 18. eptir þessu hlutu Guds Menn ad bijda med Hiartans Preyngingu; Abraham sa ad viisu Dag Christi, og vard gladur vid, Joh. 8. þo einasta i Anda, styrkiandi sijna Von i Guds Fyrirheitum, enn Abrahams Sonum hefur sijdann audnast ad sia ennþa lioosara Christi Dag: Abraham sa hann med Augum Trwariñar, enn þeir bædi med Lijkamans og Trwarinnar Augum; Hann hafdi Skuggann, þeim veittist þar eptir sialfur Lijkaminn; Hann hafdi Fyrirheitinn, þeir sijdann Fyrirheytaña Fullkomnan; So sa Leynardoomur er opinberadur, sem i fra Veralldar Upphafi hefur verid yfir þagad. Rom. 16. v. 25. Laatum oss þvi, Guds Born, taka undir med David af Hiarta og Muñi: Lof seig þu Ond mijn DRottni, og allt hvad i mier er hans heilaga Nafni, lofa þu DRottinn Saala mijn, og gleim ecki neinu þvi goodu, sem hann hefur giort þier. Ps. 103. v. 1. 2. Ecki liet vor blessadi Herra sijna Fædingu first bodast Hofdingiunum i Jerusalem, ecki þeim Skriftlærdu edur Olldungunum, helldur um̃komulausum Fiaar-Hyrdurum, og laungum hefur þad verid Venia hins alviisa Guds, ad utvelia þad sem eckert er fyrir Heimenum, so hann giori þad ad aungvu sem nockud er. 1. Cor. 8. v. 28.

v. 28. Umkomulausa og fatæka Stulku utvalldi hann sier fyrir Moodur, Asna-Stalluriñ var hañs firsta Hvijla er hañ i lagdist, i Utlegd eyddi hañ sijnum firstu Barndooms-Arum, og so syndi hañ bless-adur at allann Hætt, ad hanns Rijki var ecki af þessum Heimi, Joh. 18. v. 36. og hañ kom ecki til ad leita eptir veralldlegri Uppheſd, helldur giordist hann fatækur og audvirdilegur, so vier fyrir hann skylldum rijkir verda. 2. Cor. 8. v. 9. Þvi seigir hann og lijka fyrir Esaiam: Andi DRottens er yfir mier, og hefur sendt mig ad predika þeim Fatæku Evangelium. Es. 61. v. 1. Vid þessa Guds Naad og Giædsku, sem jafnann ætijtur hid laga og audvirdilega, kannast og þesser Hyrdarar i Hiartans Trw og Audmijkt, þeinkiandi vidlijkt og Maria, er hun sagdi: Saal mijn upphefur Drottinn, og Andi minn gledst i Gudi Frelsara mijnum, þvi hann aaleit sijna aumu Ambautt. Luc. 1. v. 46. 47. Þess vegna dijrka þeir og vegsama DRottinn fyrir allt sem þeir hofdu heyrt og sied um JEsu Christi Auglijsingu i Holldenu.

Mikid veittist nu þessum Faar-Hyrdurum, i Sioon himneskra Hersveita, i Auglijsingu Guds Dijrdar Liooma, og einkum i Fædingar Bodan alls Heimsins Lausnara: Enn eins mikid hefur þu, mijn Saal, Gudi ad þacka: Sijna himnesku Engla lætur hann þier daglega þioona, Ebr. 1. v. 14. Engla Fridarins, þad er Ordsins Predikara, lætur hann þier undirvijsa i þijnum Saaluhiaalpar-

Efnum:

Efnum; Yfir hier er upprunnid þad skiæra Lioos Evangelii, sem upplijsir Myrkur þijns Hugskots: So vel er JEsus Christur giefinn hier og fæddur, sin þessum Fiarhyrdurum, og hvorium ødrum, hǡs Fædingar og Forþienustu nautiu strax ad i hǡs H. Vatns-Skijrn, er þu endurfæddist til lifandi Vonar, um oforgeingilega Arfleifd, sem hier vardveitist a Himnum. 1. Pet. 1. v. 3. 4. Þvi ber þier hier fyrir ad offra DRottni Lofgiørdinni, og giallda hinum hæsta þijn Heit: Ps. 50. v. 14. Þad skiedur med kostgiæfilegri Heyrn Guds Orda, hvar inni hanns Dasemdir og Velgiorningar verda þier fyrir Siooner settir. Þo skalltu huxa, þa þu geingur undann Guds Orda Heyrn, ad þu hefur enn ecki afloked allri þinni Skylldu; Helldur att þu, mijn Saal, ad vekia þad sijdann upp fyrir sialfri þier, sem þu gatst numid af Ordenu, so þad meigi rootfestast i Hiartanu; Þvi þad er sw Mæli-Snura eptir hvorri þu att ad rietta alla þijna Þanka, Ord og Verk, þvi a þad þier hvervetna fyrir Augum vera; Eins og Augad er Lioos Lijkamans i allri Limanna Utriettingu, eins er Guds Ord Lioos Hugskotsins i øllum Lijfernis Athøfnum. Hier ed auk minnstu þess, Christinn Madur, ad þu meddeilir lijka ødrum nockru af þvi, sem þu lærdir af Ordinu, tak þier þar Orsok af, ad uppfræda þa sem eru faakunnandi, edur og ad leita þier Uppfrædingar hia þeim, sem betur vita; Þvi Postulinn, Eph. 5. v. 19. vill ad vier tolu m hvor vid aǡaǡ af Psalm-

um, Loffaungum, og andlegum Kvædum. Vier hroosum hvør vid annañ vorum Velgiorda-Moñum, og viijdfrægium þeirra Velvillder; Enn mun oss þa ecki miklu skylldara, ad hroosa, wtbreida og viijdfrægia þær stooru Myskunsemdir vors himneska Fødurs og Skapara, hvorra vier nivotum oaflaatanlega bædi til Liijfs og Saalar. So sem illt Samtal spillir goodum Sidum, 1. Cor. 15. v. 33. so styrkir gott Samtal gooda Sidi, og ecki er þad ad efa, hvar sem sliijkt Samtal er um̃ Hønd haft ydugslega, þar er sialfur JEsus naalægur; Þvi hann hefur sagt: Joh. 14. v. 23. Hvør sem elskar mijn Ord, Fadir minn mun elska hann, til hanns munum vid koma, og hiaa hønum Vistarveru giora. Vors Guds Daasemdir, sem oss eru fyrir Augu settar i hanns Ordi, verda alldrei wtsagdar; Þvi ættum vier med riettu, ei einasta aa Hviijldar-Døgunum, helldur og daglega, jaa, so opt sem þad geltur skied, fyrir Holldsins Veikleika, og þessa Liijfs Armædu Um̃svifum, þær ad hugleida, og þar um̃ ad ræda, hvar af ad siijdar spretta munu þeir riettu Avextir Guds Orda Sædis; Fyrst Trwinn, siijdann af Trwnni Elskann, og af Elskunni hinir adrir Avextirnir, Gudi þacknæmir og Saalunni heilnæmir, so þu verdir sem eitt blooingad Trie plantad hiaa Vatns-Lækium, Ps. 1. v. 3. Guds Orda, hvar af þad daglega til siijn dregur himneskañ Naadar-Vokva, so Avextirnir folne alldrei nie af-falle, þo Hret-Vidri Hormungaña edur Storm-Vindar

ar adskilianlegrar Areynslu a dyrria meigi; Hvilikir segir David, Ps. 1. v. 2. sieu þeir, sem hafa sijna Lyfting i Logmali DRottins, og tala um̃ þad Daga og Nætur. Enn hinir, sem Jhugunarlaust leida hiaa sier Guds Ord og hañs heilogu Daasemder, og laata þetta sem Vind um̃ Eyrunn þioota, þeir eru sem visinn Lauf-Blod, skiekinn af Vindi Diofulsins, Heimsins og Holldsins Freistinga, edur sem Hismi, Ps. 1. v. 4. hvoriu Guds Reidi-Stormur mun um̃ sijdir burtfeykia. Gud laati ocku ecki, mijn Saal, stadnæmast i þeirra Selskap, helldur giefi hañ ockur ad breita eptir Dæmi þeirra, sem athuga Verkinn DRottins, og hafa sijfellda Lysting þar af, Ps. 111. v. 2. so þad sie ockar Hiartans Lyst ad lofa DRottinn, Ps. 147. v. 1. og ockar Fiesioodr ad vardveita hañs Bodanir. Ps. 119. v. 56. JEsus Christur giefi ollum oss ad æfa vor Hugskot, Heyrn og Maal i hañs Daasemdum, hanns Lofgiord og Dijrdkan, so þetta sama mætti verda oss sijdar meir eilijft Eptirlæti a Landi lifandi Mañа, Heyr þad O! HErra, fyrir þijns Nafns Skulld, Amen.

# 7. Capituli.

Um̃ Um̃skurn Christi.



EG þa aatta Dagar voru lidner ad Barnid skylldi um̃skierast; Var hañs Nafn kallad JEsus, hvad ed

kallad var af Englinum, adur eñ hañ var gietiñ i Moodur Kvidi. Luc. 2. v. 21.

Skylldt er ockur, Saala miin, ad þeinkia nockud framar eptir Umskurn ockar bleſſada Frelsara, hvar med hann giordiſt þiñ Brwdgumi, ja, þinn Blood-Brwdgumi, þvi þig hefur hann ſier til Brwdar faſtnad med ſijnum Umskurnar Blood-Dropum, hverium hann wthellti, ſo ſem odrum Pant, uppa ſitt eptirkomandi Endurlauſnar-Giallð, er hann ſijdar villdi wtleggia i ſinni Pijnu og Dauda fyrir allann Heiminn. Auglioost er þad af Guds Ordi, ad þa vier fædunſt i Heim þennañ Hollð af Hollði, þa erum vier aller yfirlædðir Illſkunnar For-Hwd, og ſo ſem vier erum fra Moodur-Lijfi Logmaalſins Yfirtrodſlu-Menn, ad Spaamannſins Vitni, Eſ. 48. v. 8. ſo erum vier Logmaalſins Bolvan undirorpner; Þeſſa vora Bolvan bar Sonur Guds, i Þreingingum, Offookn-um, Forſmaan, Fyrirlitning og ollum Pijſlum þeim, er hañ leid uñ ſijna Hierviſtar-Daga, og þad byriadi hann ſtrax i ſinni Umſkurn, ſem var Upphaf hanns Kvala, er hann þoldi fyrir Syndarañ, ſo hann liet ecki leingi bijda ad hlada a ſig vorum Orkumſlum. Viiſt var hann heilagur, hreirn og fraaſkilinn Syndurunum, Ebr. 7. v. 26 ſo hann þurfti ecki i neirn Maata Umſkurnarinnar vid fyrir ſiaalfann ſig, ſem var tilſett fyrir þa ſyndugu og brotlegu; Enn vier, vier erum aller i Syndinni gietner

og

og fædder, Ps. 51. v. 7. og þar sem vier laaum um̄=vellter i Blodi vorra Raanglætinga, þa laa ecki an=ad fyrir oss, enn i þvi sama wtaf deya eilijfum Dauda; Þess vegna hefur vor elskulegi Endurlausnari þolad Um̄skurnarin̄ar Saar, so vier fyrir þaa han̄s Ben, sem hvoria adra, skylldum heilbrigder verda. 1. Pet. 2. v. 24. J Um̄skurninni wthellti hann sijnu heilaga saklausa Blodi, so vier i þvi mættum rioodra vor Hiortu, þvo vorar saurugar Samvit=skur af øllum daudlegum Verkum og afsnijda Last=an̄a For=Hwd, til ad þioona Gudi lifanda. Ebr. 9. v. 14. Þad maa eg aumur Syndari jaata, ad eg hefi eitt Oum̄skorid Hiarta, er þad bijr yfir marg=vijslegum vondum Þaunkum, og er so tregt til þess, ad giefa lidugt Rwm Guds Anda Hræringum; Og sama er ad seigia um̄ hina adra Lijkamans Limi, nær Syndinn fær þaa teigt til þess ad liaast Raang=lætinu til Hervopna. Enn minn JEsu! Unn þu mier þinnar blessudu Nadar, til Bootar og Bet=runar aa mijnum Lijfernis=Hag, so eg yfi ecki ad niju þijnar Undir, nie felli yfir mig þijns Fodurs Reidi, helldur gief, minn DRottinn, ad eg mætti i And=ans Heilbrigdi þioona þier aan Otta, alla mijna Lijfdaga. Saa sem um̄skorinn var, han̄ skullds=batt sig Løgmaalenu, Gal. 5. v. 3. til ad hlijdnast þar med Gudi, i hvors Sattmaala hann kominn var: So hefur vor Endurlausnari JEsus Christ=ur geingid i sinni Um̄skurn undir Løgmaalsins Ok, til ad lietta þess obærilegum Þwnga af vorum Her=

 dum,

dum, er annars hefdi þreingt oss ofann i Afgruñ Kvalanna. Hann vissi blessadur best, hvorsu Omøgulegt oss var Logmaalid upp ad sylla, þvi villdi hañ fyrir oss giora þvi Fullnustu, so vel i þessari Grein sem hvorri annari, so hañ yrdi Logmaalsins Endir, ollum sem trwa til Riettlætis, Rom. 10. v. 4. Þess vegna veit eg, ad alldrei bryt eg þad aa mooti Logmaalenu, ad eg fær þad ecki fullum Bootum bætt i Riettlæti og Sakleisi mijns blessada Frelsara, þa Gud giefur mier Vit aa þvi ad ydrast þess af Hiarta, og trwa aa hann, sem riettlæter hinn ranglaata. Cap. 4. v. 5. HErrann vor liet umskierast aa Attunda Deigi, sem þar til settur var i Logmaalinu, þar eptir liet hann lijka skijrast, og so hefur hann helgad aa sialfum sier bædi gamla og nija Testamentisins Sacramenta, og sameint sig beggia Testamentanna Guds Barna Samkundu, ad aller sem trwa bædi þa og nu, sieu eitt med honum og hann þeirra Hofud. For-Hwdinn ætti i gamla Testamentenu ad teikna þann gamla Mañenn, edur þa Spillingu er vier aller erft hofum eftir Adam; Lijka sem For-Hwdiñ var þa afskorinn i Umskurninni, so verdur Syndarinnar Hamur af oss dreiginn i Skijrninni, sem i Stad Umskurnarennar kominn er, og vier hreinsader af medfæddum Saurendum. Enn so sem þad var ecki noog i gamla Testamentenu, ad vera umskorinn, nema Madur umskiæri Yfir-Hwd sijns Hiarta, Deut. 10. v. 16. fyrir Afleggingu syndsamlegs Lijkama i Holld-

inu

inu og vardveitti Guds Saattmaala i trwudu Hiarta, sem Paall kallar Umskurn giorda aan Handa; Col. 2. v. 11. so er þad nu eckí helldr noog, ad vera skyrdr, nema vier umskierum oss i Andlegan Maata, med þessari somu Christi Umskurn. Þegar Moyses gleymdi ad umskiera sin Son, þa villdi Drottinn deyda hann, enn Ziphora hanns Kvinna took einn Stein og umskar Yfir-Hwdina aa sijnum Syni. Ex. 4. v. 24. Logmaalsins Steinar, edur Stein-Toblur, eru þad, med hvorium Gud vill vier umskierunst; Þar fyrir aattu, Christin Madur, med þessum hvass-eggiudu Steinum ad giora einn Skurd edur Saar i þitt Hiarta, fyrir gloggvann Reikningskap vid þijna Samvitsku, og Samannburd þijns Lifnadar vid Guds Logmaal, sem er saa O salsadi Proof-Steinn, med hvorium vier eigum ad reina vorar Athafner bædi wtvortis og innvortis, og þo sierdeilis innvortis, hvort þær sieu eptir Gudi giordar; Og er þu finnur Svidann i Saarenu, þad er Angur og Trega Hiartans fyrir drijgdar Syndir, sem Logmaalid og Samvitskann vitna aa þig, ad þu framid hafir mooti Gudi leinilega edur opinnberlega, so þu tekur til ad stynia sem Dwfann med Ezechia, Es. 38. v. 14. þa bid JEsum, og mun hann, mijkia og græda þitt Saar med sijnu blessada Umskurnar Bloodi, þvi Johannes segir, 1. Joh. 1. v. 7. þad hreinsi oss af allri Synd. Vidsmiorid mijkir Lijkamans Saar, enn miklu betur mijkir og grædir Bloodid JEsu vor Saalar

Saar, þvi þad er sa frij-opni Brunnur sem Davids Hws og Borgar-Men i Jerusalem hafa mooti Syndum og Ohreinleika. Zach. 13. v. 1. So ef þu bidur med David, ef þu bidur og kvakar af audmuku Hiarta og stodugri Trw: Ps. 51. v. 9. Afleis þu mig med Isopo, so ad eg hreinsist, þa muntu ad sonnu Raun komast og hann: Ps. 30. v. 3. O Rottinn Gud minn, þa eg kalladi til þijn, þa giordir þu mig heilbrigdann. O! HErra Jesu Christe, þu himneski Blood-Brwdgumínn vorra Saalna, gief oss ad nidurleggia oll For-Hwdar Verk og syndsamleat Athæfi, og i þijnu Bloodi hvijtfaaga so vorn Skrwda, ad aa oss mætti siaast þad fagra Brwdar-Skart þijns Riettlætis, er votti oss ad vera þijna dijrkeipta Brwdur, i Lijfi og Dauda, Upprisu og Eilijfd, Amen.

# 8. Capituli.

Um Nafnid, JESUS.

Hans Nafn var kallad JESUS, (seger Textinn).

Minnstu hier wt af, mijn Saal, aa þad blessada Hiaalpræðis-fulla Nafn þijns elskulega Endurlausnara, og hugleid þad ecki einasta sem eitt Ord samannstandandi af Bookstofum og Atkvædum, helldur so sem eitt Nafn fullt Leindardooma, jaa, fullt himneskrar Huggunar ollum erfidandi og Þwnga-þiaadum. Hann heitir JEsus, þad er Frelsari, þvi hann frelsar sitt Foolk af þeirra Syndum,

um, Matth. 1. v. 21. og fraa øllum Saalar Ovin-
um, Dauda, Diøfli og Helviti. JEsu Nafn er
Upphaf, Midpunctur og Endir allrar riettkallad-
rar Gledi, þad er Hugsvølun sorgmæddra, Kast-
ali freistadra, Friistadur saraadra, Hæli naud-
staddra, Lækning siwkra, Frelsi hertekenna, Liif
þeirra deyendu, og eilijfur Fognudur allra Utvalld-
ra i Himnenum, aan þess skier einginn Hiaalp nie
Velferd Syndaranum, þvi þar er eckert annad
Nafn Monnunum giefid undir Himnenum i hvør-
iu þeim byrie hoolpnum ad verda utañ alleina Naf-
nid JEsus. Act. 4. v. 12. Þegar eg þeinki um mitt
Skijrnar-Nafn, þaa aangrast Saalinn miin mak-
lega, er eg sie, hvørsu eg hefi med illri Breitni rofid
mitt Heit, er eg Gudi hiet i Skijrninni og Skylld-
ann wtkrafdi; Enn sem eg þeinki um þad blessada
Umskurnar-Nafn mijns Endurlausnara JEsu,
þa gledst Saalinn mijn hiartannlega, þvi af þvi veit
eg, ad minn himneskur Fader endir vissulega vid mig
þad sem hann mier fyrirhiet, ecki af Verdskulldan,
helldur af sinni einskiærri Giædsku, sem er haans
Asthylli og Fyrirgiefning allra miña Synda i þess-
um sijnum eiskulega Syni JEsu Christo, sem hañ
hefur giefid mier til Vijsdooms, Riettlætis, Helg-
unar, og Endurlausnar. 1. Cor. 1. v. 30. Þitt
Nafn er eitt wthellt Vidsmior, segir Brwdurinn
i Loskvædinu: Med Vidsmiori aatti allt Mat-
Offur ad yfirdøggvast i gamla Testamentenu. Lev.
2. v. 1. Jesu Nafn er þad himneska Vidsmior, med
hvør-

hvoriu vier eigum ad yfirdoggva allar Foorner vorrar Guds Pioonustugiørdar; þvi fyrir JEsum Christum alleinasta kunna þær Gudi ad þocknast. 1. Pet. 2. v. 5. Þar fyrir att þu, mijn Saal, øll þijn Verk og Athafner wti og inni ad uppbyria i JEsu Nafni, andvarpandi um hans Adstod, befalandi honum i stodugri Trw þijna Vegu, og eckert þier fyrirtakandi nema þad, sem hann leift hefur og skipad, edur ad minnsta Kosti ecki bannad: Hier til aaminnir Paall Postuli, segiandi: Col. 3. v. 17. Allt hvad þier giørid med Ord og Verk, þad giørid i Nafni DRottins JEsu. Alldrei skylldir þu so leggia þig til Svefns ad Kvolldi, ad þu ei aadur til þijn innbiodir þijnum JEsu med audmiwkri Bæn, eins og Læriſveinarnir, er til Emaus reistu segiandi: Vertu hiaa oss HErra, þvi ad kvollda tekur og aa Daginn lijdur; Og alldrei so uppvaknadur ad Morgni standa af þinni Hvijlu ad þu ecki andvarpir til JEsu um Verndan og Lidveitslu, þvi fyrir hann skiedur þad, ad vier vardveitumst fraa øllu illu; Ecki skylldi Lijkaminn sediast so aa Fædunni, ad hun ei blessist fyrir Bænina i JEsu Nafni, og Saalinn undir eins sedieft aa JEsu Nafns Sætleika. Framar att þu, Christinn Madur, ad taka þier trwann Vara fyrir þvi, ad þu ecki leggir JEsu Nafn vid Veralldarennar Hegooma, i Giaalijfis Munnslapri edur faafeingilegum Eydum. Minstu þess, ad DRottinn vill ei hallda þann saklausann, sem hanns Nafn brwkar faafeingilega.

Þvi

Þvi sijdur ættu Þijnum Naunga ad bidia nockra O-Bæna i þessu JEsu Nafni, sem øllum er til Blessunar giefid: Kann nockud Brunnuriñ ad uppvella sætu Vatni og beisku af samri Upp-Ras? segir Jacob. Jac. 3. v. 11. So eiga Blood og Formælingar ecki framar skylldt vid JEsu Nafn, enn Belial vid Christum. Þad sem Hiartanu er kiærast, þad er Twngunni tamast; Þar fyrir, ef JEsus er Fie-Siodur þijns Hiarta, þa verdur hann og Hunang þinna Vara, enn ecki Blood og daarlegar Munn-Eydar, sem hætt er vid ad sneide Synþarann allre Blessan og egne Guds Afellis-Doom yfir hanns Høfud. Þad mætti og medal annars aptra þier fraa allre Vanbrwkan aa Jesu Nafne, ad þu verdur einasta i þess Skiooli og Trausti ad leita alls þess, sem þier liggur aa ad faa hiaa Gudi, þvi þa þu gyrnist ad aakalla Gud uñ þijnar Naudsynjar, þa ættu ad bidia og kvaka i JEsu Nafni, þvi ad i honum eru øll Guds Fyrirheit Jaa og Amen. 2. Cor. 1. v. 20. Fyrir hanns Fyrirboon og Forþienustu verda vorar Bænir kroptugar ad þreingia sier i giegnum Skijenn til naadugrar Aheyrslu; Þvi segir hann sialfur: Joh. 16. v. 23. Hvørs þier bidied Fødurinn i mijnu Nafni, þad mun hann veita ydur.

Þa eg rata i nockra Sorg edur þreingingu, þa er JEsu Nafn, undir eins og Guds Andi miñ i mig þar aa, mijn kroptugasta Hugsvølun og hiartnæmasta Gledi, þvi til þess er hann JEsus ordinn, ad

hann yrdi freistadur æ allann Hatt, lijka sem vier, þo aan Syndar, Ebr. 5. v. 2. og til þess er hañ freistadur, ad hann hafi Sampijningu med þeim, sem freistader verda. Cap. 2. v. 18. Hann bad ad Pijnunnar Kaleikur mætti fraa sier takast, og fieck ecki, Matth. 26. v. 39. Þar med veit eg ad hann hefur mijn vegna afdruckid Reidinnar Kaleik, enn wtvegad mier aptur sætann Gledi-Bikar, og þo honum þockníst ad birla haum stundum med nockrum Hormunga Dropum, þa vil eg þo segia med David: Þann heilsusama Kaleik DRottins vil eg afdrecka, Ps. 116. v. 13. sierdeilis þar eg veit, ad hañ muni þar eptir giefa mier ad drecka med sier nijtt Vijn himneskrar Gledi i Guds Rijke. Þaa Gud ann mier Gledi og Medlætis, huxa þa mijn Saal, til þijns JEsu, og laat alldrei Holldsins Gledi deifa hanns Minningu i þijnu Hiarta; þeink um þad, hvørsu hann var allskins Hormungum hladinn, nær hann var ad kaupa þier Frid og Fognud, still þvi Holldsins Giaalijfi, og gled þig med Otta og þioona honum med Skiaalfta. Ps. 2. v. 11. Sijdarst þa Daudinn kiemur ad Hondum, laatum þa JEsu Nafn vera vort Augna-Mid, fyrir hañ er vor Dauda ordinn oss ad Jñgaungu til Lijfsins: J sijnum Dauda befaladi hañ sijna Saal i Fodursins Hendur, og undir eins allra sinna Barna Saaler, er af hanns Saalu heaanga, So vier meigum þa i þessu sama JEsu Nafni befala vorar Saaler i Myskunar Hendur Guds vors himneska Fodurs, og so fyr-

ir JEsu Nafns Forþienustu Krapteiliiflega hoolpner verda: Þad gief þu oss sæti JEsu, fyrir þijns blessada, Hialpsærranda Nafns Sakir. Amen.

# 9. Capituli.

Um̃ Reisu Vitringañā til Jerusalem og Spurningu Herodis til Kieñimañāna.

Vær JEsus var fæddur i Bethlehem aa Gydinga Landi, i Tijd Herodis Kongs; sioa, þa komu Vitringar af Austur-Landi til Jerusalem og sogdu: Hvar er saa nijfæddi Konungur Gydinga? Vier høfum sied hañs Stiornu i Austur-Landi, og erum komner ad tilbidia hañ. Eñ er Herodes Kongur heyrdi þad, skielfdist hañ og øll Jerusalem med hønum, og liet samañ-fna øllum Kieñimañā Høfdingium og Skriftlærdum Lijdsins, og spurdist fyrir af þeim, hvar Christur skylldi fædast? Eñ þeir sogdu hønum: Til Betlehem i Judæa, þvi ad so er skrifad fyrir Spaamañiñ; Og þu Bethlehem aa Juda-Landi ert aungvañveigiñ hin miñsta aa medal Høfdingia Juda, þvi af þier mun koma Hertoge saa, er Herra skal vera yfir mitt Foolk Jsrael. Matth. 2. v. 1-6.

Sjaum hier hvorsu Dijrdlegur og Vegsamlegur ad er vor blessadi HErra og Endurlausnari, þvi þo hanns Hætign lægi um̃ Stund so sem hulinn undir audvirdilegri Þioons Mynd, þa hlaut þad samt ad vottast, ad han̄ hafdi allt Valld bæde aa Himne og Jordu, Matth. 28. v. 18. Þvi eru Himin og Jord til reidu ad veita honum sijna Þioonkan, og so maa vyrdast sem Himnana Kraptar prijsi hier hanns Fædingu, þar sem Stiarna su, er Textinn um̃gietur, bodadi hana Vitringunum i Austur-Alfu, og ætti þetta mikid vel vid Efnid, þvi hann var siaalfur sw Stiarnann sem uppraun af Jacob, Num. 24. v. 17. hvoria þær Himnesku Morgunstiornurnar Job. 38. 7. tigna og tilbidia, þad er Guds H. Englar, sem siaa jafnann hanns Auglit aa Himnum, Matth. 18 v. 10. Þessi blessada Jacobs Stiarnann hoof þegar i sijnum Uppruna ad skijna i fiarlægum Stodum, upplijsandi med sijnu Naadar Liooss Hiörtu og Hugskot Heidinna Manna, so þeir gaafu sig aan Tafar, til ad leita ad þessum nijfædda Gydinganna Konungi. Og took hier strax ad rætast Spaadoomur Esaiæ, Es. 49. v. 6. er Fadirinn segier um̃ þenna sinn Son: Þad er mier oflijtid ad þu ert minn Þioon til ad upprietta þær Kynkvijslirnar Jacobs, og þad hid bevarada af Jsrael aptur ad hafa, helldur hefi eg og so giort þig til Liooss Heidingianna, so ad þu siert mitt Hiaalpræði allt til Veralldarinnar Endimarka: Hvorrar Guds

Naad-

Naadar ad vier hofum liijka niootandi ordid, so um̃ oss er riett talad, Es. 9. v. 1, þad Foolk sem sat i Myrkrunum, siet eitt Lioos mikid, og yfer þeim sem biggia i myrkvu Landi skiin þad klaart. Blessadur ne Gud sem oss hefur kallad fraa Myrkrunum til siins Daasamlega Lioos, 1. Pet. 2. v. 9. Gud giæfi, vier elskudum ecki framar Myrkrid enn Lioosed, helldur ad vier geingium i Lioosenu, so ad Myrkren̄ hondludu oss ecke. DRottningen̄ af Arabia kom fordum Daga af ytstu Endemorkum Jardar til Jerusalem ad heira Speke Salomonis 1. Reg. 10. v. 1. er var Davids Son, og sat a han̄s Stoole; Hier koma Vitringar af Austurlande til eins an̄ars Davids Sonar, sem meiri var enn Salomon, þvi hann var undir eins Davids HErra, so sem hann sialfur medkiennir, er hann segier: Ps. 110. v. 1. Drottinn sagdi miinum Drottni: Sit þu mier til Hægri Handar, til þess eg legg Ovini þiina til Footskarar þinnar. Sælt er þitt Foolk og þiinir Þienarar sem alltiid standa fyrir þier, og heyra þinn Viisdoom, sagdi Drottninginn vid Salomon, 1. Reg. 10. v. 8. Þo eru þeir miklu sælli, sem fyrir sanna Trw eru Handgelngnir ordnir þeim Himneska Davids Syni JEsu Christo, og med adgiætnum Eyrum heyra hanns Raustu, i hvorri foolgnir eru Fiesioodir Vitskunnar, Col. 2. v. 3. Fyrir hvoria vier alleina lærum ad þeckia Fodurin̄ og þann hann sendi JEsum Christum oss til Saaluhialpar, Joh. 17. v. 3.

Þa

Þa Herodes heyrdi nu talad um̃ þenna nijfædda Gydinganna Konung, eptir hvorium ad spurt var af Vitringunum, skelfdist hann, þvi hann meinti ad Messias mundi verda einn Veralldlegur Konungur; Og fyrir þvi, hann vissi sig þar eki til Rijkis borinn, þa ottadist hann, ad hann mundi ridla sig til Rijkis, og steipa sier fraa Volldunum; Enn þessi hanns Hrædsla var faavijsleg, þvi hañ villtist og vissi eki Ritningarnar, þad, ad JEsus var eki kominn hijngad aa Jord til þess ad sækia epter Veralldlegri Tign: Hanns Rijki var eki af þessum Heimi, þvi gyrntist hann alldrei Heimsins Metord, Joh. 18. v. 36. Samt vottadi hañ fyrir Pilato, ad hann Kongur væri, Joh. 18. v. 37. Þvi so hafdi Fadirinn um̃ hann sagt: Ps. 2. v. 6. Eg hefi sett minn Kong, yfir mitt Heilaga Fiall Zion. Eki kom vor Herra i Heim̃ keña til þess ad frelsa Gydingana af Valldi Romveria, hanns Erendi var laangtum ædra, sem var, ad frelsa bædi Gydinga og Heidingia af Valldi Myrkranna, Col. 1. v. 13. Þad er Syndarinnar, Daudans og Diofulsins: Hann kom eki med Veralldlegu Yfirlæti, þvi hann synnti Heimunum honum eki, helldur hoogvær, og af Hiarta lijtilaatur, Matth. 11. v. 29. Þo verandi Lioomi Fodursins Dijrdar og Jmynd hanns Veru: Ebr. 1. v. 3. Ei kom hann med Veralldlegri Maat; helldur Guddoomlegu Velldi til ad nidurbrioota Porte Helvijtanna, so þau skylldu ei megna mooti hanns

Christni

Matth. 16. v. 18. Og þvi er hanns Rijki ecki Matur og Dryckur, helldur Riettlæti Fridur og Fögnudur i H. Anda, Rom. 14. v. 17.

Þad sem Herodi var hier til mestu Skielfingar, þad er mier aumum Syndara til b tstu Huggunar, þad ad JEsus er minn Kongur, sa ed hefur leist mig af Valldi allra þeirra sem mig hotudu, Luc. 1. v. 74. og utvegad mier eilijfann Frid vid sinn Himneska Fodur. Undir þinni Nadarrijku Kongs-Stioornan vil eg, minn JEsu, feginn lifa og deya, þvi þa er eg viss um, ad aungver mijnir Ovinir fa mig dregid af þinni Hendi. Joh. 10. v. 28.

Herodes spyr grant eptir af Kiennimonnunum og þeim Skriftlærdu, hvar sa fyrirheitni Meßias ætti ad fædast, eptir Ritningunum? Og vill hier um Uppfrædingu þiggia, en hafde þar under foolged Fals og Svikrædi, þvi han hugdi sier ad rada Barned af Dogum, so hann mætte Ohultur vera um sitt Rijke, so sem sidar sagt verdur. Lat, mijn Saal, þetta Dæmi þiena þier til Vidvorunar, og varastu ad hafa i frami Svik edur Underferli vid Guds Ords Þienara, sem þier eru sen, er og settir af Gudi til ad undirvijsa þier um Veg Saaluhialparinnar. Sa sem Taal-dregur Ð Rottins Þienara, einkum i sinum Saalar Sokum, hann giörir Gis ad Gudi sialfum, og dregur sig magnlega a Taalar, en Gud lætur ei ad sier hæda. Gal. 6. v. 7. Gieter þu ecki nad strax þeim rietta

Skilníngi aa Guds Ordum, sem þu heyrir af Þienarans Munni, þa spyr þar framar epter med Gaumgiæfni i Hiartans Einfalldleika, so ad Guds Ords Kienneudur kunne med Vitskunnar Likli, sem þeim er giefinn, ad upplwka fyrir þier Dyrum Tewarinnar, ad þu verdir hiaalplegur; Þvilijk Forvitni þocknast Gudi vel, nær hun framkiemur af Elsku til Guds Ords og sinnar Saalar Velferdar. Hitt er ein vidurstyggileg Synd, ad hylia Svikin under Faavitskunar Skyni, og spyria Guds Þienara til ad freista þeirra edur veida þaa i Ordum, eins og Gydingar giordu vid Christum. Vit fyrir vijst, ad DRottin, sem ransakar Hiortun, kan audvelldlega ad lypta Skylunni fraa þvilijkri Hiartans Hreckvijsi, og giora hana til opinnberrar Mijnkunar. DRottinn JEsu, gief oss ollum med hreinu Hiarta þijn blessudu Ord ad stunda og rækia, og laat þinn H. Anda upplijsa vorn dapra Skilning, ad vier i þijnu Liosi mættum siaa Liosid, Ps. 36. v. 10. og af þvi sama eilijflega glediast; Þier sie Lof og Dijrd um Alldir Allda, Amen.

# 10. Capituli.

Um Fals-Raad Herodis vid Vitringana.

HA kalladi Herodes Vitringana til sijn heimuglega, og innlega adspurdi þa, aa hvorium Tijma ad Stiarnan hefdi laatid siaa sig? Og vijsadi þeim til Betlehem, og sagdi: Farid þier og spyr-

ſpyried iñlega ad Barninu, og nær þier
fiñid pad, þa kuñgiörid mier þad eptur,
ſo eg komi eiñiñ ad tilbidia þad, (Matth.
2. v. 7. 8.)

Sønnbugt foor þeſsi Refur ad hylia ſitt Flaarædi undir Audmyktar og Gudhrædſlu Skyni: Hann lætſt ſem hann vilie fara lijka ad tilbidia Barnid JEſum, nær hann faai Undirviſan um þad, hvar þad ſie ad finna, þeinkiandi ſier ſo med Lempi ad koma Chriſto i Heliu. Svik og Undirferli er ſin Lyſt, ſem ſaa gamli Þuſund Vela Smidur, Satan, kiennir Börnum Vantrwarinnar: Joab huldi Hiartans Hreckviſi og Vondſku undir Vinſemdar Kaapu, þa hann midt i Vinaattu Samtali ſloo Abner i Hel, 2. Sam. 3. Med Undirferli og Svikum hafdi Jeſsabel Nabots Lijf, 1. Reg. 21. Med Vielum foor Ziba ad ſvijkia Akrana af Mephibozeth, 2. Sam. 19. Med Flaarædis Koſsi ſveik Judas Chriſtum, Matth. 26. v. 49. Og þyrſti valla ad ſækia Eptirdæmi Svika og Viela fram i Alldirnar, þvi enn i Dag kunna Veralldarinnar Born aalytelega ad ſmyria ſijn Eytrudu Mord-Vopn med Fagurgalans Vidſmiöri, hafandi Hunaang Smiadurs og Blijdmæla aa Vorunum, enn Eytur Haturs og Hreckviſi i Hiartanu, hvar um David kvartar Pſal. 55. v. 22. ſeglandi: Þeirra Muñur er klockvari enn Smiör, og hafa þo Striid i Sinni, þeirra Ord eru miwkari enn

Vidsmiðr, og eru þo nakinn Sverd. Hvilikt tekst þeim ad sonnu ad dylia fyrir Monnum; Enn mun hann ecki siaa þad, sem Augad hefur skapad? Skyllði honum nockud Okunug Hiartans Hreckvijsi, hann sem dæmir Leyndar-Raad Hiartnanna. 1. Cor. 4. v. 5.? David segir: Psal. 5. v. 7. að Drottinn hate þa Bloodgijrugu og svijku; Þvi vill han laata þio na sia af hreinu Hiarta, og Hræsnarinu fær ecki fyrir hanns Augliti stadist, Job. 27. So skalltu lyka vita, christinn Madur, ad hann hatar Svik og Undirferli vid Naaungann, hvors vegna hann hefur stundum laatid þa Prettvijsu siaka sina eiginn Fætur i sijnu Svika-Neti, og hrapa siaalfa i þa Grof, sem þeir odrum groofu. Siaalfur gisti Haman Gaalgann, er hann uppreist handa Mardochæo, Est. 7. v. 10. Sigufan sig bioo Achitophel undir Snoruna, med Svikraad unum mooti David, 2. Sam. 17. Og kunnug er Utfør Svikarans Judæ, Matth. 27. v. 5. So hondlar Drottinn þa vitru i þeirra Slægsmunum, og umvelltir Raadum rangferdugra! Job. 5. v. 13.

Enn hier hiaa þeinki eg til mijns JEsu, hvorsu ad hann strax a Omaalga Alldri tock til ad kienna aa Veralldarinnar Hreckvijsi; Hann mætti Svikraadum af Herode strax sem hann heyrdi þad, hann fæddur være, og maatti hann blessadur þar epter verda fyrir morgum Vielraadum og Svikum af sijnum Ovinum; Og hvors munt þu þa, Saal mijn

mijn, vænta meiga; hafi Verolldūñ eige hvꝛmt ſijn-
um Skapara, hvad mun hun þaa þier ecke giora?
Og er þad ærgiæt Huggun fyrer þig, ad þeir Endur-
lauſnari hefur þetta fyrri lidid, þvi med ſinni Lidin-
gu hefur hann helgad þina Hormung, og ſkallt þu
þvi vita, ad þu maatt ecki mæla þig undann ad ber-
gia aa þeim Kaleik, ſem hann hefur ſiaalfur afdruck-
id; Meigi honum þocknaſt ad lijda vondum Moñ-
um ad veita þier Yfirgang edur Uñſætur, ſo
þu hafir Orſok ad klaga med David; Pſ. 38. v.
13. Þe r ſem ſtunda eptir minni Saalu, uñ ſtra
m g, og þeir ed mier vilia illt Vonda, tala uñ þad,
hvorninn þeir fæi Skada giort, og uñgaangaſt
ecki utann med Svikraadum; Þa hugga þig med
David vid Hiaalprædi DRottins, og ſeig ſem hañ:
Pſ. 38. v. 16. Eg DRottinn bijd eptir þier, þu
DRottinn Gud minn munt bænheyra! Og vit
ad hanns Almætti er audveldt ad giora til Skam-
ar þann hreckviſa, enn frelſa þann frooma af hañs
Hendi. Enn gleym þvi ecki ad vera varfærinn i
Heiminum, þvi af honum er þeim froomū hver-
vetna Hæſki bwinn, og þad hellſt nær hann er ſem
blijdaſtur; mørgum hefur þad ad Slijſum ordid,
ad þeir hafa ofmiog verid giefnir fyrir Veralldar-
innar Hrooſi, og flækt ſo ſinn Foot i hennar Tæl-
Snoru, er þeir hafa runnid aa Agn Hiegoma-
Dijrdarinnar, ælijka og Herodes Agrippa, er hañ
ofmetnadiſt, nær hann heyrdi ad Foolkid hrooſadi
hanns Mælſnilli. Act. 12. v. 22. 23. Veralld-

ærinnar Lofstyr er þo færinjitur Fiesioodur, hann mæ framar giøra mig Ottasleigena enn Andvaralausann; Þvi þar sem Heimurinn er hvad bliidastur uppi Eyrunn, þar er opt og tijdum hellst Von æ Svikum og Underferle, sem ædur er sagt, en meine hañ þad sama i Hiartanu, sem hann talar þæ med Munnenum, þæ mætte eg þeinkia ad Heimurenn elskade þad hanns være. Þvi er sæ hiegoomlega sinnadur, sem leitar eptir Lofi i hvors Mañs Muñi, og valla, edur ecki, kann hann Gudi ad þocknast, þvi hañ verdur þa ad dansa epter Heimsins Piipu; Enn Jacob segir: Jac.4.v.4. Ad Veralldariñar Vinfeingi sie Guds Ovinskapur, og hvor sem Veralldarinnar Vinur vilie vera, sæ verdi Guds Ovinur.

Herodes villdi læta Vitringana undirviisa sier uñ JEsum, og snwa so þeirra Eyrindi honum til Falls, sem hann visßi þo annars ad var, ad tilbidia hann: So er þeßa Heims Bornum þad ecki noog, ad þau giora siælf hid Vonda, helldur og einninn vilia þau sem flesta draga i siñ Hoop, spilla þar æ ofann annara goodum Verkum, vidlijka og eitt Atu-Mein fordiarfar þad heila Holldid, sem i kriing er, þa þad nær uñ sig ad grafa. Virdstu DRottinn minn ad geyma mijna Saal, fræ þvilijku Rædaneyti, skapa i oß ollum hreint Hiarta, og lææt oß þioona þier i hræsnislausri Trw, og elskast innbyrdis i falslausum Kiærleika, so vier med þeim hreinhiortudu, mættum sæ ad siæ þig Auglit

liti til Auglitis um̃ alla Eilijfd, Amen.

# II. Capituli.

Um̃ Bæn og Offur Vitringañ.

Sem þeir høfdu nu Kongiñum heyrt, fooru þeir af stad, og siaa, ad Stiarnañ, sem þeir høfdu sied i Austur-Landi, gieck frañ fyrir þeim, allt þar til hun kom og stood þar uppyfir, hvar Barnid var: Eñ er þeir saa Stiørnuna, glødduſt þeir harla miøg, og geingu i Husid iñ, og fundu þar Barnid med Mariu Moodur þeſs, fiellu frañ og tilbaadu þad, og, ad opnudum ſijnum Fiaar-Sioodum, gaafu þeir þvi Gull, Reikelſe og Myrru. (Matth. 2. v. 9. = 11.)

EFtir sem Austurvegs Vitringarner filgdu eptir þeſſari Stiørnu, hvøria Gud hefur ſierdeilis þar til ſkickad, ad hun ſkylldi Leid-ſeigia þeim til Bethlehem; So aatt þu, mijn Saal, ad eptirfilgia þeirri føgru Leidar-Stiørnu Guds H. Orda, er Gud lætur hier opinberaſt og fyrir Augum lijſa. Laat þeſſa Stiørnuna lijſa þier frañ wr Myrkri Syndanna! Eñ þu hlijtur þa ad ſnwa Hugſkotſins Augum fraa Veralldarinnar vondum Selſkap, ſo þu kuñer Siooner ad feſta aa þeſſu bleſſada Guds Orda Lioose, ſem er þinn einka Leidarvijſer, fraa hvørium þu aatt ecki ad vijkia til hægri nie vinſtri. Han-

þar, og so muntu faa JEsum, þinn Lausnara og Frelsara, fundið. Epter honum þarftu ei lannga Leið að leita; Gack inn i hanns Musteri, og muntu hann þar finna. Christninn heitir Guds Hws, 1. Tim. 3. v. 15. heñi hefur JEsus giefið það Fyrirheit, að hann skylldi vera hiaa henni alla Daga, allt til Veralldarinnar Enda. Matth. 28. v. 20. Inn i þetta Guds Hws ertu, mijn Saal, þegar kominn af Guds Naað, fyrir hanns Orða Krapt og Leiðarviisir: Siaa til þu uñgaangist i þessu Hwsi, ecki so sem faaviiser, helldur so sem viiser, skyniandi hvað Vilie DRottens er. Eph. 5. v. 15. 17.

Nu'er hier lijka eitt annað Herbergi, sem JEsu tilheyrir, það er Hiarta þitt, er hann helgaði sier til Jbwdar i H. Vatns-Skijrn. Skygnstu grandgiæfilega inn i þetta Hws, hvört JEsus er, þar bwandi fyrir Trwna, 2. Cor. 13. v. 5. Hafi Lioos Guds Orða naað þar yfir að skijna og innplanta þar sijna Avexti, sem eru: Kiærleiki, Fognuður, Friður, Þolinmæði, Blijðleiki, Goodgyrni, Trw, Hoogværð og Hreinlijfi, Gal. 5. v. 22. 23. Þaa er JEsus Christur þar inni bwandi, enn finnir þu þetta ecki hiaa þier, helldur þar þvert aa moot: Agyrni, Ofund, Vantrw, Hræsni, Hatur, Sundurþickiu, etc. Þa er JEsus burtvikinn; Þvi það maattu fyrir viist vita, að ei vill hann nie kann, að eiga þar Sess með Ohreinum Osiðum, það er, saurugum Holldsins Gyrndum. Þessa Vo-Giesti verður þu wt að reka, vilier þu JEsum herbergia,

þv-

Þvi Ambaattarinnar Sonur skal ei erfa med Syni hennar friaalsu. Gal. 4. v. 30. Abraham rak burt Ambaattina med hennar Syni, þa hun villdi drottna yfir Sara: Gen. 21. v. 10. Gior eins vid Holldsins skadlegar Girndir; Ref þær wt i Aadn, er þær vilia drotna yfir Andanum, þvi hvorninn kann Christo ad koma samann vid Belial? Edur hvert Samlag hefur Liosid med Myrkrunum? 2. Cor. 6. v. 15.

Jannann Maata merk, miin Saal, ad þesser Vitringar færdu Barnenu JEsu veglegar Foorner. Nu þott hann vilie ecki af þier þiggia lijkamlegar Foorner fyrir sialfann sig, þaa attu ei ad sijdur ad offra honum andlegum Foornum, so sem David segir: Ps. 50. v. 14. Offra þu DRottni Lofgiordinni og gialld hinum hærsta þijn Heit. Vitringanna Offur var Gull, Reikelsi og Myrra. Vid Gullid er Trwnni samlijkt i Guds Ordi, 1. Pet. 1. v. 7. Þvi so sem Gullid reinist i Elldinum, so proofast og eflist Trwiñ i Mootgaanginum; Gull er hid fiemætasta af Jardarinnar Maalmum; Trwinn er hid allra dijrmætasta i vorum Christiandoomi, jaa, hun er alls Christiñdoomsins Lif, þvi aan Trwarinnar er Omøgulegt Gudi ad þocknast, so sem Paall, Ebr. 11. v. 6. segir. Enn þad er Sorginn, ad Trwinn vor vill miog so veikiast og bila, þegar aa þarf ad reina, nær Guds Hiaalp er ecki fyrir Augunum, jafnvel þo vier meigum margsiñis þreifa aa þvi, ad Gud hefur Otal Vegi oss til Hi-

ælpar, þar sem vor skamsijnu Augu siæ aungvan. Mikill er Veikleiki og Vanmættur minnar Trwar, er mig æstrijdir; Eñ þu, minn JEsu, sem best þeckir hvors, eins Vankvædi, lát þo þennañ lijtt-logandi Hörinn ecki, wtslockna, helldur virdstu ad blæsa þar ad med þijnum H. Anda; So þad Ljoos kornid, er þu siælfur tendrad hefr i mijnu brothætta Leirkieri, mætti vardveitast fyrir þiñ Nadar-Krapt, sem þu hefr lofad ad láta fullkomnast i Breiskleikanum. 2. Cor. 12. v. 9. Med Reikelsenu teiknast Bæner Guds Barna, so sem segir i Opinberingar Book. 8. v. 4. ad Reikur Reikelsisins af Bænum þeirra Heilogu hafi geingid upp af Hendi Engelsins fyrir Gud, þad er, Engels hins mikla Rads, JEsu Christi, sem giefur til Bæna allra heilagra sijna Ilenan og Fyrirboon, i hvorrar Krapti ad vor Bæn liptir sier i Hædernar, og þreingir sier i giegnum Skijenn fram fyrir Nadar Auglit Guds, fyrir hvorium hun er sem sætur Ilmur, enn þa betur luktande, helldur eñ Klæda-Ylmur Jacobs, Gen. 27. v. 27. fyrir Isaacs Vitum. Þetta Reikelsid ættu, Christinn Madur, ad leggia uppæ þad himneska Reikelsis Altarid JEsum Christum, so þad meigi upptendrast med Elldi af Himni, þad er H. Anda, sem er Andi Bænarinnar. Zach. 12. v. 10. Og mun aptur ofannstijga til þijn af Hædum blessud Endurnæring og Hiaalp i ollum Naudum, því DRottenn segir siælfur fyrir Davids Muñ: Ps. 50. v. 15. Akalla mig i Neydinni, eg vil frelsa þig

og

og þu skalt vegsama mig.

Myrrann, sem hefur beiskann Smeck, enn gief-efur po sæta Lukt, og var brwkud hiaa þeim i Austur-Alfunni til ad vardveita, framlidinn Lyk fraa Forrotnan, maa merkia Deydingu þess gamla Mannsins, og Lijfgun þess nya; Þetta er ein Beyskia Holldi og Bloodi, enn þo sæt Ilman fyrir Gudi, og honum hin þægasta Foorn, nærst Trwñi aa JEsum Christum. Þetta Offur aattu, christ-inn Saala, Gudi Daglega ad færa, þvi Daglega eigum vier ad Kappkosta, ad laata af illu og læra gott ad giora. Holldid gyrnist i mooti Andanum, og Andinn i mooti Holldinu, segier Paall, Gal. 5. v. 17. So þar er eins Lijf annars Daudi, so leingi sem Holldid lifir og drottnar i Mannsins Limum, þa er Saalinn daud i Syndunum; Vilier þu þvi ad Andinn lifi i Gudi, þa Krossfest Holldid med Gyrndum og Tilhneigingum, ibid. 24. so Nije Madurinn meigi þioona Christo og elska hann i O-forgeingilegleika, sem Paall kiemst ad Ordi, Eph. 6. v. 24. þad er, i stadfostum Asetningi og hreinum Hiartans Einfalldleika. Vid Myrruna maa Krossinn lyka samlijkiast, sem er Holldinu beiskur, enn giefur þo af sier Fridsamlegann Avoxt Riettlæt-esins Ebr. 12. v. 11. Þaa er Holldid riettelega krossfest, er þad nær ecki ad mogla mooti Gudi und-er Krossinum, helldur ad vier tokum hann uppaa oss i liwfu Umburdar Lynde, og filgium JEsu epter Matth. 16. v. 24. Þetta þrefallda Offur aattu

i An:

i Anda Drottne ad fæta, og muntu uppskiera þar af Avoxt Himneskra Giæda, þvi hvor hann saaer i Anda, saa mun af Andanum uppskera eilijft Lijf. Gal. 6. v. 8.

Hier ad auk segier Gudspiallamadurinn: Ad Gud Hafi Skipad Vitringunum J Draumi Ad Þeir Færu Ei Aptur Til Herodem, Og Hafi So Farid Annann Veg i sitt Land. Med þessu vard Falsraad Herodis ad aungvu, er hann underlagde vid Vitringana. So onijtir Guds Almætti Vielrædi vondra Manna, nær honum þocknast, þvi eckert Raad dugir i mooti Guds Raadum, hann kann ad hondla þau vijsu i þeirra Slægvitsku, 1. Cor. 3. v. 19. og sundurdreifa Dramblaatum i þeirra Hiartans Hugan, Luc. 1. v. 51. og frelsa þann snaruda af þeirra Hendi. Þier, O Herra JEsu, giefum vier oss alla til Offurs med Saalu og Lijfi; Laat þad af þijnu Lijtilæti verda Þacknæmilega medtekid, og gief ad vier, fyrir þa Himnesku Foorn, er þu Offradir Gudi vor vegna til Sætleikans Ilms, verdum fullkomner og helgadir ad eilijfu, Amen.

## 12. Capituli.

Um Hreinsun Mariu.

Og þa Dagar hennar Hreinsunar komu eptir Moysis Løgum, høfdu þau hann til Jerusalem, uppaa þad þau lietu hann koma fyrir Drottinn, So sem

sem skrifad stendur i Logmaali Drottiñs: Ad allt Karlkyns, bad er fyrst opnadi siñar Moodur-Kvid, þa skylldi kallast Drottni helgad, og ad þau gæfi Offrid, eptir þvi sem segiest i Logmaali Drottiñs, tvær Turtil-Dwfur, edur tvær ungar Dwfur. Luc. 2. v. 22. - 24.

I Moysis Logum, Lev. 12. sette DRottiñ fyrer Barn-Sængur Kvinnunum vissann Tijma, er þær skylldu heima vera eptir sinn Barns-Burd, adur enn þær geingu til Musterisins, sem var alls 40. Dagar, ef hun ætti Svein-Barn, enn tvofalldann Tijma, er hun ætti Mey-Barn, um hvorn Tijma hun kalladist Ohrein, ecki ad Konurnar væru þa odrum Ohreinni, i Guds Augliti, helldur var þetta nockurskonar utvortis Sidsemdar Regla, hvar med teiknast ætti sa Syndanna Saurugleiki, sem ollum oss er medfæddur, hvar um David talar segiandi, Ps. 51. v. 7. J Syndinni em eg fæddur, og i Syndinni took mijn Moodir vid mier. Konann ætti ad vera Ohrein i Sio Daga til þess Barnid var umskorid, hvar med þad var minteckid i Guds Naadar Sættmaale, enn sijdann kalladist hun ad vera i Bloodi sinnar Hreinsunar, til þess ad hun offradi fyrir sinni Hreinsun i Musterinu; Þetta hefur nockra Lijkingu vors Asigkomulags: Vier fædunst daudir i Syndunum, enn i Skijrninni (sem komin er i

Stad Umskurnarinnar) hreinsust vier, af med-
fæddum Andlegum Saurugleika, þo so ad vid oss
loda Spillingarinnar Meniar, allt so leingi ad vi-
er verdum ecki leystir fra Lijkama þessa Dauda,
og færdir til þess Musteris, sem ei er med Hondum
giort, 2. Cor. 5. v. 1. Þegar Eva hafdi brotid
Guds Logmaal, so væntannlegt var, ad hun mun-
di fæda Born eptir sinni Mynd, þa fieck hun þa
Avijsun af Gudi: Ad hun skylldi fæda sijn Born
med Soott og Harmkvælum, Gen. 3. v. 16. Hv-
ad hennar Dætur hafa eptir hana i Arf tekid: Og
þo þetta væri þungur Doomur, þa var hann þo
riettvijs, þvi hann maa vel minna oss aa þad, hvor-
su ad vier, vegna Syndanna, fædunst til Eymd-
anna, þar vor Inngaungur i Heiminn skiedur med
Sorg og Harmkvælum, og vor fyrsta Raust er,
Graatur og Vein, hvar eptir vier, sijdann erum
undirorpnir Siwkdoomum og allskyns Anaud,
allt til þess vier leggiunst aptur i Skaut vorrar
Moodur Jardarinnar. Þetta (sem ańad) Syn-
da-Straff, bættist aftur med þeirri Avijsan, sem
Maria fieck af DRottni fyrir Engelsins Bodan:
Ad af henni ætti ad fædast þad Heilaga, er Guds
Sonur skylldi kallast, Luc. 1. v. 35. hvørs ad allar
Ættir nioota, þvi hann var þad Sædid, i hvor-
iu ad Þioodirnar blessast, Gal. 3. v. 8.

Tvofalldt Kyrkiu Eyrendi Mariu greinir Tex-
tinn, þad fyrra, ad hun skickadi sitt Barn JEsum
fram fyrir Drottinn, þad annad ad framleggia
þad

þad Veniulega Hreinſunar Offur. Hvad þvi fyrra viðvijkur, þa ſkallt þu, mijn Saal, þeinkia þar utaf, ad JEſus Chriſtur er ſa ſanni Frumgetningur, med gamla Teſtamentiſins Frumgietningunn fyrermyndadur, fyrer hvorn vid erum ordin̄ Frumburdur Guds Skiepnu. Jac. 1. v. 18. og honum velþockud, eins og Frumgietinn Sonur ſijnum Fodur. Eg var klakinn af Moodur-Lijfi, i Heim þenna, daudur i Syndunum, og Barn Reidinnar, Eph. 2. v. 3. Enn þu, minn JEſu, ert fæddur Heilagur, hreinn og fraaſkilinn Syndurunum, Ebr. 7. v. 26. og med þvi ſama riediſt bleſſud Boot aa mijnum Eymdar-Hag, ſo eg fieck nijtt Lijf i Gudi, Eph. 2. v. 5. ſtrax ſem ad Kraptur þijns dijra Bloods draup yfir mig i H. Skijrn, og helgadi mig Gudi til Æfinnlegs Eiginndooms, ad burthreinſudum mijnum medfæddum Saurendum. Bleſſadur ſiertu, þu Himneſki Frumgietningur medal margra Brædra, hveria hu heſur giort þijna Samarfa ad eilijfri Dijrd, Rom. 8. v. 17. Enn hvad aahrærir Kvennaña Hreinſunar Offur, þa aattu þær, nær þeirra Hreinſunar Dagar voru uti, ad frambera Veturgamallt Lamb til Brenni-Foornar, enn eina Unga Dufu edur Turtil-Dufu til Synda Offurs; Enn ætti Konann ecki Lambid, þa ſkylldi hun frambera tvær Turtil-Dufr, edr tvo Dufu Unga, adra til Breñi-Offurs, eñ adra Synda-Offurs, Lev. 12. Vitaññlegt er, ad ei þurfti Maria ad offra fyrir ſiñi Hreinſun

un; so sem su, er giætid hafdi sitt Barn af Synd-samlegu Sædi, þvi sitt Barn gat hun af Heilog-um Anda, Matth. 1. v. 20. Og hennar Sonur var sa sami, sem sialfur var kominn, ad wtleggia Hreinsunar Offur fyrir allann Heim: Samt villdi hun hlÿdnast þessu Logmaali, til þess ad vot-ta sitt Hiartans Packlæti v. d Gud, er vyrdti hana þess, ad verda Moodir ad hanns Einngietna Syni. Maria offradi ecki þvi Veturgamla Lambi, sem aakvardad var i Logmaalinu, helldur Dwfu i þess Stad (eins og þær fatæku Konur aattu ad gio-ra); enn hier færdi hun med sier eitt annad Lamb, þad var Lambid Guds, sem bar Veralldarinnar Syndir, Joh. 1. v. 29. Hennar Sonur JEsus Christur, er sÿdann var upptendradur aa Ellds Glædum Gudlegrar Reidi, aa Krossins Alltari, og keypti oss undann Guds Reidi Ori, ecki med Fimm Siklum, eins og Frumburdirnar voru med keyptir i gamla Testamentinu, helldur med sijnu eiginn Bloodi, 1. Pet. 1. v. 19.

Af þvi sem nu er sagt, skallt þu, Christinn Madur, hier til Lærdooms taka, ad þu packir Gudi fyrir þau Born er hann giefur þier; Pau eru Guds Gi-of, segir David, Ps. 127. v. 3. Og sem Rijkdoom-ur sem oss filgia aa inn i Guds Rijki; Pvi ber hon-um Packlæti hier fyrir. So prijsadi Lea DRott-inn, þa henni gaafust Born, og er hun fæddi Ju-dam, sagdi hun: Gen. 29. v. 35. Pvi vil eg packa DRottni; Og til frekari Minningar, þaa liet hun

Nafnid

Nafnid Barnsins svara þessu, því Judas þijder Medkiennara. Fagrann Lofsaung kvad Anna, er Samuel var heñi fæddur. 1. Sam. 2. Þvi nærst aattu ad fæera Barnid þitt til Jesum; Minstu þess, er hann sagdi: Leifid Bornunum til mijn ad koma, og bannid þeim þad ecki, Marc. 10. v. 14. So sem Gud gaf þier Barnid, so aattu þad Gudi aptur ad giefa, eins og Anna sagdi: Eg gief hann(Samuel) DRottni alla hanns Lijfdaga. 1. Sam. 1. v. 28. Enn þetta skal giorast, fyrst med ydugle gri Bæn til Guds', fyrir Barninu, og þar nærst med christilegu Uppfostri, i Aga og Umvendun til DRottins. Eph. 6. v. 4. Þad er vijda Sidvenia Mædraña, ad leggia Barnid aa Briost; Enn hvad sem um̃ þad lijdur, þaa legg Barnid þitt aa JEsu Naadar-Briost, laat þad inndrecka þau skijru Miolk hañs blessudu Orda, og þad strax aa twomann Magañ, eptir þvi sem mogulegt er, þad er, adur enn þad nær ad verda samdauna þessum vonda Heimi, so þad meigi, aasamt med Proska Lijkamans, vaxa ad Naad hiaa Gudi og Monnum, Luc. 2. v. 52. og mun Barnid þar af leidã Farsælld i Heiminum og Fullsælu i Himnenum. O! Þu trwfasti Herra Jesu, þig bid eg af Hiarta: Virdstu ad bera oll mijn Born fyrir þijnu Mysktunar Briosti og Hiarta, tekna þau i þijna Loofa, Es. 49. v. 16. til æfinnlegrar Blessunar Miñingar, vardveit þau fraa þvi vonda, og þegar þinn Tijmi er, þa leid þau af þessum Heimi ꜳn aa Land lifandi Manna, so eg

mætti samfagna þeim og þau mier, ásamt øllum Þij-
num Utvølldum, i Himnarijkis Dijrd og Gledi eilijf-
lega: bænheyr þad fyrir þijns Nafns Sakir. Am.

# 13. Capituli.

Um þañ gudhrædda Simeonem.

Og sia, ad eirn Madur var i Jeru-
salem, sa er Simeon het, og þessi
sami Madur var Riettlatur og
Gudhræddur, væntandi eptir Huggun
Israels, og H. Andi var med hønum; Og
hañ hafdi Andsvar feingid af H. Anda,
ad hañ skylldi eigi Daudañ sia, nema hañ
sæi adur fyrri Christ DRottins; Og
hañ kom af Andans Tilladan i Musterid.
(Luc. 2. v. 25-26.)

Lær hier, mijn Saal, nockud af Simeonis Dæmi,
so þu naer meigir Simeonis Hlutskipti: hann var
Riettlatur Madur og Gudhræddur. Eingiñ List
er so kostuleg, og eingiñ Lærdoomur so agiætur,
sem þad ad Ottast Gud i allri Hondlan, og vardvei-
ta hanns Vegu i christilegu Framferdi: Øll mañ-
leg Ydia og Astundan er aungvu nyt, nema hun sie
kryddud med Guds Otta, þad er sw ædsta Lucka er
þu naer kannt; Þvi Paall segir: 1. Tim. 4. v. 8. Ad
Gudhrædslann sie til allra Hluta nytsamleg, hafan-
di Fyrirheit þessa Lijfs og hins eptirkomanda. Þvi
þo eirn gudhræddur Madur hafi ecki miklu Ver-
alld-

alldarinnar Læni ad fagna, þa er þo DRottinn hanns Hiartans Hlutskipti, Ps. 73. v. 26. hvar vid hann gledur sig i vãum Sorgum og Ahaudum, laungtum betur enn Veralldarinnar Bern vid sijn Audæfi, þvi hann veit ad þessa Heims Mynd forgeingur, 1. Cor. 7. v. 31. enn Arf-Skipti gudhræddra er Ovisnannlegt og Oforgeingilegt, 1. Pet. 1. v. 4. Þar fyrir, Sæl mijn, ven þig til Gudhrædslunnar, stunda þad i Lifnadinum, sem David um sig talar, segiandi: Eg helld Vegu Drottinns og breiti ecki Ogudlega i mooti mijnum Gudi, þviad alla hanns Dooma hef eg mier fyrir Sioonum, og hanns Bodordum fleigi eg ecki burt fraa mier. Ps 18. v. 22. 23.

Textinn segir; Ad H. Andi Hafi Verid Med Simeone; þvilijkt er hin mesta Heill og Æra, er syndugur Madur faa kann, þvi þo H. Andi bwi ecki so rijkuglega og so ad segia þreifanlega hiaa Monnum nu aa Dogum, so sem aa fyrri Tijmunum, þa fær hvort eitt trwad Guds Barn so rijkuglegar Aftgiafer hanns, sem þad nockurn Tijma þurfa kann til Sæluhiaalpar, og þvi segir Paall: 1. Cor. 3. v. 16. Vitid þier ei, ad þier erud Guds Musteri, og þad Guds Andi byggir i ydur: Og er þvilijkur Madur eirn Andi med Gudi, Cap. 6. v. 17. og hefur sijfelldann Forsmeck eptirkomandi Alldar, þvi H. Andi er Pantur vorrar Arfleifdar, Eph. 1. 14. og ber Vitnisburd vorum Anda ad vier sieum Guds Born, Rom. 8. 17. hann hef-

ur Hugguni i Mootlætinu, Gledi i Sorgunum, Styrk i Freistingunum, og Lijf i Daudanum; Þvi ef ad Obededoms Hws blessadist medann Sattmals Orkinn var þar iñi, 2. Sam. 6. v. 11. miklu framar mun bædi Saal og Lijf bijda allskins Blessan af Guds Anda Jbwd og Nærveru. Eñ minnstu, christinn Vin, Pauls Orda: Hann sem fordiarfar Guds Musteri, þañ mun Gud fordiarfa; 1. Cor. 3. v. 17. Þetta skiedur, þegar Samvitskann er saurgud med vondum Lifnadi, hvar med H. Andi burt styggist, og Hiartad, sem æ ad vera hanns Musteri, giørist Ræningia Bæli, þa sar Ohreini Andi nær ad rijkia þar inni i vijsvitandi Syndum og Løstum; Þvi segir Ritningiñ: Snertid eckert Ohreint, þier sem berid Kier DRottins. Es. 52. v. 11. Hvar af vier eigum ad læta oss sagt vera, ad hreinsa oss af øllum Saurugleik Holldsins og Andans. 2. Cor. 7. v. 1.

Framar meigum vier af Textanum siaa, ad þad er ecki til Forgefins ad þioona DRottni: Simeon vardveitt Vegu DRottins i Guds Otta, og liet leidast af H. Anda; so viisadi hønum Andinn i Musterid, til ad siaa þar og skoda þa Jsraels Huggun, eptir hvørri hann i Voninni bedid hafdi, þad er, JEsum Christum Heimsins Lausnara. Þetta sama Hlutskipti kannt þu, miin Saal, ad odlast eñ i Dag, ef þu giefur Guds Anda og Ordi Rwm i þijnu Hiarta. Ad sønnu kunnum vid ecki ad siaa JEsum med ockar Lijkamans Augum, eins og Si-

meon

meon, þvi hann er ad synilegri Umgeingni vikinn fraa Heiminum; ei ad sijdur kunnum vid i Trwnni ad lijta og skoda ockar blessada Lausnara med ollum sijnum Forþienustu Velgiorningum, so vel sem Simeon, þvi hañ er ockur fyrir Augum i Ordenu uppmaaladur, Gal. 3. v. 1. Þvi segir og Postulinn: 2. Cor. 3. v. 18. Vier skodum aller Byrte DRottens, so sem i Speigli med Ohuldri Asioonu. Israels Bornum Ognadi ad horfa a Geyslum-strialandi Mosis Andlit. Ex. 34. v. 33. Eñ þegar eg med Trwnni næ ad horfa aa JEsu Christi allra-skiærustu Asioonu, þa hverfur allur Hiartans Kvijdi, þvi þar af standa þeir blessudu Naadar og Myskunar Geyslar, er gledia Saalena, endurnæra Hiartad, og fridstilla Samvitskuna; þvi þessi Dijrd JEsu Asioonu bodar þad Riettlætid, sem dugir fyrir Gude til ad afmaa allt mitt Ranglæti, so eg þurfi ecki i Forsmaan ad utrekast fraa hañs Augliti. Uppaa þig mæni eg, minn sætasti JEsu, mijnum Trwar Augum, þegar Sorganna Bilgiur addynia; Lijt þu þa, DRottinn minn, aptur til mijn Myskunar Augum þijnum, og laattu þijna Asioonu lijsa yfir mig, so eg þijns Hiaalprædis nioota meigi bædi i Lijfi og Dauda. Sæll var hinn gudhræddi Simeon, er hann fieck ad siaa med Lijkamans Augum alls Heimsins Lausnara, og taka hann uppaa sijna Arma, sem honum hefur maatt afla fierdeilis Hiartans Gledi; Eñ hvad sagdi Herrann sialfur vid Thomam? Sæler eru þeir, sem

ecki siaa og trwa þo. Joh. 20. v. 29. Ecki kunni sw lijkamlega Siooninn aa JEsu ad hiaalpa, nema sw andlega hefdi medfilgt, en sw andlega hiaalpar med fullum Krapti þo hina vanti; Med Lijkamans Augum kunni Simeon einasta ad siaa hann, sem eina Maňeskiu, eň med Trwar-Augunum leit haň haň, so sem þann er kominn var ad giora Syndarana Saaluhoolpna, 1. Tim. 1. v. 15. og i þessari Siooninni er mest Sælann innifalinn, jafnvel þo þvi sie ecki ad neita, ad sw lijkamlega Siooninn aa JEsu hafi eflt og aukid Gledina i Hiartanu hiaa þeim Guds Monnum, sem hun heppnadist, hvad Christur aavijsadi, segiandi so til Lærisveinaňa: Sæl eru þau Augu, sem siaa hvad þier siaid. Luc. 10. v. 23. Samt hafa þeir Merg og Krapt Sælunnar, sem hafa JEsum fyrir sitt Hugskots Augna Mid, og fadma ad sier haňs dyrmætu Forþienustu med Ormum Trwarinnar, jafnvel þo þeir saai ecki ad siaa JEsum med Holldsins Augum. Hinir, sem ecki vilia trwa aa JEsum, nema þeir siaai hann eins og Thomas, eru eins og þeir, sem ecki vilia trwa nema þeir siaai Teikn og Stoormerki: Joh. 4. v. 48. Eň þess vegna giefur Guds Anda og Ordi Dijrdena, og laata bad alla Verkunena hiaa sier hafa, þo synileg Teikn vanti, þvi þeir hafi i siaalfann Kiarna Trwarinnar, hvor ad er oruggt Traust þeirra Hluta, sem Madur vonar enn sier ecki, Ebr. 11. v. 1. þad er þeim noog, ad þeir faa ad siaa JEsum i Anda hier i Naadinni, og skulu sijdann siaa hann Augliti til

Aug-

Auglitis i Dijrdinni. 1. Cor. 13. v. 12. Þegar Stephanus Pijslar-Vottur var i Hel griittur, þaa saa hann Himininn opiñ og Guds Son standandi til Fodursins Hægri Handar, Act. 7. af hvorri Sioon hann hrestist i Hiarta, gieck gladur mooti Daudanum, befalandi siñ Anda i Frelsarans Hendur. Þar sem þu, Saal mijn, hefur þijn Trwar-Augu fest aa JEsu, þa þarftu eckert Heimsins Adkast edur Araasir ad Ottast, og ecki siaalfañ Daudann. Hitt er þier Soomi ad lijda med þijnum Frelsara, hvar til hann mun siaalfur styrkia þiñ Vanmaatt, enn þetta verdur þier Inngaangur til eilijfrar Gledi. DRottinn minn JEsu, uppliuk þu Augum mijns Hugskots, so eg faai þau aa þier fest, ædur enn eg skal vid Heim þennann skilia, og þa Daudans Myrkur formyrkva mijn Lijkamans Augu, þa gief, DRottinn, ad Trwar-Augunn mættu sem allra auglioosast siaa þig, so sem þann, er fyrir mier hefur Himnenum upplokid, og situr til Fodursins hægri Handar, reidubwiñ ad taka mijna Saalu i þinn wtbreidda Myskunar-Fadm, so eg odlast mætti ad siaa þig og skoda fyrir utann alla Skugg-Siaa um Alldir Allda. Amen.

# 14. Capituli.

Um Lof-Saung Simeonis

OG þa er Forelldrarnir hofdu Barnid JEsum i Musterid, ad þau giordu fyrir honum eptir Sidven-

tu Løgmaalsins, þa took hañ hañ uppaa
sijna Armleggi, og sagdi: Nu laattu
Drottiñ Þioon þiñ eptir Ordum þijnum i
Fridi fara, þvi ad mijn Augu hafa sied þitt
Hialpræd, þad þu tilreiddir fyrir øll-
um Þioodum, Lioos til Uppbyrtingar
heidnum Þioodum, og til Dijrdar þijns
Foolks Israel. Luc. 2. v. 27. = 32.

Nætum ockur, mijn Saal, þeinkia hier eptir med
faam Ordum, og merkium fyrst, ad þa Simeon
hafdi tekid JEsum uppaa sijna Arma, lofadi hañ
Gud og sagdi: Laat Þu Nu Drottinn Þioon Þiñ
i Fridi Fara. Saddur Lijfdaga hefur hann tal-
ad þessi Ord, hann hafdi leingi þreyd eptir þvi ad
meiga siaa Meßiam, og sem hann hafdi þad feing-
id, og JEsum uppaa sijna Arma tekid, þa vill hañ
feginn deya, þvi hann gyrntist nu eckert framar, er
hann faa kunni i Heiminum, og so er hvor einn lyn-
dur, ad hann vill feginn leysast hiedañ og vera med
Christo, Phil. 1. v. 23. Sa sem sijn Trwar Au-
gu hefur fest aa JEsu, þar af feingid Forsmeck ept-
irkomandi Alldar, og þeckir riett þetta Hiervistar-
Lijf, hvorsu ad þad er fullt Striids og Armædu,
og kann aungvann stadfastann Frid ad giefa,
so Job hefur sagt: Madurinn af Kvinnunni fæd-
dur lifir stutta Stund, fullur Onaadar, Job. 14.
v. 1. Satan lætur alldrei af ad strijda a Guds
Børn, þvi hann geingur uñ kriing sem greniandi
Leoñ

Leon, leitandi ad þeim sem hann uppsvelgt fai, 1. Pet. 5. v. 8. Lijtinn Frid giefur Verølldinn þeim sem ecki eru af hennar Hoop, hvervetna er þeim af henni bwid Hatur, Offsookn og ymisleg Erting. Hvad miklar Oeirdir vekur sa gamli Adam i Hiartanu og Samvitskunni, er hann strijdir mooti Andanum? Og þessi Ofridar Hreggvidri skaka vora Jardnesku Tialldbwd æ so leingi vier hliootum med hana ad velkiast alla vora Pilagrijms Reisu fraa Vøggunni til Grafarinnar, hafandi hvørgi blijfannlegann Samastad, Ebr. 13. v. 14. Ad Fara J Fridi maa hier lijka merkia, ad leysast wr Faangelsi (eptir þvi sem Textans Ord merkir stundum). Hierviſtar Lijfid er sem annad Faangelsi, i hvøriu Hiartad stynur og andvarpar: Eg vesæll Madur, hvør vill frelsa mig af Lijkama þessa Dauda? Rom. 7. v. 24. Faanginn hlijtur ad sitia i Faangelsinu til þess ad Herrann giefur hann lausann; Ecki kunnum vier vid þessa Lijfs Armædu ad losast, fyrri enn Drottinns Tijmi er ad laata oss i Fridi fara. Sæll er sa sem tekur med Polinnmædi af Guds Hendi bædi Lijfi og Dauda, i þeirri Trw, ad hvørt hann lifir edur deyr, þa sie hann Drottinns, Rom. 14. v. 8. Þa hid fyrsta forum vær og verdum i omeingudum Fridi, er vier hiedann wtleysunst; Þa leggst Holldid til Roosamrar Hvijlldar i Jordunni, enn Saalinn verdur færd til þess eilijfa Fridar-Lands, hvar Jesus Christur hefur henni tilbwid ovendannlegann

Frid og Fognud, Gledi og Roosemd. Vilier þu nu, mijn Saal, nioota þessarar blessudu Fridar-Vistar eptir þetta Armædufulla Lijf, þa stunda Kostgiæfilega Dæmi Simeonis: Hann, med Guds Otta i Trw og Von beid eptir Huggun Israels, og leystist so hiedann i Fridi. Allir þeir sem Fridinn elska, lifa Fridsamlega vid Naungann, giøra aungvann Frid vid sijna Saalar Ovini, vardveita JEsu Fridar-Giof i trwudu og þolinmoodu Hiarta, bijdande so Daglega sinar Burtfarar til þess þeirra Umskipting kiemur, þeirra Utfor af Heiminum verdur i Fridi, so sem Johannes, Opinnb. 14. v. 13. segier: Sæler eru, i fraa þessu, þeir framlidnu sem i DRottni deya, jaa, Andinn segier, ad þeir hvijli af þeirra Erfidi.

Þar nærst skulum vid, mijn Saal, þeynkia eftter þvi ad Simeon kallar i Textanum Jesum Christum, Lioos til Uppbyrtingar Heidnum Þioodum. Fedur vorer geingu fordum fram i Ofrioossomum Myrkra Verkum, er þeir dijrkudu Stocka og Steina, og lifdu eptir Innbirlingu blindrar Natturu, hafandi ecki ad segia af Guds Orda Liioosi, þeir voru aan Guds i Heiminum og fyrir utann Christum, Eph. 2. v. 12. So vorum vier i þeim Myrkrana og Reidinnar Born; Þessu Andlega Myrkri atti eptir ad fylgia eilijst Kvala Myrkur: enn þar upprann eitt Lioos af Hædum, er lijsti þeim sem saatu i myrkvum Dal og Daudans Skugga, so sem Esaias fyrirsagdi, Esa. 9. v. 1. Þad er Jesus

us Christur, sem er Lioomi Fodursins Dijrdar, Ebr. 1. v. 3. og er ordinn Uppbyrting Heidingianna. Hann lætur Lioos sinna Orda uppliisa Myrkur vors Hugskots, og greida vorar Fætur fram wr Villudoomsins Myrkri æ Veg Fridarins. Lioos sinnar Myskunar lætur hann gledia og Hugsvala vorum Hiortum i ollum Sorgum og Anaudum. Lioos Gudrækninnar tendrar hañs Andi hiaa ollum þeim sem af honum stioornast laata. Lioos eilijfrar Gledi giefur hann sijdann þeim, sem gaanga i Lioosinu, og laata ei Myrkurinn houdla sig. Laatum oss i Minni loda Aminningu Postulans: Þier vorud fordum Myrkur, enn nu erud þier Lioos i Drottni, gaangid þvi so sem Lioossins Born, Eph. 5. v. 8. og þeynkium ecki, ad þad sie noog, ad Gud hefur kallad oss til siins Daasamlega Lioos, ef ad vier hofum, aptur ad niju, Hlut i Ofrioossomum Myrkra-Verkum, þvi þeir sem eftirfilgia Gyrndum Holldsins, og laata Syndina drottna i siinum Limum, þeir eru ecki Lioossins helldur Myrkranna Born; Þo Guds Orda Lioos sie fyrir þeim tendrad, þa nær þad ecki ad skijna iñ i Hiartad, þvi Vantrwar og Athugaleysis Skugge wtibyrgir þess Byrtu. Fiisn Augnanna, Gyrnd Holldsins og Drambsamt Lijfernu, 1. Joh. 2. v. 16. glepur fyrir Augu þeim, ad þeir faa ei ratad Lioossins Veg, verda sijdann Myrkrinu samdauna; So þeir koma ecki til Lioossins, so þeirra Verk straffest ecki, af þvi þau eru vond, Joh. 3. 20

Þar

Þar fyrir, so sem Giædska Guds hefur frelsad oss af Valldi Myrkrana, so lætum oss afleggia Verkinn Myrkranna, og gaungum i Lioosinu, lætum Guds Ord lijsa oss i ollum Lijfernis Athofnum, so hvonær sem Daudans Myrkur yfir oss falla, ad vier, fyrir Leidarvijsir Lioossins, mættum gegnum þau rata iñ a þad eilijfa Lioossins Land. Þess unn þu oss ollum, blessadi Lioosanna Fadir, fyrir Sonar þijns Forþienustu, Amen.

## 15. Capituli.

Um Spaadoom Simeonis ut af Christo.

Og Joseph og hañs Moodir undrudust þad, hvad af honum sagdist, og Simeon blessade þau, og sagdi til Mariu hañs Moodur: Sia, þessi mun setiast til Falls og Upprisu margra i Israel, og til Merkis, hvoriu i mooti mun mælast. Og eitt Sverd mun þreyngia sier i gegnum þijna Saal, so ad augliosist verdi Hugskots Þankar margra. Luc. 2. v. 33 - 35.

MJJN Saal, færum ockur þetta i Nyt Gudrækilega, ockur til Saaluhiaalplegrar Uppbyggingar: Verdt var þad, þo Joseph og Maria undrudust þad sem þau heyrdu af Barninu JEsu, bædi fyrir og eptir hanns Fædingu. Og hvad kylldi, Undrunarlegra vera Mannlegum Skilnin-

gi,

Gi, enn sa mikli Leyndardoomur, ad Gud er opinn-beradur i Hölldinu, 1. Tim. 3. v. 16. Vijst skylldir Þu, Saal mijn, med Hiartans Forundran dadst ad Þeirri Grunnlausu Mystkun Guds, ad hañ þyrm-di ecki sijnum Eingietna Syni, helldur gaf hañ wt Rom. 8. i Kvol og Krossins Dauda, þier aumri og syndugri til Saaluhiaalpar. Enn þad er lijka, ad sinn Haatt, Forundrunarverdt, sem Simeon umspaair, og Spaamadurinn yfirklagar: Ad sa dijrmæti Grundvallar Steinninn i Zion, Esa. 28. v. 16. er af Uppbyggendum burtkastadur Ps. 118. v. 22. og ordinn ad Asteitingar Steini, Esa. 8. v. 6. Þessi Grundvallar Steinninn er vor blessadi Endurlausnari JEsus; Yfir hann og aungvañ annann er Grundvollud og bygd vor Saaluhiaalp 1. Cor. 3. v. 11. Hormulegt er þa til þess ad vita, ad hann skuli morgum til Falls verda, og su Hiaalp-rædis Hellann, 1. Cor. 10. v. 4. ad einni Hneixlun-ar Hellu, Esa. 8. v. 6. Enn hverium verdur hañ þad? Þeim vantrwudu, segier Postulinn, 1. Pet. 2. v. 7. Vijst var þo þessi Steinn hardla auglioos; Þvi so berlega opinnberadist JEsus Gydingum med Guddoomlegum Taaknum og Stoormerkium, bædi i Ordum og Verkum: Enn fyrir þvi þeir villdu hverke trwa hanns Ordum nie Verkum, og forecktudu Guds Raad gegn sialfum sier, Luc. 7. v. 30. þa hafa þeir steitt sig so aa hon-um, ad þeir hafa ecki bedid eñ Bætur þeirrar Hros-unar: Vidlijkt hendir þa enn i Dag, sem reka sig

aa Ordid, og þar ei aa trwa, hvar þeir eru uppaa-
settir, 1. Pet. 2. v. 8. Þad eru þeir sem ecki giefa
Guds Ordi Rwm i sijnu Hiarta, þeir sem heyra
þad Ordid af Kroſsinum med þungum Eyrum, ſo
þad nær ecki ad inrætaſt i Hiartanu. Þeſsir med-
kienna JEſum med Ordunum, enn burtkaſta hon-
um med Verkunum, er þeir elſka og ydka Syndir
og Leſti, og laata ecki Minning hanns Dauda dey-
da i ſier vondar Tilhneigingar; Þeſsum verdur
JEſus til Falls: Þvi hvorninn kann Saattmaal-
ans Blood ad koma þeim til Nota; ſem þad Foot-
um troda med Ydrunarleyſe og vondum Lifnade?
So er Vantrwinn þa kroptug, ad giora þa bleſſ-
udu Heilſu-Boot, er Fadirinn ſendi ollum Heimi,
ad Saalar Olyfian, og þad ſem ſwo eilijfa Giæd-
ſkann hugdi ollum til Saaluhiaalpar, þad gierir
Vantrwinn ſier til eñ ſtærri Fordæmingar. Laat-
um þvi Gydinganna Dæmi oſs ad Varnadi ver-
da, þvi þad er i Guds Ordi uppteiknad oſs til Vid-
vorunar; Þar fyrir vier, ſem laatum oſs þykia ſem
vier ſtondum, ſiaaum til, ad vier follum ecki, 1. Cor.
10. Þvi til þeſs er JEſus i Heimiñ komiñ, ad hann
mætti ollum ad Uppriſu verda. Vier laaum fall-
nir, og hofdum allir hraſad medal Ræningia, ſem
var Diofullinn med ſijnum Her, er ſvipti oſs vor-
um Riettlætis Klædum, og lemſtradi oſs Daud-
legum Saarum, ſo vier laaum uñvelltir i voru eig-
inn Bloodi, eñ JEſus Chriſtur Sonur Guds ſag-
de til vor: Þu ſkallt lifa, Ez. 16. v. 6. Hañ droo
oſs

oss upp wr vorum Saurendum, og setti vora Fætur a Hellu-Biarg, sem var siaalfur hann. Sæll er sa, sem ecki hneixlar sig a mier, segier hañ siaalfur, Matth. 11. v. 6. Jaa, sæll er saa, sem med lifandi Trw, trwir a þenna Grundvallar Steiniñ, þvi hann skal ecki til Skamar verda, 1. Pet. 2. v. 6. Hanns Saaluhiaalpar Hws er a Biargi byggt, so eingin Hormunga nie Freistinga Hreggvidri faa þvi grandad, og ecki Port Helvijtanna, Matth. 16. v. 18. Gief þu mier, Giædskuriski JEsu, ad eg i allri Areynslu meigi til þijn flya, og vid þig stidiast og styrkiast, so þinn Kraptur i mijnum Breiskleika fullkomnest, 2. Cor. 12. v. 9.

Framar segier Simeon: Ad JEsus Rum sett ur Verda Til Merkis, Sem Mooti Muni Mælast: vijst var hañ af Drottni uppsettur til Strijds-Merkis ollu Foolki, Esa. 11. v. 10. Og Sigur-Hroosunar-Teikns, uñ þann Sigur er hann vann yfir ollum vorum Ovinum, enn mijn vegna giordist hann eitt Mootmælis Skotmaal, þegar hann þoldi Brixlyrdi, Formælingar, Offookuir og allskyns Kvalrædi, hvar med hann bætti fyrir oll mijn Mootmæli og Ohlijdni gegn Gudi og hanns Logmaali. Minnstu, mijn Saal, a hann sem þvilijk Mootmæli þoldi, Ebr. 12. v. 3. og lær af honum, ad lijda med Þolinmædi Heimsins Adkast, hvar med þu lijkist ecki einasta hanns signudu Moodur, (hvorrar Hiarta ad Angistarinnar Sverd i gegnum smaug, þa hun maatti horfa uppa hann al-

bloods-

bloodugann ad Kroßinum ), helldur og einig sialf-
um honum, Guds og Mariu Syni, enn ef vier
lijdum med honum, segier Paall, þa munum vier
med honum rykia.

HErra JEsu, vyrdstu ad uppreysa mig so wr
Syndanna Saurendum hier i Lijfi, ad eg kunni
sijdar meir, fyrer þijna Forþienustu, wr Grøfinni
uppriisa og framgænga til Lijfsins Upprisu. Þi-
er med Fødurnum og Heil. Anda, sie Lof og Dijrd
ad eilijfu, Amen.

# 16. Capituli.

Um Aunu Spaakonu.

Og þar var Anna Spaakona, Doott-
ir Phanuels, af Kyni Aseer, hun
var komin til Ara sinna, og hafdi
lifad i Sio Ar med sijnum Eignar Mañi,
eptir sin Meydoom, og hun var nu ein
Eckia, hafandi Fioora Vetur um Att-
rædt, hvor ed eigi gieck wr Musterinu,
þioonandi Gudi Noott og Dag, med Føst-
um og Bænahalldi; Þessi gieck og sam-
stundis þar ad, og prijsadi Drottin, og
sagdi af honum til allra þeirra sem Lausf-
nariñar vonudu til Jerusalem. Luc. 2.
v. 36. = 38.

Hier hofum vier a Aunu Spaakonu æglætt
Efterdæme Hreinlijfesens; Gud hefur kallad
oss

oss ecki til Ohreinleika, helldur til Helgunar, 1. Theß. 4. v. 7. Þvi hann elskar skijrlijft Hiarta, og hreinferdugt Lijferni, sem allir þeir stunda eiga, er Gudi vilia þocknast, bædi i Egtaskapnum og Ein-lijfenu. Egtaskapurinn er heidarleg og heilog Stiett, Ebr. 13. v. 4. Þvi æ hun hvorki i Uppbyrianinni nie Framgænginum ad fleckast med Lausung edur Lostasemi, leint edur lioost, skuli Hioonaband-id Gudi þægt vera, miklu helldur eiga, so vel þeir sem þad uppbyria, sem hinir er Einlijfid hallda, ad geima sitt Kier i Helgan og Heidri, 1. Theß. 4. lijka sem sæ skijrlijfi Joseph, þa hann var æreittur af Potiphars Kvinnu, og sagdi: Hvorninn skal eg giora þetta Vonda og syndga so i mooti Gudi. Gen. 39. v. 9.

Þessi Anna Spækona var ein Eckia: Einstæd-ingsskapur og Eckiustand er ad visu aumt og sorg-legt, enn þad er blessud Huggun allra gudhrædds Eckna og Einstædinga, sem hallda sier vid DRottinn med Bindindi og Bænahalldi, ad hann almætt-ugi vill þeirra Mælefni ad sier taka, so þegar hann lætur siin Born rata i þetta Sorgar-Stand, þa vill hann þeim þar med kienna, ad leita allrar Unad-semdar sinnar i sier sialfum, bera so fyrir þeim alla Umhyggiu, so miklu betur enn nockrir Forsvars-Menn, sem hann er þeim bædi mættugri og trwfast-ari; Þvi hefur hann sterkann Vara teki fyrir þvi ad giora nockurt Mein Eckium edur Foodurlausum, Ex. 22. v. 22. og sialfur hialpad þeim þrælega

med dauſamlegu Mooti: Gud uppvakti Boas til Aſtaar þeirri Munadarlauſu Ruth. Ruth. 3. Hañ ſendi Eliam til Eckiunnar i Sarepta, henni til Biargar og Bleſſunar i Hallærenu, 1. Reg. 17. Sialfur JEſus hrærdiſt af innſtu Medaumkan yfir Eckiunni i Naim, og bætti alla hennar Sorg, er hann uppvakti hennar Son af Dauda, Luc. 7. ſo þad ſannaſt margfalldlega er David ſegir: Pſ. 68. v. 6. Ad DRottinn ſie Doomari Ecknanna og Fader Fodurlauſra.

Framar ſegir i Textanum: Ad Anna Hafi Ecki Vikid Ur Muſterinu, Pioonandi Gudi Noott og Dag med Foſtum og Bænahalldi; Lijka talad af JEſu til þeirra ſem Lauſnarinnar bidu. Hier af maa ſiaa, ad þeſſi gudhrædda Kvinna hefur dv-alid ſtadfoſtlega i Muſterinu, og jafnvel gieſid ſig þar til nockrar Pioonuſtu; ſo ſem raada maa af Ritningunni, Ex. 38. v. 8. ad nockrar Konur hafi giort. Og viijſt hefur hun verid þar daglega vid Tijder. Þad ſama gyrniſt David hiartannlega, og þvi ſegir hann: Pſ. 27. v. 4. Eins þa bid eg af DRottni, þad ſama þægi eg giarnann, þad ad eg mætti blijfa i Hwſi DRottins mijna Lijfdaga, til ad ſkoda þa ægiætu Pioonuſtugiørd Drottins Guds, og ad vitia hanns Muſteris; Og þetta hefur hanns Saalar Gledi verid, þvi ſegir hann annarſtadar: Pſ. 122. v. 1. Af þvi þa gled eg mig, ad til mijn er ſagt: Ad vier ſkulum inngaanga i Hwſ DRottins. Þetta Heilagra Samkvæmi er ſem Figura

þeſs

þess eilijfa Sabbats i þeirri himnesku Jerusalem undir hvad vier eigum oss ad bwa, med gudrækileg' ri Þioonustugiord i Eindrægni Andans, i DRott' ins Mustere, hvar Hiortu og Twngur Guds Barna eru sem samstillter Strengir i Horpu Guds Lofgiørda, hvar af ad sætur Hlioomur uppleggur i Himininn fyrir Eyru DRottins; Þvi hefur hañ sinni himneskri Naad og Blessan heitid þessu Samneiti sinna Barna, er hann sagdi Ex. 20. v. 24. vid Mosen: J hvorium Stad sem eg skicka ad vera skuli Miñing mijns Nafns, þangad vil eg koma til þijn og blessa þig. Hier ad auk eigum vier i øllum Stødum honum ad þioona med Bindindi og Bænrækni, Noott og Dag, ad Dæmi hinns heil. Davids, er segir: DRottinn, Gud minn Hiaalpari, æ Noott og Degi kalla eg fyrir þier, Ps. 88. v. 2. og enn þa: DRottinn, æ Naattar-Þeli minnist eg þijns Nafns. Ps. 119. v. 55. Soleidis æ Hiartad ad vera reidubwid ad upplypta sier fyrir Drottinn, æ øllum Tijmum, so mun hañ laata sitt Myskunar Andlit skyna yfir oss i Voku og Svefni, Noott og Dag, so vier meigum med David fagna yfir Guds Vernd: Eg ligg og sef med ollu i Fridi, þvi ad þu DRottinn alleinasta hiaalpar mier, þad eg Ottalaust byggi. Ps. 4. v. 9. Gud giæfi ockur, mijn Saal, þad, ad sofna wtaf æ Kvølldinn fraa ockar Bænagiørd, og æ Morgnana uppvakna, til hanns Lofgiørdar; Vijst mun JEsus gista þaa ockar Hiartans Herbergi, bædi i Voku og Svefni. Hañ

ætti lijka ad vera ockar tijdaſta Rædu-Efni, ad vid aaſettum ockur eckert annad ad vita, ockur til Hiartans Forliſtingar og Saaluhiaalpar, utann JEſum Chriſtum, og hann kroſsfeſtann, 1. Cor. 2. v. 2. allt þaangad til vid faaum Lauſn af Lijkama þeſſa Dauda, og verdum færd fram̃ fyrir Stool Guds og Lambſins til ad þioona hönum Dag og Noott i hanns Dijrdar Muſteri.

Minn elſkulegaſti Endurlauſnari, gief þu mier ad hreinſaſt æ meir og meir af öllum Saurugleik Holldſins og Andans, og þioona þier med hreinu Hiarta, ſo hvonær ſem holldlegra Aſtvina Adſtod dvijn og þrijtur, og Daudans Noott yfir mig kiemur, ad þijn bleſsud Aſt og Trwfeſti, virdiſt mier þa beſtu Hiaalp og Huggun veita, ſo eg komaſt mætti til þeirra Gledi Samviſtanna med ſiaalfum þier, ſem þu hefur mier fyrirbwid i Rijki Himnanna; Bænheyr þad fyrir þijns bleſſada Nafns Sakir, Amen.

# 17. Capituli.

### Um̃ Heimreiſu Joſephs og Mariu.

DEr þau höfdu allt fullkomnad epter Lögmaali DRottins, ſneru þau aptur i Galilæam til Borgar ſiñar Nazareth. Eñ Barnid voox upp og ſtyrktiſt i Anda, fullur Vijsdooms, og Guds Naad var med hönum. (Luc. 2. v. 39. 40.)

Mijtt

MIIn Saal, lær hier af Josephs og Mariu Dæmi: Ad, vilier þu niootandi verda Guds Blessunar til þinna Hwss Stioornar Umsvifa, þa byria þau ecki fyrri en þu hefr aadr golldid Gudi siin-ar Skylldur. Guds Ottinn a ad vera Upphaf, Mid og Endir allra þinna Athafna og Utriettinga. Guds Blessan er þad, sem sedur þig og vermir, enn ecki þitt Erfidi og Forsioon; Þvi ef DRottinn byggir ecki Hwsid, þa erfida þeir til einkis sem þad uppbyggia, Ps. 127. v. 1. Þvi aattu alldrei so til þinnar Um-Siisslunar ad gaanga, ad þu hafir ei feingid hana med þier, med Bæn og Gudrækni. Laat þier ei falla wr Hiarta Lausnarans Reglu, hier um hlioodandi: Leitid fyrst Guds Riikis og hanns Riettlæt-is, so mun ydur hitt annad tilleggiast. Matth. 6. v. 33. Lwk þvi Gudi fyrst siinar Skylldur i Anda og Sannleika, gack siidann til þiins Erfidis, og leita þinnar Atvinnu i þiins Andlitis Sveita, eptir þvi sem þiin Kallan og Stiett utheimtir, hafandi midt i þiinum Utriettingum, Gud fyrir Augum þier, i hvors Hendi allir Hlutir standa, Ps. 95. v. 4. so muntu hanns Blessunar nioota, sem þier er betri enn Tiju Synir, þvi hun giorir einn riikann aan Mædu, Prov. 10. v. 22. so þar sem hinir Hugsiwku eta sitt Braud med Hrygd og Hugar-Viili, þar giefur DRottenn þad siinum Astvinum sofandi, so sem David kiennir. Ps. 127. v. 2. Befala þvi DRottins Forsioon Endaliktena, og tak med Þockum þad sem hann vill þier aavinnast laata, hv-

ort þad er meira edur minna, þvi hann æ friaalst ad utdeila ofs Verk-Præelum sijnum so mikid og lijtid sem hann vill; Þess vegna eigum vier ad læra, med Paule, haaer og lægerad vera, Roog ad hafa og Skort ad lijda. Phil. 4. v. 12. Þad er og Obrigdañlega vijst, ad alldrei verdur saa Riettlaati yfirgiefinn, Ps. 37. v. 25. ad Gud hiaalpi honum ecki med einhvoriu mooti, sem um sijdir skal þiena þeim til gooda er hann elska. Rom. 8. v. 28.

Þetta, sem nu er sagt, ætt þu, Christinn Madur, i annann Maata, ad kienna Barni þijnu, nefnilega: Ad þu innrætir hiaa þvi Guds Ottann, sem er Upphaf Vitskunnar, Prov. 9. v. 10. og allra goodra Hluta, og sijdann kiennir þvi ærlegt Erfidi og Hand-Verk, hvar med þad kunni ad afla sier Brauds og Næringar. Þetta tveñt: Guds Ottenn, og tilhlijdilegt Erfidi, er þad, sem sierhvorium Christnum er Omissandi; Guds Ottinn aflar Manni hanns Naadar og Blessunar, enn Idninn stodar hann til þess, ad gieta lifad ærlega, sier og ødrum til Uppbyggingar. Af þessari tvofalldri Root sprettur Avoxtur allskyns Blessunar, er Madurinn sijdann nijtur i sijnum Alldurdoomi; Þvi hvad Madur nidursaair i Æskunni, þad uppskier hañ i Ellinni. Þad er gamall Ordshættur: Smeckurinn saa sem kiemst i Kier, Keiminn leingi eptir ber; Þad sem fyrst verdur innrætt i Barnsins Hiarta, þad lodir þar leyngst, þvi skylldi þad eina saa Ungi Madur nema, sem honum Gomlum

væri

væri Sæmd ad kunna; Nu er Guds Ottinn og goodir Sidir yfir allri Kunnáttu, þvi einginn er yfir þeim sem Gud Ottast, segier Syrach, Syr. 25. v. 13. Þvi á þetta fyrst allra hiá Barninu ad inplantast. Þad sem Madur tekur inn á toomann Magann ad Morgni, þad er vant ad hafa mesta Verkun hiá honum; Þvi ætt þu, Christinn Madur, ad láta Barn þitt fyrst inntaka a Morgni sijns Alldurs, þa osolsidu Mioolk Guds Orda, so hennar Kraftur meige Framveigis mest Rádinn hiá þvi hafa. Kienn þvi af Guds Ordi, ad elska Jesum sinn Lausnara, sem þvi og ollum Heimi er giordur af Gudi til Vijsdooms, Riettlætis, Helgunar og Endurlausnar, 1. Cor. 1. v. 30. Kienn þvi ad hata Syndir og Lesti sem Hoggorm, einkum þær, til hvorra þu kant ad siá þess Nátturu hellst hneigiast vilia; enn elska Dygdir og Mannkosti. Þetta ættu ad briijna fyrir Barninu Daglega, so þad fai Stad i þess Hiarta, ádur enn saurugar Holldsins Gyrndir ná sier þar Hreidri. Þvi ef Ungmennid nær fyrst ad nema adskilianlega Otugt, Bloot og vondann Munn-Sofnud, og þad fær fullann Smeck þessarar Verralldar, þa mun torvelldara veita, ad afþurka þessi Oklárendi, so ecki ásiái, sierdeilis þar Nátturann er alltiid hneigd til hinns vonda. Barninu JEsu jookst Vitska og Nád hiá Gudi og Monnum: viltu þu ad þitt Barn verdi lijkt hanns Jmynd, eptir þvi sem þessa Lijfs Veikleiki þolir, þa fái i þess Hiartans Akur

Sædi Christilegra Dygda, hvar af siidann sprettar æ meir og meir Andans Avextir, sem afla þvi Náðar hiaa Gudi og Vinaattu hiaa Monnum. Enn þu, kiæra Barn, ef þu gyrnist nockud ad læra, þa byria aa Upphafi Vitskunnar, sem er Otti Guds, tem þier Guds H. Ord, og halld þier vid þess Reglu i Trw, Hlijdni og Audsveipni; Þa hefur þu þegar byriad þann beinasta Veg til allrar Blessunar, aa hverium ad JEsus Christur, sem þinna vegna er Barn ordiñ, mun þijn Ungdooms Ar styrkia, og þijna Æsku uppfræda, so þu dafna megir, til Mælirs fullkomins Allðurs Christi, Eph. 4. v. 13.

Gief þu, HErra JEsu, Bornunum af þijnu blessada Dæmi allskonar Christinndooms Dygdir ad læra, og laat þau i þeim sému eflast og prooast, so þau mættu verda þijnu Nafni til Lofs og Dyrdar, um̃ Tijma og Eilijfd, Amen.

# 18. Capituli

### Um̃ Vitrun Josephs

Nu̅ þa þeir voru burtfarnir, siaa, ad Engill Drottiñs vitradist Joseph i Draumi og sagdi: Statt upp og tak Barnid og Moodur þess til þijn, og fly i Ægyptaland, og vert þar allt þaangad til eg segie þier, hvad þad er eptirkomandi, ad Herodes mun leita

Barn-

Barnsins ad fyrirfara þvi. Matth. 2. v. 13.

MJJN Sæl, Hugleid hier wt af Grandgiæfi-lega, Rꝍdarſama Drottinns Giædſku, i þvi ad frelsa þann Riettlæta af Hendi þeirra Ogud-legu, so þeir næi ecki ad gledia sig yfir honum: Þvi so sem hann frelsadi hier sinn Elſkulega Son Jesum Christum, og sꝍ honum Farborda undann Hero-dis Offookn, so frelsar hann og alla þa, sem fyrir Christum eru ordnir honum velþockadir; Þvi seg-ier David: Drottinn mun hiꝍ þeim standa og frelsa þa, hañ mun i frꝍ Ogudhrædddum frelsa þa, og þeim Hiꝍlp veita, þvi þeir treysta ꝍ hann, Psl. 37. v. 40. Um þetta sama komst David siꝍlfur ad fullri Raun, þvi so dꝍsamlega verndadi Drott-iñs Almætti hann i þeim Offookunum er hann mætti af Saul Kongi; eins Undrunarlega frelsadi hann Jsrael af Undirokan og Offookn Pharaonis, Ex. 14. Ezechiam af Valldi Zenacheribs, og so flyt-ur Drottinn undarlega sijna Heilaga, Psal. 4. v. 4. og lætur þa ecki þeim Ogudlegu ad Brꝍd ver-da. Vid þvilijkt meigum vid, Sæl miin, kann-ast ꝍ siꝍlfum ockur: Dꝍsamlega hefur Andi Guds leidt ockur hiꝍ Heimsins Hreckia Stigum, og forvarad ockar Lijf i margfolldum Hꝍskasem-dum. Gud giæfi, ad vid þar eptir værum gegn og hlijdinn hanns Advorun! Enn þad meigum vid þo maklega iꝍta, ad þegar Velgeingninn gledur Holldid, so Hꝍskinn er ecki so audsien fyrir Augun-

um, þa erum vid so seinþreytt til þess, ad gegna Guds Anda Aminning, og þo hann kalli i Hiartanu, þa er eins og vid heyrum þad gegnum Svefn-Læti Andvaraleysisins. Gud vægi Faasinnu miñi, og giefi mier þo so ad taka sinni Rædar Vidvorun, ad eg mætti umm siidir fraa ollum Hæskasemdum fullkomlega frelsadur verda!

Joseph fieck Gudlega Vitran i Draumi, ad hann skylldi flya i Egyptaland med Barnid JEsum; so hann mætti þar Ohulltur vera fyrir Herodis Araasum. Hvilijkar Vitranir gaafust þraalega aa fyrri Dogunum; Enn nu aa Dogum hofum vier ecki ad vænta eptir sliikum Opinberunum; þær eru endadar og innsigladar med Opinberunum St. Johannis, þeirra gioriist ei helldur Þorf, vier hofum þad skrifada Guds Ord so aanægilegt vor aa medal, sem aa ad vera vor Raadgiafi: Samt vilia Draum-Spekingarnir ecki vera þar med aanægdir, þeir ed reida sig so aa sitt Draum-Ora Rugl, sem Gudlegar Vitranir, hvar med þeir styggia Gud, og leida sig og adra i Villu, þvi þetta er ein Tegund þess, sem Moyses umtalar, og segier ad sie ein Svijvirding fyrir Drottni, Deut. 18. v. 12. Hvilijkt er Afguda-Dijrkan, sem dregur Hiartad fraa Drottni, og setur Traust aa sviksul Hollds-ins Hyggindi. Fordast þvi þetta, Christinn Vinur; lær ad þeckia Gud og hanns Vilia, af hanns H. Ordi; Þad er þier miklu betri Vijsdoomur, þad skijrir þier greinilega,

hvorninn þu ætt ad þeckia Fodurinn, og þann hañ wtsendi JEsum Christum, sem er þad eilijfa Lijfid, Joh. 17. v. 3. Læt þier þetta nægia, og varast ad skygnast med Holldlegri Fijsn i Tijma og Stunder, sem Gud hefur sett i sialfs sijns Valld, Act. 1. v. 7. Enn vilier þu vita nockud um þijna Hagi i Framtijdinni, þa les hvad Guds Ord segier þier þar uñ, sem er: Ad þu munir alldrei falla, ef þu treystir uppa DRottinn. Ps. 125. v. 1. Þad er þier noog ad þijnir Tijmar standa i hanns Hendi, Ps. 31. v. 16. þo þu vitir þa ecki. Edur, seig mier: Til hvors villtu vita þa? Þeir verda annadhvort illir eda goodir, sierir þu þa fyrir gooda, þa kann þad ad giora þig Andvaralausann; Eñ siær þu þa vonda fyrir, þa giorir þad þig Hugsiwkann og Orvæntingarfullann: Þvi er betst ad varpa sinni Ahyggiu uppa Drottinn, Ps. 55. v. 23. sem alla vora Daga hefur teiknad i sijna Book, Ps. 139. v. 16. Og so kann Fævitskann ad verda þier ad goodu, þvi hun aptrar þier fra osmikilli Ahyggiu Morgun-Dagsins, enn hvorium Degi nægir sijn Plaaning, Matth. 6.

Engill Drottinns vitradist Joseph i Svefni. Ecki farum vier nu ad sia Englana, þad geymist þvi Eptirkomanda Lijfinu, hvar vier munum fa þa þeckt og sied Augliti til Auglitis. Guds Orda Upplijsing er miklu oflugri og stadfastari enn Englanna Opinnberan, þvi Diofullinn kann lijka ad bregda sier i Lioossins Engils Mynd, 2. Cor.

xI. v. 16. og ſviſkia oſs fraa Gudi. Þegar Saul Kongur foor til Frietta vid Galldra Konuna i Endor, um̃ Utfall tilſtandandi Oruſtu, 1. Sam. 28. eptir þad, ad Gud var fraa honum vikin̄, þa opin̄beradi Satan ſig hm̃ i Samuelis Liiki, til ad ſtyrkia hann i Vantrwnni og Orvæntingunni, og þo hann i þad Sinn ſegdi Konginum margt ſatt, þa var þad þo honum ecki nema til Ofbóds og Skelfingar, ſo er hætt vid ad fara kunni fyrir þeim, ſem gleyma Trauſtinu aa Guds Ordi, enn leita ſier Athvarfs i wthoggnum Brunnum, ſem ecki kun̄a Vatni ad hallda, Jer. 2. v. 10. Laatum þvi, Saal miin, Guds Ord vera ockar Raadgiafa, hvad ſem til Handa ber, uppaa þad meigum vid Ohrædd reida ockur, ſem þad ſegier, laatum þad vera Lioos aa ockar Vegum, og Lampa ockar Foota, Pſal. 119. v. 105. So faaum vid betſt ſneidt hiaa Diofulſins Snoru og ollu Faari: Þad gieſi ockur JEſus Chriſtur og ollum ſijnum Bornum, fyrir ſijns eiginn Nafns Sakir, Amen.

## 19. Capituli.

Um̃ Reyſu Joſephs og Mariu til Egyptalands.

Og han̄ ſtood upp, took Barnid og Moodur þeſs til ſijn um̃ Noott, og foor i Egyptaland, og var þar allt til Dauda Herodis, ſo þad uppfylltiſt hvad ſagt er af Drottni fyrir Spaman̄

mañiñ, er segir: Af Egyptalandi kallade eg Son miñ. Matth. 2. v. 14. 15.

HEinkium hier eptir Gudrækilega, Sæl mijn, og huxum nu fyrst um Orsokina til JEsu Utlegdar; Vijst var hann Heilagur, hreinn og fraaskilinn Syndurunum, Ebr. 7. v. 26. Jaa, sialfur Gud, sem oll Konunganna Rijki hefur i sinni Hendi, og þo hlaut hann ad flya wr einu Kongs-Rijki i annad. Orsokinn hier til var ad sönnu Herodis Grimd, er þeinkti ad svipta hann Lijfi; Enn audvelldt var Almætti Drottinns ad frelsa sinn Son hier fraa med odrum Hætti; Hann gat latid einn sinn Engil slaa i Hel hañs Strijds-Meñ, og sett Krook i hanns Nasir, eins og hann giordi vid Zenacherib, 2. Reg. 19. Enn vor blessadi Lausnari var kominn i Heiminn til þess ad lijda Mootmælinn af Syndurunum, Ebr. 12. v. 3. so hann þar med hiaalpadi Syndurunum; Þvi var Orsokinn hin hellsta til JEsu Utlegdar hiaa ockur, mijn Sæl: Vid hofdum forþienad Utlegd af Fridarins Landi, fraa allri Guds Naad og Myskun, og ættum ad gista eilijft Kvalanna Myrkur vegna ockar Synda. Eg hafdi raasad Heimsins Lasta-Stigu, þvi ætti eg med riettu ad hneppast i eilijfann Þrældoom Daudans og Satans. Þessa Utlegdar Sok sagdi Guds Logmaal aa Hendur mier, segiandi; Devt. 27. v. 26. Bolvadur veri sa sem ecki giorir allt þad sem skrifad stendur i Logmaalinu. Enn slijkar Syndir mijnar liet Guds

Son-

Sonur sier til Hiarta gaanga, og gieck þvi mijn vegna undir Utlegdar Anaud, so hann leysti mig af Helvijtskum Utlegdar Prældoomi, og utvegadi mier frialsann Stad og Fodur-Land, i Rijki sijns Himneska Fodurs. Dijrkeyptur vard þier Præll inn, Drottinn minn, er þu, hanns vegna hnepptir i Utlegd þinn Eingietna Son, i hvorium þier alleina velþocknadist, Matth. 3. v. 17. Hvør og ad alleina fullnægdi þijnu Logmaali. Blessadur siert þu, minn JEsu, sem med þijnum Ofsooknum og Onaadum, er þu leidst i Holldinu, hefur burttekid Kvijda og Oroo minnar Samvitsku! Þvi nu veit eg, ad þinn og minn Himneskur Fadir, mun alldrei giora mig rækann fraa þijnu Myskunar Augliti, þar sem þu ert i minn Stad geinginn undir Anaudar Okid. Nu er mier þad fyrir minnstu, þo Verolldinn meigi hriaa mig og hrekia, þvi þo eg hliooti ad veikiast i þessari Hiervistar Utlegd, hafandi ecki blijfannlegann Samastad, Ebr. 13. v. 14. þa er mier þad vijst, ad þessi Utlegdar Tijmi mun einhvørn Tijma Enda taka, og eg færdur i mitt Fodur-Land, sem þu hefur mier buid og tilreidt i Rijki Himnanna.

Textinn segir: Ad þetta hafi skied til Uppfillingar Hoseæ Spaadooms: Hos. 11. v. 1. Af Egyptalandi kalladi eg Son minn; J hvørium Ordum ad Spaamadurinn hefur haft JEsum Christum fyrir sitt Augna-Mid, og i Anda fyrirsied hanns Utlegd a Egyptalandi, hvar ed Jsraels Foolk var Ford-

Fordum i Utlegd halldid af þwngum Prældoomi Pharaonis, þaa sendi DRottiñ sinn Þienara Moysen, sem wtleiddi þadann Foolkid og gieck fyrir þvi i giegnum þad Rauda-Haf, sem DRottinn sundurklauf, so þurrum Footum maatti þar yfir gaunga. Eñ þegar saa eilijfi Gud villdi frelsa oss af Satans Prældoome, þa sendi hann eirn annañ Þienara, er var miklu meiri, eñ Moyses, JEsum Christum sinn Eingietinn Son, sem med sijnum volldugu Armlegg þreif oss af Valldi Myrkranna, og sundurklauf fyrir oss þad rauda Daudans Haf, hvad hann byriadi strax med sinni Utlegd aa Egyptalandi, og fullkomnadi sijdann fyrir sinn Dauda aa Krossenum. Yfir hann geingu Belials Beckir, Ps. 18. v. 5. sem brwsandi Siaafar-Bilgiur, og þar med uppþurkadi hann Haf gudlegrar Reidi, og vijgdi oss þar i giegnum, þurrann og friaalsann Veg, inn i þad himneska Canaans Land. So ert þu, mijn Saal, frelsud af þeirri andlegu Egypto, af Prældoomi og Valldi allra þeirra, sem þig hötudu, Luc. 1. v. 74. og ert wtvaliñ og fyrirhugud til þess eilijfa fyrirheitna Fridar-Lands: Siaa til, þig hendi ecki sama og Jsraels Sonu, er þa laangadi aftur til Kiot-Katlanna i Egyptalandi! Hier eru adrir Kiot-Katlar: Fijsn Augnaña, Gyrnd Holldsins, og drambsamt Lijferni, 1. Joh. 2. v. 16. sem margir gyrnast, og giefa sig so aa nij undir Anaudar Ok þess a Heims Hofdingia, sem drottnar i Börnum Vantrwarinnar. Eph. 2. v. 2. Laat þig ei

længa, myn Sæl, af DRottins Myskunar-Lan
di til þessara Kiot-Katla, lat ei Hollðsins Munad
deisa hiaa þier Smeck og Krapt Guds Naadar
Sætleika. Og þo þu meigir bera Hita og Þwn-
ga Dagsins um Eydimorku þessarar Veralldar,
so þig kunni stundum bresta Medlætis Endurnær-
ing Hollðsins, þaa stid þijnum Bænar og Trwar-
Staf aa þaa himnesku Hiaalpræðis Helluna JEs-
um; So munu til þijn fliota Watns-Straumar
himneskrar Hugsvolunar, af hvorium ef nockur
dreckur, þaa skal hann ecki hwngra nie þyrsta ad ei-
lijfu. Joh. 4. v. 14. Þier kann synast Leidinn ord-
inn aa þad fyrirheitna Landid, enn minnstu þess,
ad Landid er gott, þad flijtur ecki i Miolk og Hun-
angi, helldur er þad yfirdoggvad af Vatns Falli
lifanda Vatns, sem framflijtur af Stooli Guds
og Lambsins midt aa Strætum þeirrar himnesku
Jerusalem. Apoc. 22. v. 1. Og þo Ovinirnir syn-
ni sig i þvi ad veria þier Inngaungu, þa vit, ad
DRottinn hefur þegar byriad ad giefa þaa i þijnar
Hendur: Þessa Heims Hofdingi er dæmdur,
Broddur Logmaalsins sliofgadur, 1. Cor. 15.54.
Port Helviijtanna nidurbrotinn, Matth. 16. Da-
udinn uppsvelgdur i Sigur. Minnstu þvi þess,
ad þu giorir eckert Samband vid þessa Fiandmen,
sem JEsus Christur hefur þinna vegna ad Velli
lagt; Lat þvi þijna Trw vera sem Davids, er han
segir: Ps. 18. v. 40. Þu DRottinn munt undir
mig leggia alla þaa sem setia sig upp aa mooti mier,

og

og þu giefur mier mijna Ovini a Flootta. Þu blessadi Herra, sem med þinni Utlegd hefur opnad oss Veigiñ til þess eilijfa Fridarlands, lattu þitt Lioos lijsa oss, ad vier kunnum þennann Veg ad gaanga, so ad vier uñ sijdir iñkomner i Fodurlandid, mættum med eilijfu Sigur-Hroosunar Vefsi prijsa þig, og forlista oss um̃ allar Alldir, Amen.

## 20. Capituli.

Um̃ Barna-Mord Herodis

Þa Herodes saa nu ad hann var gabbadur af Vitringunum, vard hañ æfareidur, og sendi wt, og liet drepa oll Born til Bethlehem, og i ollum heñar Endimorkum, Tvævetur og þadañ af Yngri, eptir þeim Tijma, sem hañ hafdi wtspurt af Vitringunum. (Matth. 2. v. 16.

Mord og Bloods-Uthelling er ein hin mesta Vidurstygd i Guds Augliti, þvi setti hañ þad Logmaal strax ondverdlega: Ad hvor sem uthellti Mañsins Bloodi, þess Blood skylldi aptur fyrir Mañiñ uthellast, Gen. 9. v. 6. so Blood ætti eckert annad ad gyllda enn Blood. Allt saklaust og riettlaatt Blood uthellt hroopar i Himininn, og so sem krefst Hefndar af Drottni yfir hinum Blood-seka, eins og Gud sagdi vid Cain: Þijns Brooodurs Blood hroopar til mijn af Jordunni, Gen. 4. v. 10. og þo

þessar Bloods-Hefndir komi ecki alltijd strax fram̃, þa auglijsast þær samt um̃ sijdir. Abners Bloods var hefnt a Joab, þa David var daudur. 1. Reg. 2. Spamannanna Blood, sem Gydingar uthelltu, kom yfir þa ecki fyrri enn eptir Christi Daga, so sem hañ fyrirsegir þeim hia Matthæo. Matt. 23. v. 35. Hvilijkar Bloods Uthellingar eru nu ecki so almennilegar i voru Landi, eñ til hinns mættum vier þeinkia, er Johannes, 1. Joh. 3. v. 15. segir: Hvor sem hatar sinn Broodur, hann er Manndrapari; Hatrid og Reidinn ganga nockud nærri þessari Manndraps-Synd, og marga hefur Reidiñ drifid til þess ad uthella saklausu Bloodi, so sem sia ma a Herode, er vard æfareidur, nær hañ sa sig gabbadann af Vitringunum, jafnvel þo hann geimdi um̃ Tijma þetta Satans Foostur i Hiartanu, til þess hann fieck betri Hentugleika ad utklekia þvi, (sem meinast verid hafa a odru Ari þar eptir) er hann liet fyrirfara Bornunum. Enn þu, christinn Madur, þegar Reidinn flijgur þier i Hiarta, þa bid Gud ad stilla þitt Gied, og haf sem fæst Ord og Verk i fram̃i medañ þu reidur ert, þvi morgum hefur Reidinn steipt i þann Vanda, ur hvorium þeir hafa alldrei sijdann ratad til fulls, medann þeir lifad hafa. Og þo einn misbrooti vid þig, þa vinn þad ei fyrir Svolun Hefndargyrneñar og Reidennar, ad stela Hefndinni fra Gudi, sem sagt hefur: Min er Hefndinn eg vil endurgiallda. Rom. 12. v. 19. Añars snijr þu Guds Hefnd fra

þijn-

Þijnum Mootparti, yfir sialfann þig, Prov. 24. v. 17. 18. og mun hun verda þier læangt þijngri, helldur eñ þijn Hefnd vard honum. Haf þvi Postulans Raad: Rom. 12. v. 19. Giefid Rwm Reidi (Guds), sem ecki æ þo ad skie med þvi ad bidia einum Guds Hefndar, helldur med þoliñmoodri Lijdingu Oriettarins; bidia mætti ad viisu Guds Asiæar þar yfir, enn ecki þijnum Mootgiørda-Manni til Falls, helldur þier til Vidriettingar: þad kiennir Salomon, Prov. 20. v. 22. segiandi: Seig ecki, eg skal launa aptur illt, bijd DRottens, hann mun hialpa þier. Hugleid hvad margfalldlega þu gierir i mooti Gudi, og þo lætur hann siina Myskun yfir þier meiga meira enn sitt Riettlæti; nu ef hann fyrirgiefur þier þijn Tiju Þusund Pund, mun þier þa ecki byria ad uppgiefa þijnum Broodr þa Hundrad smaa-Peninga, sem hann er þier skylldugur. Matth. 18. Þeir Bloodgijrugu fa ei hælfnad sijna Lijfdaga, segir Ritningiñ, Ps. 55. v. 24. verda mæ lijka ad Reidinn stitti Dagana, med þvi Umrooti sem hun hefur i Hiartanu, og hvad sem um þad er, þa er hitt viist, ad hun afskræmir miøg iñra Manninn, umturnar Giedsmununum, og blindar Skilninginn, eins og hun afmyndar Lijkamann og tekur allt Raad fra hañs Limum, þvi hafa viisir Menn kallad hana Stutt-Ædi, þvi valla er annar Mismunur a Ædinu og Reidinni eñ sa, ad Ædid varir leingi, enn Reidinn lijdur fliott af, hver-ugur veit hvad hann giørir, þvi hefur margur giørt

þad i sinni Reidi og skamri Stundu, eptir hvoriu hañ hefur leingi mætt ydrast; Sie þvi hvor Madur til Reidi tregur, þvi Mannsins Reidi verkar ecki Guds Riettlæti. Jac. 1. v. 19.20.

Herodes wthellti sinni Grimd yfir Ungborninn i Bethlehem, og liet þau øll giallda þess eina Barnsins JEsu, hiá hvoriu þo vard einginn Sök fundinn; Samt varstu minn Herra kominn til þess ad frelsa Ungborninn, sem alla adra, og meiga þessi Ungborn sæl reiknast, ad þau fyrir þig lietu sitt Lijf, þvi þar med fluttust þau sem fyrst iñ ad Sælu-Hofn eilijfrar Dijrdar. Tijranniñ þeinkti, ad þar sem hann lieti slaa i Hel øll Ungbørn i Bethlehems Takmorkum, þa mundi JEsus fara Omogulega undañ komist, enn þetta hanns Vielrædi vard ad litlu, þvi medañ þad framfoor, þa dvaldi Barnid Jesus i Egyptalandi. So er Gud almættugur Hialpari allra þeirra sem a hañ treista, og kann vel ad leida þaa hiaa øllum Hææskasemdum, so þeir meiga segia med David: Ps. 118. v. 6. DRottinn er med ur mier, þar fyrir hrædunst eg ecki, hvad meiga mier þa Mennerner giora? Tiimiñ var eñ ecki komiñ, ad vor blessadi Lausnari villdi utgiefa sitt Blood, þad hlaut ad bijda til þeirrar Stundar, sem þar til var ætvordud i Guds Fyrirhyggiu, fyrri mættu aungver hanns Ovinir snerta eitt Haar af hanns Hofdi, og skulum vier vita, ad eins hefur DRottiñ enn i Dag Otal Veigi til ad hindra og hepta Illsku-Vor Omilldra Manna, enn frelsa sijn Born

af

af þeirra Hendi. Oll þeirra Hofud-Haar eru tal-inn, Matth. 10. v. 30. þvi mun ecki eitt af þeim falla a Jord aan hans Vilia, aller þeirra Tijmar stan-da i hanns Hondum, Ps. 31. v. 16. þvi kañ ein-ginn Magt, hvorki Diofuls nie Veralldar, ad auka þeim nockurt Angur framyfir þad, sem hans vijsdooms fulla Raad hefur nidurskamtad og leifir. Þar um er eg fullvifs ad einginn Skiepna, synileg nie Osynileg, einginn Magt, og einginn Svikraad, faa mier Mein uñid medan þijn hægri Hond, DRottinn, hlijfir mier, þvi vil eg allri minni Ahyggiu uppaa þig varpa, hvar til þu virdist ad giefa mier Raad og Daad, so eg undir þijnum Hlijfdar-Skilldi meigi vaka og sofa, lifa og deya, i JEsu Nafni, Amen.

# 21. Capituli.

## Um Sorgar-Opid i Rama.

ÞA uppfylltist hvad sagt er fyrir Jeremiam Spaamann, er segir: J Rama hefur heyrst Kall mikillrar Kveinunar Ops og Jlfrunar. Rachel æpti Sonu sijna, og villdi ecki huggast laata, þvi þad var utgiort um þaa. (Matth. 2. v. 17. 18.)

UT af þessum H. Texta skulum vid, Saal mijn, þeinkia nockud um Sorgar Op og Kveinun Guds Barna i Heimi þessum. Holld og Blood er

giarnann giefid fyrir goodum Døgum, og vill hafa sig þeigid undann Krossi og Mootlæti, hafandi þar æ mesta Vidbiood, enn ef vid forum ad skoda þetta betur, þa skulum vid finna, ad Krossinn er ockur i Raun og Sannleika heilnæmur. Moyses skrifar, Devt. 32. v. 15. um Israel, ad þa hann vard fullur og feitur, þa hafi hann ordid lauslæt-ur: Lijkur er honum i þessu hinn gamli Adam, hvør, þa hann nær ad alast æ Eptirlæti og Velgeingni, gioriist hann lauslætur og Losa-Ædisfullur i Gyrndum sijnum og Tilhneigingum, sem strijda i mooti Andanum, Gal. 5. v. 17. Enn honum fær þa ecki allir i Slidrum halldid, ad hann ecki framfari sijnum Gyrndum, þvi þad þurfa sterk Bein til ad þola gooda Daga. Þegar Gud ann oss Medlætisins, þa minnist forblindud Nattura lijtid þess Þacklætis, sem Skaparanum æ þar fyrir ad greida, so margir gleyma þa bædi Gudi og siælfum sier: Guds Myskun og Naad, sem ætti ad uppvekia hiæ þeim Elsku og Audsveipni, og Þecking æ sijnum eiginn Vanmætti og Overdugleika, so þeim þykir sier fæir Hlutir Omøguleigir, hvar fyrir þeir treysta uppæ Holldid, enn tapa þvi sanna Trausti æ Gudi. Þannig vanbrwkar fordiorfud Nattura Drottinns Velgiørninga! Hier fyrir leggur nu hinn alvijsi Gud sijnum Børnum uppæ Kross og Hormungar, so hann þar med hafi i Taumi Giælifi [illegible] Mannsins, og kienni þeim ad hall-[illegible] vid kannast David, er hann [illegible] Fyrir goodu vard mier þad,

Drott-

Drottinn, ad þu lijtilæckadir mig, so eg lærdi þijn Riettindi. Þvi ætt þu, mijn Saal, ad taka med Þockum Typtan Drottinns, þvi hun er ecki hanns Reidi-Teikn, helldur Elsku-Merki; Þvi hvorn þann Son sem Fadirinn elskar, þann typtar hann og agar, Ebr. 12. v. 6. Þu skallt vita, ad hann hryggir Manninn ecki wt af Hiarta, hann hryggir ad vijsu, enn hann tiær sijna Myskunsemi aptur eptir sinni mikilli Myskun, Thren. 3. v. 32. Gud fer ecki ad straffa sijn Born, eins og Veralldar Menn þeir, sem giora þad af Hatri og Hefndargyrni; Helldur ælijka og einn goodur Fadir agar Barnid, til ad innþryckia hiæ þvi Christilega Sidi: Þvi so sem Fadirinn er Bornunum lyknsamur, so er Drottinn Myskunsamur þeim sem hann Ottast, Ps. 103. v. 13. Lijd þvi med Þolinmædi þad hann æ þig leggur, og bijd i Voninni eptir hanns Hiælprædi; Minnst þess alltijd er hann segier: Akalla mig i Neydinni, eg vil frelsa þig, og þu skallt vegsama mig, Ps. 50. v. 15. So nun hann ecki læta þig freistast yfir Megn, helldur giefa Freistingunni þann Enda, ad þu fæir vel stadist, 1. Cor. 10. v. 13. Og ertu þa sælli kveinandi i Sorgunum, helldur enn Veralldar Borninn fagnandi i hennar Eptirlæti; Þvi þar sem þeirra Ofkætis Endir er Fordiorfuninn, þar verdur þinna Sorga Endir Fognudurinn i Himninum.

Textinn segir framar: Ad Rachel Hafi Ægt Sonu Sijna, Og Ecki Viliad Huggast Læta.

Þegar Rachel Jacobs Kvinna ætti siñ Son Benjamin, þa komst hun mıog hardt vid i Barns Fædingunni, og er hun formerkti ad hun mundi bijda Þar Daudann af, þa villdi hun ad Barnid skylldi heita Benoni, þad er Sorgar Sonur, Gen. 35. Aungvu sijdur mættu Barna-Mædurnar i Bethlehem, i hvorrar Takmorkum ad Rachel var grafinn, kalla sijn Born, Sorgar Syni, hvor ed Herodes liet deyda, er þær mættu sia a Bak þeim med Angist, og horfa uppa, ad þau voru med Grimdarfullu Ofbelldi af Lijfi tekinn. Nockud vidlijkt þessu kann oss ad Hondum bera, ad vier meigum missa Born og Astvini vora; Og þo þetta sie Sorgar-Efni, sem sialf Natturann kiennir, og Otal Dæmi sijna, hvorsu Menn hafa harmad Dauda sinna Astvina, þa minnstu þess þo, Christinn Manneskia, ad þu grætir hoofiega, og setier Hormum þijnum vijst Takmark eptir Guds Ordi. Gud er sa sem gaf þier Born og Astvini, þo so, ad þeir eru hanns Eign eptir sem adur, þvi maa hann giora vid sijna Eign hvad hann vill; Hann gaf þier Astvinina, edur lænadi þier þa, so a hann frialst ad taka aptur sitt Laan nær honum vellijkar, edur, riettara ad segia, flytia þa undann þier i þa Dijrdar Sælu, sem hann hefur fyrirhugad þier med þeim, asamt ollum sijnum Bornum eptir þetta Lijf. Tak þvi þessum Guds Vilia med Þolinnmædi, og ber þig ad lata hanns Velþocknan vera þijna Velþocknan: So giordi Job, er hañ

hafdi

hafdi mist sijn Börn og Audæfi, og skordadi sitt Hiarta vid Drottinns Valld, sem hefur ad giora af sijnu hvad honum velþocknast; Segiandi: Gud gaf og Gud aftook, sie Nafn Drottinns blessad ad eilijfu, Job.1.v.21. Þu skallt ecki þeinkia, ad þad sie wtgiort um þijna Ástvini, þo þeir deye tijmannlegum Dauda, hvorki hvad ahrærir Lijkamann nie Saalina; Lijkaminn leggst i Jordina til Roosamrar Hvijldar, og biijst þar undir Forklaaran og eilijfa Vegsemd; Saalinn fer i Hendur Drottinns, hvar einginn Pijna snertir hana, Sap. 3. v. 1. So þreyngiast þeir þa giegnum Daudann, fraa Daudanum til Lijfsins, fraa Hiervistarinnar Armædu til Himnarijkis Fullsælu. Þad eykur þier Sorgina, ad þu missir þeirra Samdwd; Enn laat þad sefa Sorgina og afla þier Gledi, ad þeir eru heima hiaa Drottni, 2. Cor. 5. v. 8. og þioona honum Dag og Noott i hanns Musteri, Apoc. 7. v. 15. Von þeirra Vantrwudu endast med Lijfinu, þvi þeir vonudu a Christum einasta i þessu Lijfi; Enn Von Riettlaatra heyrir einkum til þvi eptirkomanda Lijfi, þvi þeir vita, ad fyrir Daudann leidir Drottinn sijna i Fridi heim aa sitt Fodur-Land. Syrg þvi ecki miog, Barnid Guds, þo hann leidi sijna Heilaga fraa Veralldarinnar Voda til Himneskrar Roosemdar: Lijt ecki so aa þinn yfirstandandi Sorgar-Hag, ad þu ecki undir eins, og miklu helldur, aalijter þann Dijrdlega Fagnadar-Hag, sem ecki hefur Auga sied nie Eyra

heyrt, edur i nockurs Manns Hiarta komid, 1. Cor. 2. v. 9. og þegar giefinn er þijnum burtdaanu Astvinum, og þier er med þeim ætladur eptir þetta Lijf, er þu skallt eilijflega med þeim vera a Fagnadar Hædum Himnanna, hvar Gud þerrar oll Tar af sinna Barna Augum, og Daudinn mun ecki meir vera, ei Sorg nie Kveinan, Apoc. 21. v. 4.

HErra JEsu, gief þu oss ollum so ad afþreya þessa Lijfs Hormungar, ad vier þar eptir mættum niootandi verda eilijfs Lijfs Fagnadar, enn Raust þinnar Lofgiordar skal alldrei þagna a vorri Tungu um oll Ar Eilijfdarinnar: Unn þu oss þessa, fyrir þijns blessada Nafns Sakir, Amen.

## 22. Capituli.

### Um Dauda Herodis.

ENN þaa Herodes var daudur, Sia, ad Engill Drottins byrtist Joseph i Draumi aa Egyptalandi, og sagdi: Statt upp og tak Barnid og Moodur þess til þijn, og far til Israels Jardar, þvi ad þeir eru daudir sem leitudu eptir Lijfi Barnsins. Matth. 2. v. 19. 20.

HEr af maatt þu, Saal mijn, siaa og merkia Guds strannga Riettlæti, sem hann, i adskiliannlegan Maata lætur auglijsast med hordu Hefndar Straffe aa þeim, sem framfara i Ogudlegu Lijfs-

Lijferni. Barna-Mordinginn Herodes hafdi le-
ingi geingid fram̃ i Gudleysi, og brwkad sijn Kong-
leg Vòlld, er hann þædi yfir Gydingum, med
Grimd og Hardydge, og nu loksins fieck hann hiñ
herfilegasta Dauda. Sagna-Meistararnir seg-
ia, hann hafi verid lifandi uppetinn af Modkum,
med ødrum fleyri Plaagum, i hvorium hann Lijf
sitt endadi; Og æ vidlijkann Hætt kann hvorium
ødrum Guds Ovinum ad gaanga, þegar hanns
Reidi eys yfir þaa Fordiørfuninni, nær minnst
varir, þar sem hinir Gudhræddu, sem geymdu
Drottinns Vegu, skulu siaa hanns Goodsemd, og
gledia sig i hanns Hiaalprædi. Athuga! þetta hv-
orttveggia, syndugur Madur, Drottinns Riett-
lætis Reidi yfir þeim Ogudlegu, og Drottiñs Fød-
urlega Naad yfir þeim Gudhræddu. Fliwgie þi-
er i Hug, ad giora nockud þad, sem Gud hefur bañ-
ad, þa laat þier undir eins til Hugar koma, Guds
Riettlætis Straff sem þar æ eptirfylgir; Laat sem
þier fyrir Augum sie saa Kvala-Stadur, hvar Gud
vill þier i Skaut giallda fyrir þijn vondu Verk.
Vit, ad þo ordugt þyki ad Krossfesta Holldid, þa
er þo saarari Guds Reidi Hiti, sem brennur allt til
nedsta Helvijtis. Laat þvi ecki Diofuls, Heims
nie Hollds Fortølur meira hiaa þier meiga eñ Guds
Orda Sannleika, sem alldrei kann ad bregdast.
I annann Stad, þa þier hugsast ad giora þad
nockud sem Gudi er þægilegt, þa eff og nær þann
Þaanka med Ihugan þeirra Naadar-Launa, sem

hanns Myskun heitir þeim froomu, og yfirgaanga alla tijmannlega Muni, þui þad er sa Fiesioodur, hvoriu̅m hvorki kann Mölur nie Rid ad granda, nie Þiofar faa eptir grafist, Matth. 6. v. 20. Laat þui sem David tali þier i Eyra: Ps. 37. v. 37. Vertu Meinlaus, og haga þier rietulega, þviad slikum mun ad sijdustu vel gaanga.

Hier ad auk skalt þu merkia, ad hvar sem þu ert staddur, einn edur hiaa ödrum, i Myrkri edur Byrtu, uti edur inni, þa sier og skodar DRottinns alskygna Auga allar þijnar Athafnir, þvi fyrir hönum eru aller Hlutir berir og naktir, Ebr. 4. v. 13. einninn þau innstu Hiartans Fylsni. Og þo þu kunnir dyliast fyrir Mönnum, þa kann hann, sem sier hvad i Myrkrunum er hulid, ad betala þier opinberlega med Straffi og Refsing, ef þu syndgar vis vitandi uppaa Naadena. Og þo Hegningin framkomi ecki strax, ad ferskum Giörningi Syndanna, þa auglijsist hun um̄ sijdir, þegar Mælir þeirra er uppfilltur, ef ecki er fyrri vid giört. Þeink þvi ecki med sialfum þier, þo DRottinn þeigi um̄ Stund, ad hann muni þier lijkur vera, Ps. 50. v. 21. edur hann hafi forgleymt þvi, og hann muni þad alldrei framar sia. Ps. 10. v. 11. Þvi Guds Ord eru þad: Ad hvert þad Trie sem ecki ber goodann Avöxt, skal upphöggvast og i Elld kastast. Matth. 3. v. 10. Þegar ad Christur leitadi fordum Avaxtar aa Eikinni, og fann ecki neina Blödinn toom, þa formællti hann henni, so hun visnadi upp allt ad

Rootum. Cap. 21. v. 19. Vera kann, ad þeir finn-
ist i Akri Chr:stnennar, sem lykiast mættu við þessa
Eik, þeir ed:sijna sig i þeim ytri Guds Þionustu
Verkum, heyra Ordid og brwka Sacramentinn,
enn færa þar aungvann verdugann Avoxt af, játa
Trw sijna a Gud, enn gleyma Verkunum, aff
hvorra Trwinn er daud Trw, segiast elska Gud, eñ
lifa vijsvitandi i þeim Syndum, sem honum eru til
Stigdar: Þetta er ad hafa Sk:n Gudhrædslunn-
ar, enn afneita hennar Krapti, 2. Tim. 3. v. 5.
Þvi er hætt vid, ad þegar Herrann kiemur, og fiñ-
ur ecki nema þvilijk Skininn Blod, þa kunni hann ad
formæla þessum Bokvalausu Triam, og Guds
Reidi-Oxi uppræta þa, so þeir kastist i Oslockvañ-
legañ Elld, nema þeir, medañ þar segist: J Dag,
snwi sier til DRottins fyrir sanna Ydran. Enn
þad er aumkunarlegt, hvorsu ad Gud þessarar
Veralldar forblindar so Hugskot margra, ad þeir
undanndraga Dag fra Degi sijna Yfirboot, for-
smaa so Langlundar-Gied Guds, sem villdi leida
þaa til Apturhvarfs a Neadarinnar Tijma, allt
til þess Daudinn dregur þaa nauduga fra Fyfir
Augnañ, Syrnd Holldsins og drambsömu Lijfer-
ni. 1. Joh. 2. v. 16. Og er þa mieg undir Von,
hvornninn þeirra Utfor verdur, sem vañ:n giordu añ-
ad alla sijna Æfi, enn ad safna Guds Reidi, so sem
i annann Siood yfir Hofud sier. Rom. 2. v. 5.
Þvi er þad einginn Giæfa, þo þeim Ogudlegu mei-
gi uñ Tijma luckast allar sijnar Athafner, þvi þa
misñst

minnst varir, verda þeir skyndilega ad aungvu, og taka eirn Enda med Skielfingu, segir David. Ps. 37. v. 19. Halltu þvi, Saal myn, þad hiñ mesta Voda, ad sofa i Syndunum, og laata Satan dilla sier a Athugaleysisins Hægindi, med þessum Dansi: Herrann tefur enn ad koma, Matth. 24. v. 48. enn vita þö Vilia DRottins, sem er, ad vier verkum vora Saaluhiaalp med Ugg og Otta. Phil. 2. v. 12. Þvi sa Piwon, sem veit Vilia siins Herra, enn tilbijr sig ei, og giörir hann ecki, hann mun sleginn verda mörgum Hoggum. Luc. 12. v. 47. Saa hefur þvi besta Luckuñar Hlutskipti naad, sem aasetur sier seint og sneña, ad fordast Heimsins Hreckia-Stigu, og hefur ætijd Gud fyrir Augum sier; So hvonær sem Daudinn adkiemur, ad hann yfirfalli hann ecki i Verkum Myrkranna, edur Svefni Holldsins Dofinnleika, helldur ad Lampinn mætti alltijd tilreiddur vera, til ad tendrast mooti Brwdgumanum, hvonær sem hann koma kann. Matth. 25. O þu myskunsami Gud, sem ecki villt Dauda hins synduga, helldur ad hann snwi sier og lifi, Ez. 33. v. 11. Gief oss þijns H. Anda Naad, ad taka so vara a vorum Vitiunar-Tijma, ad þegar hann þrijtur, þaa mættum vier med Fridi sofnast i Vindini þeirra Lifendu, hvar ad er Gnoogt Fagnadarins og gledilegt Lijf til þinnar hægri Handar, Ps. 16. v. 11. Heyr þad i JEsu Nafni, Amen.

## 23. Capituli.

Um̃ Heim-Reiſu Joſephs ur Ægyptalandi.

HAñ (Joſeph) ſtood upp, took Barnid og Moodur þeſs til ſijn, og kom i Jſraels Land. Eñ þa hañ heyrdi, þad Archelaus rijkti i Judæa, i ſtadiñ Fødur ſijns Herodis, ottadiſt hann þangad ad fara. Og i Draumi fieck hañ Befalning af Gudi, og foor i Alfur Galilæalands. Og kom og byggdi i þeirri Borg, ſem hiet Nazareth, ſo þad uppfylltiſt, ſem ſagt er fyrir Spaameñina, ad hañ ſkylldi Nazaræus kallaſt. (Matth. 2. v. 21.-23.

NÚ vijſu hefdi vor bleſſadi Endurlauſnari kuñad ad uppbyria ſitt Spaamannlega Embætti, og Mannkynſins Endurlauſnar-Verk ad fullkomna, ſo vel a Ægyptalandi ſem Jſraels Jordu; enn fyrir þvi ad Spaadoomarner hlioodudu um̃ Jſraels Land, þa villdi Guds Sonur uppfylla, ſo vel þetta, ſem allt annad, er um̃ hañ var ſpaad. Og þo Gydingar væru miog þverbrotner vid Gud, þa villdi ſamt hañs Trwfeſti enda og fullkomna oll ſijn Fyrirheit. Hann hiet fordum Abraham, ad giefa honum og hanns Sædi Canaans Land til Eignar. Gen. 12. v. 7. Og ſkiedi þad ecki einungis til þeſs, ad Foolkid ſkylldi eiga Landid alleina til Jbwdar, helldur var þeſſa Fyrirheites Kraptur þar i foolgiñ, ad þetta Land ſkylldi ſtanda ſem Odals-Eign Abra-

hams

hamsEptirkomendum, allt til þess þad yrdi Foostur Jord, og siidann Slaturs-Vollur þess saklausa Guds Lambs, þvi segir og Paull: Rom. 15. v 8. Eg segi JEsum Christum ad vera Þioonustu-Mañ Umskurnarinnar (þad er Spamann, og Predikara medal þeirra Umskornu Gydinga) fyrir Guds Sannleika Sakir, til Stadfestu Fyrirheitanna, sem til Fedraña skied eru. So er nu Guds Sañleikur Oriwsannlegur, ad Vantrw Maññña kañ ecki ad giora Guds Trw ad Onijtu. Cap. 3. v. 3. Lærum hier af, mijn Sæl, ad reida ocka i stadfostu Trausti uppa Myskunar Fyrirheit Drottins, sem hann hefur giefid ockur i Ordinu, hvar vid vid kuñum ad liggia sem eitt orugt Lijf-Akker, Ebr. 6. v. 19. og mun þa hvorki Veralldarinnar Brim-gangur, nie Stormar Diofulsins Areitinga fa slitid ockur upp af Hofn Guds Naadar Skiools, þvi DRottinn er Verndariñ allra þeirra sem a hann treysta.

Framar segir Textiñ, ad Joseph hafi stadnæmst med Barnid Jesum i Nazareth, er hefur sitt Nafn af (Vidar) Runni. Þetta var af gudlegri Tilhlutan, so þar af giæfist Orsok ad kalla JEsum Nadverskann, til Aviisunar um þad, ad hann væri sa Kvisturinn er Spamennerner umgieta, Es. 11. v. 1. Cap. 53. v. 5. Zach. 6. v. 12. og sprottinn er af Root Isai, af hvors fagurbloomgudu Avoxtum lijfkroptugra Keñinga og Dasemdar Verka, ad driipa Hunaang blessadrar Huggunar og Guds Myskunar, ormæddum til Endurnæringar. Jo-

nas

nathan endurnærdist, er hann bergdi a Skoogar-Hunanginu, 1. Sam 14. v. 27. eñ miklu betur endurnærist Saalinn mijn, þa hun i Trwnni bergir a þvi Hunangi sem dropid er af Isai Rootar-Kvisle, þvi hier sæ eg ad smacka hvad sætur ad DRottinn er, hvor Sætleiki ad styrkir mitt ormæddt Hiarta, so eg ecki uppgiesist a þeirri þraungu Leid sem til Lijfsins liggur.

Fordum Daga flutti DRottiñ sitt Foolk Israel af Egyptalandi inn i Canaansland, og plantadi þad þar sem kostulegañ Vijn-Vid. Ps. 80. Nu kallar hann siñ Son JEsum Christum af Egyptalandi, til hvors ad Hoseas, Cap. 11. v. 1. lijtur, segiandi: Af Egyptalandi kalladi eg Son miñ, hvor ed so sem eirn kostulegur Vijn-Vidur plantast i Canaans Landi. Hann segir siaalfur: Eg em sannur Vijn-Vidur. Joh. 15. v. 1. A þetta Vijn-Tried ertu, mijn Saal, plontud i H. Skijrn, þvi þar giordist þu fyrir Trwna eitt med Christo, og vardst hluttakandi hanns Naadar og Forþienustu blessada Vokva, hvor ed a ad utbriedast hia þier og auglijsast i goodum Avoxtum, so þu verdir eirn andlegur Nazaræus, og Guds Nasireus, fraskilinn þessum vonda Heimi, so sem Heit-bundinn DRottni, honum til þacknæmilegrar Þioonustu. Hvor sa Kvistur, sem ecki dregur til sijn Vokvañ af Eikinni, hann uppvisnar og er til einkis hæfur, nema ad upphoggvast, kastast a Elld og brenñast. So segir og Christur um̃ þa sem eiga ad vera andleg-

ir Kvistir a hönum sialfum, hann segir: Hvorn þann Kvist a mier, sem ecki ber Avoxt, mun min̄ Fadir aftaka. Joh. 15. v. 2. Þvi er þad ecki nog ad vera eitt sin̄ in̄plantadur a Christum, ef Madur sijdann dregur til sijn meira af Eitri Syndarin̄ar, helldur enn JEsu Nadar-Saft. Gott Trie gietur ecki fært vondann Avoxt, segir Christur, Matth. 7. v. 18. og ei helldur vondt Trie goodann Avoxt. So sem Tried er, so eru Avextirnir, og so sem Avextirnir eru, so er og Tried. Ef su Trw, sem einn segist hafa a Gudi, er daud og Maktarlaus, so hun nær ecki ad verka fyrir Kiærleikann, þo hann kalli Herra, Herra, ef hann giorir ecki Fødursins Vilia, helldur lifir vijsvitandi i Syndunum; Þa ma sa sami gaanga ad þvi vijsu, ad hann er eitt rotid Trie, Vøkvalaus afbrotin̄ Grein, og Blod hanns ytri Guds Þioonustu kun̄a ecki Gudi ad þocknast. Giølldum þvi Varhuga vid, Saalamijn! Latum ecki Vantrwna og Hyrdulleysid uppþurka hia ockur JEsu Nadar-Vøkva, hvors vid eitt sinn erum Hluttakandi ordinn, helldur latum hann wtbriootast i Avoxtum gudrækilegs Lijfernis, sem eru: Kiærleiki, Fognudur, Fridur, Þolinnmædi, Blijdleiki, Goodgyrni, Trw, Hoogværd, Hreinlijfi. Gal. 5. v. 22. 23. So þegar Vijngards-Herrann kiemur ad leita Avaxtanna, ad hann þa fyrirhitti ockur Skijr og an Hneyxlunar, med Avoxtum Riettlætisins, er i ockur þrooist fyrir JEsum Christum, Phil. 1. v. 11. Og þo

þessir Avexterner meigi kaamader siinast af adskil-iannlegu Dupti og Riki ockar Breiskleika og Van-mættar, þa mun blessud Forþienusta ockar Lausn-ara bæta þar um, so þeir verdi ecki af ockar himn-eska Fodur aldeilis forsmaader, helldur i Naad og Myskun alitnir; Þvi þad Fyrirheit hefur Guds Andi giefid ockur, ad þar skuli einginn Fordæming vera aa þeim sem eru i Christo JEsu. Gief þu oss, blessadi Herra, ad innplantast so siaalfum þier aa Naadarinnar-Tijma, ad vier fyrir þinn Krapt mættum færa þaa Avexti, sem, fyrir þig, kynnu Gudi ad þocknast, og þa vier upprætunst af þessu Hiervistar-Landi, ad vier mættum þa innplantast aa Land lifandi Manna: Heyr þad fyrir þijna Forþienustu, Amen.

## 24. Capituli.

Um aarlega Reisu Foreldrana JEsu til Jerusalem.

Og hans Foreldrar geingu aarlega Ars til Jerusalem aa Paaska-Haatijdinni, og þa hann var Toolf-Ara gamall, fooru þau upp til Jerusal-em, eptir Sidvenju Haatijdarinnar. (Luc. 2. v. 41. 42.

Lærum hier af, miin Saal, ad hlijda Bodum DRottins, um Hvijldar-Dagsins Helgun, so sem hann segir: Ex. 20. v. 8. Minnstu ad helga Hvijldar-Daginn DRottins Guds þijns; Þvi hann vill aungvannveiginn ad þessu gleymt verdi,

og vill straffa þaa sem þetta foorsma. Sex Daga hefur Gud giefid oss til vorra Starfa, enn þann Siounda hefur hann siaalfum sier skilid; Lijkamans Þarfar eigum vier ad giæra aa þeim Sex, enn Saalarinnar Naudsynia aa þessum Siounda: Þo aa þad ecki so ad skiliast, ad vier meigum gleyma Gudi og Saalunni alla þaa Virku-Dagana, þvi hvern Dag eigum vier ad færa DRottni vora Bænar og Lofgiørdar Foorn; helldur svo: Ad vier tokum þann Siounda Daginn sierdeilislega til þess ad þioona Gudi, og verka vora Saaluhiaalp, med sannri Ydran, Yfirboot Syndanna og andagtugri Hugleidingu Guds dyrdarfullu Daasemda, sem oss verda auglijstar, bædi almennilega aa øllum Sunnudøgum, og lijka sierdeilislega aa ødrum Christnennar Haatijdum. A Joola-Haatijdinni verdur oss sett fyrir Sioonir Leyndardoomsfull Auglijsing Guds Sonar i Holldenu, 1. Tim. 3. v. 16. er hann took uppaa sig vora Naatturu, til ad giøra oss Hluttakara gudlegrar Naatturu, 2. Pet. 1. v. 4. og giefa þeim øllum Magt Guds Børnum ad verda, þeim sem aa hann trwa. Joh. 1. v. 12.

A Paaska-Haatijdinni heyrum vier um Sigurrijka Uppriisu vors Frelsara, er hann, ad yfirunnum Dauda, Diøfli og Helvijti, leiddi fram i Lioos Lijfid og Odaudlegleikann, 2. Tim. 1. v. 10. og færdi oss þad Riettlæti sem fyrir Gudi gilldir. A Hvijtasunnu-Haatijdinni er oss kunngiørd daasamleg Sending H. Anda yfir JEsu Postula, og hv-

ørsit

orſu ad Sonur Guds hefur med ſinni Himna-For og Fyrirboon hiaa Fodurnum afrekad oſs þann gooda H. Anda, ſem er Pantur vorrar Arfleifdar. Eph. 1. v. 14. Og vidlijka verda Guds Daaſemder auglijſtar oſs aa hinum Haatijdis-Dogunum, ſem Chriſtneñar Forſtioorar hafa gudrækilega tilſett. Alla þeſſa Hviijldar og Helgi-Daga eigum vier ad heidra og helga i Hiart-grooinni Gudrækni med Ydkun, Heyrn og Hugleidingu Guds Orda bædi i Kyrkiunni og Heima-Hwſum. Saa Guds Madur David er oſs i þeſsu til aagiætrar Fyrirmyndunar, er hann ſegir: Pſ. 122. v. 1. Af þvi þa gled eg mig, þad til mijn er ſagt: Laatum oſs iñgaanga i Hwſ DRottins. Laat þu, mijn Saal, þetta ſama vera þijna Gledi og Forlyſting, neſnilega: Ad priiſa og vegſama DRottinn med Hiarta og Twngu, aaſamt odrum Guds Bornum i hanns Hwſi; Þar af efliſt allra beſt ſu Gledinn, ſem þu aatt ad hafa i Gudi þijnum Heilſugiafara, Luc. 1. v. 47. þvi hann hefur lofad ad gledia þaa i ſijnu Bæna-Hwſi, ſem taka Vara aa hañs Hviijldar-Dogum. Eſ. 56. v. 7. Og er oll Veralldar Gledi einkis verd, hiaa þeirri Gledi, ſem Guds Born hafa i og af hanns Ordi, ſem er þeirra Tijma og Dægra Stitting i Laangſeminni, þeirra Huggun i Sorginni, þeirra Raadgiafi i Vandrædunum, og þeirra Lijf i Daudanum. Vilier þu nu, mijn Saal, verda Hluttakandi þeſſarar Gledi og hennar Kraptar, þa gaadu þeſs, ad þu ecki heyr-

it Ordid med Leidindum edur full aũarlegra Þanka, þvi þad heitir ad nalægiast Gud med Vorunum, eñ laata Hiartad vera laangt þar fraa, Matth. 15. v. 8. hvar med Gudi verdur forgiefñls þioonad, þvi ecki kann hønum ad giediast ad þvi, þo eirn sæki Kyrkiuna fyrir Sidasakir, og sitie undir Ordsins Heyrn, enn laati Hiartad reika hier og þar ut um Verolldina, og gaanga so jafnheimskur fraa Kyrkiuñi, og hañ kom til heñar. Eñ þikist þu, Christinn Madur, vera riettur Ordsins Tilheyrari, þa byriar þier ad votta þad med Avoxtum þeim, sm̃ þu aatt ad færa af Guds Ordi, i Asneitan siaalfs þijns, i Krossfesting Holldsins og i daglegri Betran Lifnadarins. Enn hafir þu ecki þetta, þa ert þu lijkur þeim Manni, sem skodar sijna Asioonu i Speigli, geingur burt og gleymir hvilijkur hanns Yfirlitur var, Jac. 1. v. 23. og maatt þu taka þier trwann Vara fyrir þvi, ad Guds Ord giefi þier ei adra Avexti, sem er: Ad þad verdi þier Ylmur Daudans til Daudans. Guds Ord er Lijf Saalarinnar, eins og Fædann Lijkamans, enn ei maa hunlifa af þvi Ordinu, sem geingur iñ um eitt Eyrad og ut um annad, lijka sem Vindur, helldur hinu, sem nær ad iñrætast i Hiartad og bera siñ Avoxt.

A Þeim Þremur Stoor-Haatijdum gamla Testamentisins maatti einginn byrtast toomhendtur fyrir DRottni, helldur aatti hvor eirn ad framfæra sitt Offur. Devt. 16. v. 16. Vidlijkt er þad eñ D ag; Ecki eigum vær so i Guds Hwsi ad byrtast,

ad vier hofum eigi tilreidt vort Offur, og er þad Gaumgiæfninn a Guds Ordi er vier þar heyrum; Hun er betri eñ Feitleiki Hrwtanna. 1. Sam. 15. v. 22. Audmiukt Hiarta og gaumgiæfid er þad Offur sem DRottinn vill ecki fyrirlijta. Ps. 51. v. 19. Þessu Offri a hvor og eirn ad upplupta fyrir DRottinn, nær hann inngeingur i hanns Musteri, so Hugskot, Mal og Hiarta sie samfara i Guds Hijrkan: Malid pryisi Dasemdir DRottins, Hugskotid andvarpi i Himininn, Hiartad sie opid fyrir sierhvorium Guds Ordum, er koma ad þess Dyrum, sem eru Eyrunn, reidubwid ad medtaka og hyrda þad Oforgeingelega Sæded, af hvoriu vier endurbornir verdum. 1. Pet. 1. v. 23. og þa mun þad kallast lystilegt Sabbath fyrir Drottni. Es. 58. v. 13. Eg jata Vangiætslu mijna fyrir þier, miñ Jesu, ad þo eg upphefie Raustena med þijnum Bornum, þa er Hiartad, æ þvi midur! kallt og dofid, so eg mætti maklega Ottast, ad þu mundir utskyrpa mier af þijnum Muñi; eñ, DRottinn minn, væg þu Veikleika mijnum, og lat þinn himneska Astar-Eld verma mitt Hiarta, virdstu ad velta þeim þunga Tregleikans Steini fra þess Dyrum, og unn mier so ad helga þijna Hvijldar-Daga hier i Nadinni, ad mier audnast mætti ad hallda eilijfann Sabbaths-Dag med þier i Dijrdinni, Amen.

Um̃ þad, þegar Forelldrarnir ſoknudu Barnſins og Leidiñi.

ÞEGar þeir Dagar voru lidnir, og þau fooru heimleidis aptur, bleif Barnid JEſus i Jeruſalem, og Joſeph og hañs Moodir viſſu þad eigi, og meintu þad hañ være hiaa Selſkapnum, og þau vóru komiñ eina Dag-Ferd, og leitudu hañs a medal Frænda og Kuñingia. Luc. 2. v. 43. 44.

Þenkium, Saal miin, hier wt af nockud framar um̃ Soknud og Sioonar-Miſſir Joſephs og Mariu aa Barninu JEſu. Fyrſt hafa allir Chriſtnir Forelldrar hier af ad læra nakvæma Varatekt og Adgiætſlu aa ſijnum Börnum, hvad ad wtheimtir bædi Guds og Naatturunnar Riettur: Þa Drottinn innſetti Hioonabandid i Ondverdu, og ſamannviigdi þau fyrſtu Hioon, þa mællti hanns Almætti ſo fyrir, ad þau ſkylldu aukaſt og margfalldaſt, Gen. 1. v. 28. Og þar hiaa iñplantadi hann i Hiortu Forelldranna Rækt og Elſku vid ſijn Afkvæmi, og þvi ad eins hefur hann i ſijnu Ordi lijkt ſinni Grunnlauſu Guddooms Elſku til vor Mannanna vid Medaumkan Moodurinnar, Eſa. 49. v. 15. og Kiærleika Fodurſins til ſinna Barna, Pſal. 103. v. 13. ad hann hefur þetta i Naatturuna inngiefid, og vill þad af ollum Forelldrum heimta, hvoria hann hefur ſett þeſſum Smælingium

ium sijnum, Ung-Bornunum til Forsvars og Barateҟtar, medann þau vita ecki Footum sijnum Forrad. Og vilie Menn athuga þær Skynlausu Skiepnur, þa mai sia, hvorsu þær rækia dyggilega sitt Fooſtur, medann þad er eigi sialf-fært ordid; Hvad miklu framar byriar þa ecki Manninum, sem Gud hefur giort fullann Rads og Skilnings, ad leggia Rækt og Alwd vid sitt Afkvæmi? Ja, þad Afkvæmi, sem endurkeypt er med JEsu dijrmæta Bloodi, 1. Pet. 1. v. 19. Nu ef Postulinn varar oss vid þvi, Rom. 14. v. 15. ad fordiarfa vorn Broodur med Fædunni, af þvi ad Christur er fyrir hann dainn, þa mættum vier ecki sijdur þeinkia vidlijkt um̃ vor eiginn Born, og leggia betstu Rækt og Alwd a þeirra Velferd, sem med JEsu Dauda er afrekud. So sem þar er valla nockur Stundlegur Hlutur Gledilegri goodum og Gudhræddum Forelldrum, helldur enn Gudlegt Fram̃ferdi og Velferd Barnanna, so ætla eg ad eckert Sverd muni saarara skera þeirra Hiortu, helldur en̄ ad verda ad sia uppa Barnan̄a Ofarir, og illa Breitni: Jacob segier, ad sa Harmur muni leida sig til Grafarinnar, ef hann fai ecki ad sia aptur sin̄ Son Beniamin, Gen. 42. v. 38. Sarañ Trega bar David fyrir Absalon, og villdi segin̄ hafa matt fyrir hann deya, ad hann hefdi leingur matt lifa, 2. Sam. 18. v. 33. Enn vilie Forelldrarnir gyrda fyrir þvilijkt med ollu þvi Mooti sem i þeirra Valldi stendur, þa er su betsta Adferd þar til, ad

þeir uppali þau med nakvæmri Varatekt og Ad-
giætslu, og einkum i Aga og Umvond un til Drott-
inns. I annann Maata skulum vid athuga,
mijn Saal, hvor hañ var, sem Josephog Maria sok-
nudu hier: Pad var ecki einasta þeirra Barn og
Sonur, helldr og eiñig sialfur Guds Son, Heim-
sins Lausnari, sem kominn var til þess ad leita ad
því sem tapad var; Þvi var ecki ad undra, þo þau
leitudu hanns Harmþrenginn. Þvi hvad er
Syndarinn, þegar JEsus er fraa honum? Nema
Braud Ovinanna, og Barn Reidinnar, hafandi
aungva Hiaalp aa Himni nie Jordu, því vesæl er
Verolldinn þess, ad hiaalpa þeim sem Gud hefur
yfirgiefid; Þvi segier Drottinn fyrir Spaamanns-
sins Munn; Hos. 9. v. 12. Vei þeim, nær eg er
fraa þeim vikinn. Soleidis mistu hier ecki Jesum
hanns Forelldrar, helldur einasta ad Lijkamans
Samvistum, þo fellst þeim þar mikid um. Hvor-
su blind og dofinn eru þa Born þessarar Veralld-
ar, er lijtid giefa sig ad JEsu og hanns Naadar
Missir? Pau hafa allt annad fyrir ad syrgia: A-
chab er mest Hugsiwkur um þad, ad hann gietur ecki
naad undir sig Naboths Vijngardi, 1. Reg. 21.
Micha Andvarpar þungt yfir því, ad þeir hafa tekid
fraa honum hans Gudi, Jud. 18. v. 24. Saa rijki
Ynglingur hryggist, er hann heyrir af JEsu Muñi
ad hann skuli selia sijn Audæfi og giefa faatækum,
so hann kunni ad gaanga Veiginn til Lijfsins,
Matth. 19. v. 22. So syrgia Heimsins Born

Heim

Heimsins Hiegooma, enn um JEsum Christum giefa þau sig minna. Enn Guds Bornum, sem kominn eru aa JEsu Naadar Sætleika, þeim er einginn Sorg so stoor, sem þad, ef þau sakna JEsu; Ecki ad hann nockurn Tijma fraa þeim viki, helldur sijnist þeim sem hann hafi sig yfirgiefid, þegar þau finna ecki til hanns Naadar og Hugsvolunar i Hiartanu. So leingi sem þau finna til JEsu Naalægdar, og eru viss um hana, þa hyrda þau hvorki um Himin nie Jord, þvi þo þeirra Lijf og Saal vanmegnist, þa er Drottinn þeirra Hiartans Traust og Hlutskipti; Ps. 73. v. 25. Enn undir eins og þau sakna hanns wr Hiartanu, þaa er þar einginn Fridur i þeirra Beinum, þvi þau reikna alla Hluti Þreck ad vera hiaa þeirri yfirgnæfanlegu Vidurkienningu Christi JEsu, sijns Drottinns, Phil. 3. v. 8. Þvi stynur og kveinar David undann þessu, segiandi: Psal. 13. v. 1. 2. DRottinn, hvorsu leingi villtu so olldungis gleyma mier? Hvorsu leingi þa hylur þu þitt Andlit fyrir mier? Hvorsu leingi skal eg vera sorgandi i minni Saalu? Og aangra mig so i mijnu Hiarta Daglegana? Þo reynir Drottinn stundum sijn Born med þessu, er hann dregur i Hlie fyrir þeim sijna Naad, fyrir þær Orsakir, er hann sialfur veit, eñ þad skal einginn efa, ad þvilijk Freisting hefur alltijd goodann Enda, hiaa þeim sem Gud elska; Þvi laangt er þad fraa honum, sem er sialfur Brunnur Giædskunnar, ad slijta sig fyrir Alvoru af þeim,

sem

sem af öllu Hiarta og allri Sælu vilia honum aa-
haanga, so þo hann læti svart Sky Sorga og Fre-
istinga byrgia fyrir þeim um̃ Stund siina Mystkun-
ar Geysla, þa mun hann, nær minnst varir, læta
þa aptur upprenna i þeirra Hiortum, og giora
þeim siina Naad, jafnvel enn þa yndælislegre, enn
hun siindist nockurn Tijma ædur, so þeir þa i Sæ-
lar Fognudi hroopa upp vidliikt og Jacob, Gen.
28. v. 16. Gud var i þessum Stad og eg vissi þad
ecki. O! þu Mystkunsamasti Herra Jesu, læt
hvorki Diofulinn, Heiminn nie Holldid, fær skilid
oss, þijna dijrkeyptu Frelsingia, vid þijna blessf-
udu Naad; Enn meigi þier nockurn Tijma þocknf-
nast ad reyna oss med hennar Soknudi, þa gief,
Drottin̄ min̄, ad vier lætum ecki af ad bidia, leita
og klappa uppaa, til þess, ad þitt blessada Mystkun-
ar-Hiarta mædist so, ad þu hlijter vera oss Naadug-
ugur, og opinnbera aptur þijna Naad og Giædsku,
fyrir vorum Sælar Sioonum, so vier af henni
styrktir og gladdir, mættum gaanga giegnum allar
Hormungar, og siidast sialfann Daudann, inn
aa Land lifandi Manna; heyr þad og Bænheyr
fyrir sialfs þijns Nafns Sakir, Amen.

# 26. Capituli.

Um̃ Leitina eptir JEsu.

OG þa er þau funndu hann ei, geing-
gu þau (Joseph og Maria) aptur
til Jerusalem, og leitudu ad hon-
um.

um. Luc. 2. v. 45.

MEd þad fyrsta meintu Forelldrar JEsu, ad hann være hiaa Selskapnum, leitudu hanns þvi fyrst medal Frænda og Kunningia, þvi þau hafa, aan Efa, þeckt hanns Vana, ad dvelia þess i milli hiaa Gudhræddum Maaungum. Og hefur þu, Christinn Madur, ad læra þad hier af, ad velia Barni þijnu goodann Selskap Gudhræddra Manna, so þad kunni Daam ad taka af þeirra Christilegri Umgeingni; Hitt er Barninu Hættalegt, ad svælast med vondum Veralldar Solli, þvi Ulfur er saa med Ulfum biir. Naatturann, sem allt jd er hneigd til hinns vonda, er næm ad griipa þesshaattar, þaa þad ber fyrir Augun edur Eyrun. Illur Selskapur er so sem Swrdeig, sem syrer allt Deigid, 1. Cor. 5. v. 6. So fiellu Israelitar i Hooraner, þa þeir umgeinguſt med Moabitum, Num. 25. Og þo vondur Selskapur sie ollum skadlegur, þa er hann Bornunum vestur, þvi valla kunna þau annad meina, enn sier muni Ohult ad giora þad sem þau siaa hiaa þeim fullordnu, sem eiga þeim til Fyrirmyndar ad vera. Geim þvi Barn þitt vid illum Solli, sem frekast mogulegt er, og mun þad seinna læra Odygdirnar, ef þad sier þær alldrei fyrir sier. Laat þad lijka, aungvu sijdur, siaa sem minnst illt til sialfs þijns; Hygg ad hvad Christur segier: Hvor sem hneixlar einn af þessum Smælingium, sem aa mig trwa, þarfara være honum, ad Mylnu-Steinn heingdist um hanns Haals, og

være

væri i Siaafar-Diwp focktur, Matth. 18. Saa sem hefur goodar Aminningar, enn illt Framferdi fyrir Barninu, hann brijtur þad nidur med einni Hendinni, sem hann byggir med annari, þvi Oviist er, hvort þad lærir meira af Aminningunum, helldur enn Eptirdæmunum sem þad hefur fyrir Augunum, og þvi eru þau so sem þegiandi Predikare. Aungvann Mann, og jafnvel eckt sinn Yfirbodara, skylldi Madur framar fordast ad Oskenuilegum Verkum, enn Ungmennid; Enn vilier þu nockud gott adhafast, þa laat Barnid þar uppaa siaa, og maa vera þad læri Adferdina, og minnist hennar i Framtijdinni, þvi so hlioodar Maaltækid: Þad nema Born sem i Bæ er tijdt. Hvar af læra Skynlausar Skiepnur almennilegar Athafnir siins Edlis, so sem Ungarnir Sundid? Ef ecki af þvi, ad Mædurnar hafa þad fyrir þeim, jafnvel þo innplontud Naattura orki hier miklu til; Vidlijkt er þad fyrir Manninum: Viist mundi Barnid margar Dygdir læra, ef þad sæi þær tijdum til Forelldranna, og þad jafnvel þo alldrei væri þad aaminnt til þeirra: Edur hvar af læra Borninn Maalid? Nemá af þvi, þad er fyrir þeim haft.

Vier heyrum af Sudspiallamanninum, ad JEsus hafi farid med siinum Forelldrum til Jerusalem aa Haatijdar-Deginum: Þad giordi hann, sem annad, oss til Eptirdæmis. Og hofum vier sier i Lagi hier af ad læra, ad hallda Bornum vorum til þess, ad vera vid Guds Orda Framflutning,

þvi

þvi af Munni Smaa-Barna og Briooſt-Mylkinga hefur hann ſier Loſid tilreidt, Pſ. 8. v. 3. Og þo Børninn ſaai, med þad fyrſta, lijtid greint og numid af Guds Ordi, þa ſkulum vær vita, ad H. Andi kann ad verka i Barnſins Hiarta, framar eñ vier ſaaum ſied edur ſkyniad, eins og hann verkar med þeim Trwna i Skijrninni, þo vær kunnum ecki ad greina þeſs Merki hiaa Bornunum. Guds Order eins og Fræid i Jordunni, Marc. 4. v. 28. þad ber ecke ſtrax fullkomiñ Avoxt, helldur fyrſt Graſid, þad er Gudrækilegar Hræringar i Hiartanu, og ſijdann Axid Utvortis Avaxta; og aa þetta ecki ſijſt heima hiaa Bornunum. Læriſveinarnir villdu ecki laata bera Borniñ fram fyrir JEſum; Þeir hafa aan Efa þeinkt, ad þau hefdu lijtid ad giora aa hanns Fund, þar þau kynnu ecki ad greina hanns Ord og Kienningar: Enn hann bleſſadur ſvaradi: Leifid Bornunum til mijn ad koma, og bannid þeim þad ecki, þvi þvilijkra er Himnarijki, og hann lagdi ſijnar Hendur yfir þau, og bleſſadi þau; Marc. 10. v. 14. 16. So ſkulum vier vita, ad hann mun ſo vel þeſsa Smælingia, ſem þaa fullordnu, laata Not hafa ſmnar Bleſsunar, ſem hañ enn i Dag lætur leggia yfir ſinn Soſnud i og af ſijnu Ordi. Auk þeſsa, þa temſt Barnid hier med aa Koſtgiæfni Guds Orda, ſo þad verdur uñ ſijdir ad Vana, þvi Smeckurinn ſaa ſem kiemſt i Kier, Keiminn leingi eptir ber, hvar af ſijdann ſprettaa allskonar Gudræknis Avextir, ſo þu maatt þa leita ad

ad þijnu Barni, ecki i Solli Veralldarinnar Sona, helldur i Selſkap Gudhræddra, undir hvorra Stroffun ad betra er ad ſitia, helldur enn ad vera i Haavegum hiaa þeim Ogudlegu.

Nu ſkulum vid lijka, mijn Saal, þeinkia nockud hier utaf um̃ ockar eiginn Efni: Joſeph Og Maria Leitudu Harmþrunginn ad Jeſu, er þau hoſdu miſt hann fraa ſier: Kunni nu ſo ad falla fyrir þier, ad þu miſſir andlegrar Trwar Sioonar aa þijnum JEſu, þa far og leita hanns, ecki aa þridia Deigi, helldr nu ſtrax, medañ þar ſeigiſt: J Dag; Og leita hanns Harmþrunginn, þad er, med audmiukum Anda og ſundurknoſudu Hiarta! Laat heit Ydrunar-Taar leita hañs, hvorium þu aatt ad uthella fyrir þær Syndernar, ſem ſtiggdu hann fraa þier. Þu fannſt hann fyrſt i Vatni Skijrnarinnar, ber þig ad finna hann aptur i Vatni Ydrunarinnar. Eñ ecki gilldir þig ad leita hanns medal veralldlegra Frænda og Vina, þad heitir ad leita þeſs lifanda hiaa Daudum, Luc. 24. v. 5. helldur leita hañs i Muſterinu, hvar ſem hanns Ord er um̃ Hond haft, fyrir þeſs gaumgiæfilega Heyrn og Rækt, þvi þar af kiemur Trwinn, Rom. 10. v. 17. fyrir hvorri ad JEſus vill ecki felaſt, þvi hann heſur ſagt: Leitid og munud þier finna. Matth. 7. v. 7. Hann leitadi ad ockur, mijn Saal, þegar vid vorum tapud, og þad med mædufomu Endurlauſnar Erfidi; Þvi mun hann ean alls Efa laata ockur finna ſig, er vid leitum hanns med alvarlegu Ydrunar-Verki, þvi

hañ

hañ hefur svarid vid sialfañn sig, Ez.33.v.11. ad hañ villdi ecki Dauda hiñs synduga, helldur ad hañ sneri sier, leidriettist og lifdi.

Ottist þu fyrir þvi, ad hann vilie ecki lata þig finna sig, af þvi þu hafir hañ af sialfskapar-Vijt-um fra þier mist, þa graat þijna Synd af Hiarta, og vit, ad hann er kominn ad kalla synduga, enn ei riettlata til Ydranar. Matth. 9. v. 13. Þvi kall-ar hann og segir: Cap. 11. v. 28. Komid til mijn allir, sem erfidid og Þwnga hladnir erud, eg vil ydur endurnæra. O Drottinn minn, gief þu mier þad, ad eg med Bornum mijnum mætti so leita þijn hier i Nardinni, ad vær kunnum eilijflega ad behallda þier i Dijrdinni. Heyr þad, O! JEsu, fyrir þij-na dijru Forþienustu, Amen.

# 27. Capituli.

Um Samtal Christi vid hiña Skriftlærdu i Musterinu.

EG þad skiedi so eptir þria Daga, ad þau fundu hann i Musterinu, sitiandi midt a milli Lærifedraña, heyrandi þeim og adspyriandi þa. Eñ allir þeir, er hann heyrdu, undrudust yfir hañs Skilningi og Andsvorum. (Luc. 2. v. 46.47.

HJer tekur til ad uppfillast Spadoomur Ma-lachiæ er segir: Mal. 3. v. 1. 2. 3. Sa Drott-inn mun snart koma til sijns Musteris, hvers þier

leitid, og sa Saattmaalans Engill, hvorn þier gyr-
nist, sioid, hann kiemur, segir sa Drottin Zeba-
oth. Enn hver mun þola hanns Tilkomu-Dag?
Og hver mun standast þa hann mun opinberast?
þvi han er sem eiñ Gullsmids Elldr, og sem Sapa
eirnrar Þvotta-Konu. Hañ mun sitia og bræda og
Silfrid hreinsa, hañ mun hreinsa og klaar giora
Born Levi, so sem Gull og Silfr. Þessi Fyrirsogn
rætist nu hier, er Jesus, sem nefnist Saattmaalans
Engill, helldr Samtal vid Lærisedurnar i Must-
erinu, hvad hann giordi ecki sier til nockrar Upp-
frædingar, þar i honum biuggu allir Vitskunnar
Fiesioodir, Col. 2. v. 3. fraa Moodur-Lijfe, helldur
synde hann hier med nockra Imyndan sijns Spaa-
mañlega Embættis, er hann sijdann fullkomnadi.

Textiñ gietur ecki um, hvort ad verid hafi Rædu-
Efni Christi og Lærisedranna; Enn lijklegast er,
þad hafi verid hid sama, um hvad hann aatti optast
Maalstad vid þaa þar eptir: Um þann fyrirheitna
Messiam, hanns Persoonu og Embætti: Og took
hier strax ad orla aa þvi, ad hann mundi slaa sijna
Ovini med Sverdi sijns Munns, Es. 49. v. 2. þar
sem Lærisedurnir undrudust so yfir hanns Rædu og
Skilningi, ad þeir settu hann midt aa medal sijn,
þo riedi Vantrwinn og Þvermoodskann hiaa þeim
meira enn Christi Ord, so eptir þetta þa til var tal-
ad, brijxludu þeir honum um þad, ad hann væri
Timbur-Mannsins Son, og sogdu hann vera eirn
Fals-Kiennara, er umbreita villdi Moysis Setn-

ingum. Þad urdu þeir sijdar ad medkienna, ad þar hefdi alldrei nockur Madur so talad sem hann. Joh. 7. v. 46. Þeir vissu og Ritningarnar, og kuñu Spaadoomana um̃ Messiam, jafnvel uppaa sijnar Tiju Fijngur, enn þeirra Hiartans Þverud var so mikil, ad þeir ei ad sijdur foroktudu Guds Raad giegn sialfum sier. Luc. 7. v. 30. Og þetta sama Vantrwar og Þverudar-Sinni innrættu þeir hiaa Almwganum, so hann dänsadi eptir þeirra Pijpu, eins og þeir i Nazareth, þa hañ kiendi þar aa Sabbaths-Deginum: Þeir fundu undrunarlegann Maadar-Krapt i hanns Ordum, Luc. 4. v. 22. ei ad sijdur snwa þeir sier fraa Krapti Ordanna, til audvirdilegs ytra Asigkomulags Persónuñar, segiandi: Er þessi eigi Sonur Josephs? Þeir fiellu tijdum i Forundran yfir hanns Skilningi, segiandi: Er þessi eigi Timburmannsins Son? Heitir hanns Moodir ecki Maria? Og Brædur hanns Jacob og Joses, Simon og Judas? Hvadann kiemur honum þa allt þetta? Matth. 13. v. 55. 56. Þo gaatu þeir ecki laatid þad leida sig til Jhugunar aa Spaadoomunum um̃ þann mikla Spaamann, Deut. 18. helldur vesnudu æ þvi meira sem hann kiendi þeim optar. Johañes Skijrari kiendi þeim harla skoruglega og augliooslega ut af JEsu, hann bendti þeim til hanns og sagdi: Sia þad Lambid Guds sem ber Veralldarinnar Syndir, Joh. 1. v. 29. Þo forherdtu þeir eins sijn Hiortu vid hanns Kienningu, hvar um̃ Herrañ klagar og segir: Vid

hvad skal eg þessari Kinslood jafna? Lijk er hun þeim Bornum sem sætu a Torgi, hvor ed kolludu til sinna Stalbrædra, og sogdu: Vier hofum fyrer ydur i Pijpur blaasid, og þier villdud eigi dansa; vær þuldum ydur vorar Raunir, og þier villdud eigi græta, Johannes er kominn, aat ei og drack ei, og þeir segia hann hafi Dioful. Mannsins Son er kominn, etur og dreckur, og þeir segia: Siaa; hvijlij kur Ofaats-Madur og Vijnsvelgiari, Vinur Tollheimtu-Manna og syndugra, og Spekinn hlijtur ad riettlætast af sijnum Bornum. Matth. 11. v. 16-19.

Þetta skulum vid, Saal mijn, færa ockur til gudrækilegra Nota; Og lærdu hier af, ad leita þier Uppfrædingar i Guds Ordium þijna Saaluhiaalp, skammast þijn ecki ad spyria þig fyrir um þetta Efni, hiaa þeim sem betur vita, þo þu kunnir saavijslega ad spyria, þad er þier betra, enn blijfa som og jofn i þinni Faavitsku; Þvi ef þu leitar þier einlæglega Uppfrædingar, þa mun JEsus, sem blessadi hier i Musterinu þesshaattar Ydiu, uppliuka fyrir þier Skilningsins Dyrum med sijnum Anda: þetta er su Spekinn sem hulinn er fyrir Vitringum, en opinberud Smælingum. Matth. 11. v. 25. Nicodemus var einn Meistari i Israel, þo gaf hann sig til JEsu, og þaadi af honum Uppfrædingu um Veg Saaluhiaalparinnar. Joh. 3. Hitt kienniir stoorrar Vanræktar vid sijna Saalu, ad vita sitt Faafrædi, en leita þar ei Lagfæringar a, og er hætt

vid

vid, ad aa þeim rætist Christi Ord: Hvor sem ecki hefur, fraa honum skal tekid verda þad sem hann meinar sig hafa. Matth. 25. v. 29. Gydingar mootstoodu Christi Kienningum, sooru so fram i sinni Vantru og Hiartans Blindni, ur hvorri Villu þeir hafa eñ ecki ratad. Laat þier þeirra Vijti ad Varnadi verda, og gief Rwm hiaa þier Guds Orda Kienningum, laat þær ei sem Vind um Eyrunn þioota, set þeim ecki i mooti þijna blindu Nattúru-Skinsemi, helldur tak hana til faanga undir Christi Hlijdni, so hanns H. Ord naai ad upplijsa Skilninginn og umvenda Hiartanu. O Drottinn JEsu, giefdu ollum oss so ad rækia og i Minni festa þijnar Lijfkreptugu Kienningar i Ordinu, ad vier þar af lærum ad trwa, þad þu siert saa eingietni Sonur hins lifanda Guds, sem kominn er i Heiminn til ad giora Syndarana Saaluhoolpna. 1. Tim. 1. v. 15. Laat oss so trwa þessu, ad vier þar vid mættum styrkiast og glediast i hinum innra Manni, bædi i Gledi og Sorg, Lijfi og Dauda. Þier sie bædi aa Himni og Jordu Lof og Prijs ad eilijfu, AMEN.

## 28. Capituli.

Um Samtal Christi og Mariu.

Og er þau saau hañ, braa þeim vid, og hañs Moodir taladi til hañs: Son miñ, þvi breittir þu so vid ockur? Sia þu, Fadir þiñ og eg, leitudum

Harmþrwngiñ ad þier. Og hañ ſagdi til þeirra: Hvad er þad, ad þid leitid ad mier? Vitid þid eigi, ad mier byriar ad vera i þeim Hlutum, ſem mijns Fodurs eru? Luc. 2. v. 48. 49.

MAria hafdi leitad Harmþrwnginn ad JEſu, enn er hun fann hann ſijdann, vard hun glod og fagnandi. Lijkt er þetta Guds Barna Hlutſkipti i Heimi þeſsum: Eirn Tijma mædaſt þau i Tarum, þegar Gudi þocknaſt ad reyna þau med Kroſsi og Mootlæti, ſo þau meiga klaga med David: Pſ. 73. v. 14. Mijn Pijna er jafnann fyrir mier; Annann Tijma giefſt þeim ad gledia ſig i Hiaalprædi Drottinns, og ſijngia med þeim ſama Guds Manni: Pſ. 30. v. 12. Drottiñ hefur minn Hrygdar-Seck i ſundurſlitid, og umgyrdt mig med Fagnadi. Þvi Drottiñ hañ deydir og lijfgar, 1. Sam. 2. v. 6. Hann leggur Þwnga a oſs, enn hann hiaalpar oſs til ad bera hann, Pſ. 68. v. 20. Haf þvi Þolinnmædi, Saal mijn, og bijd Drottinns a hinni vondu Tijdinni, þvi um Kvölld-Tijma varir Graaturinn, enn ad Morgni Dags Fögnudurinn; Pſ. 30. v. 6. Enn vertu ſtillt og Vareigdarſom a Medlætis Tijmanum, og þeink, ad Gledinn er fallvöllt i Taranna Dal, þvi giegnum margar Hormungar byriar oſs inn ad ganga i Guds Rijki, Act. 14. v. 22.

Þegar Joſeph og Maria fundu JEſum i Muſterinu

erinu, þa helldur enn ecki æviſtadi hun hann, og villdi ad hann giætt hefdi ſinnar Sonar-Skyll-du, ad fylgia þeim eptir til þeirra Heimilis, hvar-iu Jeſus neitar ad ſonnu ecki, enn minniſt hinns vid hana ſem meira var verdt, ſegiandi: Vitid Þid Ecki, Ad Mier Byriar Ad Vera J Þvi Sem Mijns Fodurs Er? Saa var riettur Drottinns Pioon medal Levitanna, ſem ſagdi til ſijns Fodurs og ſinnar Moodur: eg ſie hann ecki, og til ſijns Br-oodurs; eg þecki hann ecki, og til ſijns Sonar: eg veit ecki, Deut. 33. v. 9. Allt Valld Forelldrana yfir Bornunum, allur Myndugleiki Yfirvalldana yfir þeim undirgiefnu, hlijtur ad vijkia fyrir Guds allsheriar Valldi; Forelldrunum eiga Borninn ad hlijda, þo ſo, ad þau hlijdi honum framar, ſem er Fadir alls Fadernis æ Himni og Jordu, Eph. 3. v. 15. Þvi framar ber ad hlijda Gudi enn Monn-um, Act. 5. v. 29. Allt þetta utlagdi ſijdar ſiaalfur Herrann, Matth. 10. v. 37. ſegiandi; Hvor hann elſkar Fodur og Moodur meir enn mig, ſaa er mijn ecki verdugur. Guds Sonur var ecki kominn i He-im þenna til ad æhænga faſtlega Forelldrum ſijn-um; annad var hanns Eyrendi, nefnilega: Ad gi-ora Vilia ſijns Himneſka Fodurs, hvar um hann talar Joh. 4. v. 34. ſegiandi: Minn Matur er ſaa, ad eg giori hanns Vilia ſem mig ſendi, og fullkomni hanns Verk. Þeſſi Fodurſins Vilie var þad, ad hann fullkomnadi ſitt Medalgaungu Embætti, ollum Heimi til Endurlauſnar. Hier til hlijddi ei

einasta þad hann opinberadi oss Fodursins Vilia, og kienndi Guds Gotu i Sannleika, hvørs Imyndan hann siindi hier i Musterinu, er hann sat midt a milli Læri-Fedranna, heyrandi þeim og adspyrlandi þa, helldur og einninn, ad hann þar a ofann lidi Anaudir, Ossooknir, Fiøtur, Forsmaan, og med þad siidarsta Kvalrædisfullann Dauda a Krossinum: Þessi Fodursins Vilie, segier hann, ad sie sinn Matur; þvi alldrei kann hwngradur Madur ad hafa meiri Lysting til Fædunnar, helldur enn vor blessadi Lausnari til þess, ad fullkomna allt þad Fadirinn fyrir hann lagdi, bædi af Hiartanlegri Hlijdni vid sinn Fodur, og brennandi Elsku til Syndarans Velferdar, so aungvar Angister Helviitis Kvala, liet hann fæla sig hier fra; Þar heyrdist alltiid sama Vidkvædi af hans blessada Munni, og þa hann var staddur i midiu Banaþi Gudlegrar Reidi, sagdi hann: Fadir, eigi hvad eg vil, helldur hvad þu villt, Matth: 26. v. 39. Og vid Lærisveinana: Skaleg ecki drecka þann Kaleik sem minn Fadir hefur skeinkt a fyrir mig? Joh. 18. v. 11. Þvi hefur Paall Postuli med ollum Rietti sagt: Phil. 2. v. 8. ad hann hafi giørst Fodurnum hlijdinn allt i Dauda, ja, allt i Krossins Dauda. So mikla Alwd lagdi þinn Frelsari, miin Saal, a þijna Fridþægingu, so mikid var hønum hugad uni þad, ad kaupa þig fra eilijfum Dauda, hvad er skylldugra, enn ad þu aptur a mooti, leggir alla Hiartans Alwd og Alvoru a þad,

ad

ad giora hanns Vilia, þier til Saaluhiaalpar, og honum til Þocknunar, lijka sem hann fullkomnadi Fodursins Vilia þier til Endurlausnar; Eñ Fodursins Vilie er þijn Helgun, ad þu halldir þier fraa Ohreinleika, 1. Theß. 4. v. 3. þad er Syndum og Lostum, sem saurga þijna Samvitsku og reita hann til Reidi. Þu vardst ecki endurleyst fraa eilijfum Dauda, nema med Jesu fullkominni Hlijdni, Dauda og Forþienustu; So kanntu enn ecki verda niootandi hanns Forþienustu, nema þu i Trwnni hlijdnist honum; Enn þo þu gietir ecki fullkomnad allt sem hann leggur fyrir þig i Logmaalinu, þa mun hanns Myskun taka hiaa þier Viliañ fyrir Verkid, nær þu leggur goodañ Huga a Maal þitt, og bidur hann audmiwklega ad bæta þad sem aafaatt er. Gud giæfi, mijn Saal! Ad þegar Diofullinn vill svijkia ockur, Heimurinn locka ockur til hinns illa, Holld og Blood teigia ockur til Syndanna, ad ockar Svar væri þa af Hiartans Alvoru: Mier byriar ad vera i þeim Hlutum sem ad eru mijns Fodurs og mijns Lausnara. O miñ Elskulegasti JEsu, sem med þinni fullkominni Hlijdni hefur bætt fyrir minn Ovilia, laat þad Vilialeysi, sem mijnu Holldi fylgir, alldrei þess orka, ad eg vid þig vidskila verdi, helldur gief, Drottinn, ad eg mætti jafnann, þo i Veikleika verdi, vera i þeim Hlutum sem þier eru þægir, so eg verdi þinn bædi Lijfs og lidinn, Amen.

# 29. Capituli.

Um Hliidni og Undirgiefni Jesu vid siina Forelldra.

OG hañ foor med þeim ofañ og kom til Nazareth, og var þeim undirgiefiñ, og hañs Moodir geymdi øll þeis Ord i siinu Hiarta. Luc. 2. v. 51.

Blessud er Audmykt þijn, minn JEsu, þu varst Mynd Osiinilegs Guds, Col. 1: v. 15. þo tookstu aa þig audvyrdilega Þioons Mynd, Phil. 2. 7. Þu varst Drottiñ allra Drottna, Apoc. 19. v. 16. Þo skamadist þu þijn ecki ad verda undirgiefiñ mañnlegri Skickan, þar med hefur þu bætt fyrir mijna Drambsemi og Ohliidni, þvi til þeß ert þu Herrañ nidurlægdur, ad eg Þrællinn skylldi upphafinn verda. Komid hijngad þier Børn og Ungmenni, og lærid hier Hlijdni og Heidur vid ydar Foreldra, og þad af honum sem er Gud yfir øllum oß, og Fadir alls Fadernis aa Himni og Jordu, Eph. 3. 15. Eñ giordist þo Mønnum undirgiefinn; Hann hlijdnadist siinum Himneska Fødur allt til Daudans, til ad bæta fyrir Ohlijdni vora, hann giordist og so undirgiefinn siinum Forelldrum i Hlijdni og Audsveipni, til þeß ad eptirlaata oß hid allraskiærasta Audsveipninnar Eptirdæmi. Hann vard Barn, so þu kynnir Guds Barn verda; Hann var hlijdid Barn, so þu skylldir af honum Hlijdnina læra. Vit lijka, ad sa Heidur og sw Audsveipni, sem þu sijnir Forelldrum þijnum, verdur þier frioðsamt Sædi til margfalldrar Guds Bleßunar; Þvi segier Syrach: Syr. 3. v. 4. Hvor sinn Fødur heidrar,

rar, þeß Syndir mun Gud ei straffa, og hvør sijna Moodur heidrar, hann safnar sier goodum Fiesiood. Hier uppa hliodar Fyrirheit Drottinns, sem hann hefur laatid silgia þvi Fiorda Bodordi: Heidra skallt þu Fodur þinn og Moodur, so þu verdir langlijfr a Jordunñi, þad er: so þier vel vegni, eptir þvi sem Postulinn Paull wtleggur þad, Eph. 6. v. 3. Þetta er þad fyrsta Bodord med Fyrirheiti, og sijnist sem Gud hafi viliad hier med locka Børninn til Hlijdninnar vid Forelldrana, ei olijkt og þa einn goodur Fadir lempar sinn Unga Son med Blijdmælum. Gott er, Barn mitt, ad gaangast fyrir hanns Tillockan, þvi eckert af hanns Ordum kañ a Jord ad falla: Fyrir þad ad Jacob var Giedfelldur sinni Moodur, þa naadi hann Blessaninni hiaa sijnum Fødur, eptir þvi sem hun lagdi hønum Raadinn þar til: Sañast þa þad sem Syrach segier: Syr. 3. v. 11. Fødursins Blessan byggir Børnunum Hws. So sem Hlijdninn vid Forelldrana er nu Guds Befalning, hvørri allir eru skylldugir ad hlijdnast, so er hun i Tilliti til Forelldranna margfølld Skyllda: Auhgvum Jardneskum Mønnum eigum vier eins mikid upp ad unna og Forelldrunum, er sveitast fyrir Barnañа Fædi og Fotum, medann þau kunna ecki Footum sijnum Forraad, sorga fyrir þeirra Naudsynium, gaanga jafnvel sialfir margs a Mis, so þau hafi þad sem þau vidþurfa, og bera Uñsorgun fyrir allri þeirra Velferd, af þeim hefur þu þad natturlega

ga Lijfid, þvi að það ecki odrum Monnum framar ad þioona, af þeirra Saalu hangir þijn Saal, þvi ætt þu ad aðhanga þeim i Elsku og Heidri: þu ætt ad heidra þa i Verkunum, med Rækt og Hlijdni, i Ordunum med Byrdingu og Audsveipni, i Hiartanu med Elsku og Þolinmædi. Hyra til þess, ad það er noog, ad þeir bæru Hita og Þwnga Dagsins fyrir þig i þinni Barnæsku, þo þu bætir þvi ecki ofann a, er þu ert a Legg kominn, ad særa þeirra Hiarta med Ohlijdni og Þverlyndi, þeim til Angurs og þier til Olucku, þvi valla er annad verra, enn ad egna yfir sig Reidi og Obænir Forelldranna, þvi Moodurinnar Bolvan brijtur Hwsid nidur, segier Syrach, Syr. 3. v. 11. Ad þvi vard Cam, þa hann spottadi sinn Fodur, ad hann þar med egndi yfir sig og sijna Nidia hanns Obænir, Gen. 9. Og þo Forelldrarnir umberi þetta med Þolinmædi, þa er ecki þar med gyrdt fyrir Guds Straff. Þvi hrepptu Eli Synir Ogiæfuna, þo þeirra Fadir umlidi þeirra Vondsku, 1. Sam. 4. v. 11. Heidra þvi Forelldrana med Ordi, Verki og Þolinmædi, Syr. 3. v. 10. So hefur þu goodann Grundvoll lagt til annarra Christilegra Dygda og Mannkosta, hia hverium ad sæ fer traudlega, sem lærdi i sijnu Ungdæmi Hlijdni og Audsveipni, og mætti lijka i þess betri Von vera um það, ad Gud mundi giefa sier sijdar good og epterlæt Born, þvi med þeirri somu Mælingu sem þier odrum wtmælid, skal ydur aptur inmælt verda, segier Christur, Luc. 6. v. 38.

Inn-

Innplanta þu sialfur Drottinn Jesu, hlijdinn og audsveip Hiortu hiaa Bornunum, og gief þeim ad mynda sitt Lijferni eptir þijnu Blessada Dygda-Dæmi, so þau mættu vera þijn Born hier i Naadinni, og Þijnir Samarfar i Dijrdinni, Amen.

# 30. Capituli.

Um Daglegan Proska og Framfor Barnsins JEsu

**O JEsu jookst Alldur og Vitska og Naad hiaa Gudi og Monnum.** Luc. 2. v. 52.

Fraaleitir eru þeir Lijferni Jesu, sem med Alldrinum vaxa ad Odygdunum, og verda i Lostunum fullordnir undir eins edur fyrri enn ad Ara-fiolldanum: Þvilijkt Lijferni aflar Ovinaattu Guds og Oþocka hanns Barna. Hitt er lijkt JEsu Lijferni, þa Madur þroskast i Dygdunum aasamt med Alldrinum, og vex i þeim allt til Mælirs fullkomins Allдurs Christi, sem Paull kiemst ad Ordi: þad Lijferni aflar Naadar hiaa Gudi og Monnum.

Vier heyrum af Textanum, ad JEsu hafi aukist Vitskan med Alldrinum, (hvort sem þad aa ad skilast um sannarlega Framfor hanns Manndooms-Vitsku, sem hann med odrum Monnum hafdi jam-eiginlega, edur um Auglijsingu hans eilijfrar Guddooms Vitsku, sem med Alldrinum hefr meir og meir hiaa honum opinberast, jafnvel þo hun algiord i honum bygdi fyrir Sameiningu Naatturanna, allt fraa þvi hann fyrst took uppaa sig Manndoominn)

so að mikid vel samañ hiaa Mañinum Alldr og Vitska. Gud giefi Ungdoominum so af JEsu Nædar-Liooßi ad uppliisast, ad hann mætti Dag-vaxandi fara i þeirri soñu Þeckingu og allri Vidurkieñingu Christi. Elliñ er heidarleg, segir hiñ Vissi. Eñ hvor þaa? Ecki su sem leingi lisir edr Araßolldañ hefr, þvi Miinkun, eñ Sæmd einginn, er þeim Heimska ad Alldrinum, Viisdoomurinn medal Mannaña er þær riettu Hærur, hvørs vegna ad saa sem vill bera Hærurnar med Heidri, hann skal æfa Æskuna i Lærdoomi: Margr maa med Ydran og Bløgdan sakna þess i Elliñi, sem hañ forsoomadi i Æskuñi, og klaga so yfir sialfum sier, sem Salomon giørir Raad fyrir, segiandi: Æ þvi hatadi eg so Typtunena? Og mitt Hiarta forsmaadi Strøffunena? Og eg hefi ecki hliidt Raustu minna Lærisedra, og ecki hneigt mitt Eyra til þeirra, sem mier kiendu, eg er so nær komiñ i alla Olucku, fyrir øllum Liid og øllu Foolki. Enn af hiñu, sem eirn numdi ungur, hefr hañ Gagn og Gledi alldraður, þvi skylldi þad ungr nema, er gamall ætti ad kuñna, torveldt vill liika vera, ad fara fyrst ad læra i Alldurdoominum, þa Skilningurinn dofnar og Miñid sliooſgast; eckert er vissara eñ Vanvirdañ gømlum Mañi heimskum. Eñ saa ungi, er Hygginda nam, verdur snart fulltiida, hañ fordæmir hiñ gamla og heimska, hañ er Soomi Fødur siins og Gledi Moodur siñar, Naai hann þeim graau Haarunum, þa ber hañ þau med Æru, verdi hønum fyrri i burtu kippt fyrir

Daud=

Daudann, þa nædi hann þo þeim rietta Alldurdoomi, sem er Viisdoomurinn og Oflecka Liiferni, sem eitt a ødru ad filgia, þvi sa sem ecki lætur Lærdoominn fæda af sier christilega Sidu, þess Hyggindi eru ad Heimsku ordinn, og ecki kañ sa gooda Sidi ad ydka, sem alldrei lærdi þa, enn hvar sem Lærdoomur og Vitska faa Rwm i Hiartans Peli, þar filgir a eptir hreinferdugt Liiferni, þvi segir hiñ Viisi: Hvør sier lætur giarnañ undirviissa, hann helldur Spekinnar Bodord, eñ hvar sem hennar Bodord eru halldiñ, þar er viissulega eitt heilagt Framferdi, enn hvør sem lifir i heiløgu Framferdi, hann er Gudi nalægur. So aflar þvilijkur Madur sier Naadar og Hillis bædi hia Gudi og Moñum: Hia Gudi, sem þvilijkt hefur bodid; hia Mønnum, þeim Gudhræddu, sem elska allt þad er Gud elskar, enn hvad hinum vidviikur, þa er Guds Bornum, sem hafa siina Lysting i Drottni og hanns Vegum, þad fyrir minnstu, þo þau hafi litla Vinsælld hia Veralldarinnar Sonum, þvi þau eru Heiminum krossfest, og Heimuriñ þeim, þad er þeim noog ad Drottiñ er þeirra Hlutskipti.

Þetta sem vier nu i siidarsta siñi heyrdum af Jesu, ad hañ voox ad Vitsku, Alldri og Naad hia Gudi og Moñum, er þad siidarsta, sem Gudspiall meñerner skiira um hañs Æsku-Ar, allt til hañs Þriitugasta Alldurs Ars, er hann opinnberlega iñgieck i sinni H. Skiirn sitt Spamañlega Embætti, og hoof ad predika Guds Riki, og giora Guddoomlegar Jardteiknir i ollum Hierødum Judalands.

Þu miñ Herra JEsu hefur þañig prijdt og bleßad mijna Barnæsku med þijnum allra skiærasta Dygda Blooma, bid eg nu þijna Hiarta-Glædsku, ad þu lætir þiñ Ungdooms Verdugleik, Nidurlægingu, Audmijkt, Hlijdni og allañ þiñ Forþienustu-Krapt hrijna a mier ungum og gømlum, lijfs og lidnum. Virdstu, fyrir þiñ signada Ungdoom, ad gleyma mijnum Ungdooms Brestum, gief ad Endurfædingariñar Kraptar mættu hiaa mier utbriootast og auglijsast i nijum Lifnadi; Meigi þier þocknast ad lijda mig vid Lijf þetta til þeirra græu Hæranna, þa virdstu, Drottiñ miñ, þu sem ad ert hiñ gamli af Døgum, eñ komst þo eitt Ungbarn hingad a Jordu, ad vera miñ Styrkur, mijn Gledi og mitt Athvarf i Elliñi. Herra JEsu, sem ordiñ ert hluttakandi Holldsins og Bloodsins lijka sem Smaabørniñ, læt þier þocknast ad taka ad þier Børniñ mijn, og giøra þau hluttakandi þiñar Bleßunar, læt þitt Naadar-Lioos eyda þeirra Barnddoms Faafrædi, enn efla þau i þiñi Þeckingu og þijnum Otta, so þeim vaxa meigi þijn Naad og Ast-Hilli allt til Æfiloka.

So hefi eg um̃ Stundir gladt mitt Hiarta i þiñar signudu Fædingar og Barnæsku Søgu, miñ JEsu, þyggi nu þitt blessada Lijtilæti þeñañ miñ litla Skatt-Pening naaduglega, þo i Veikleika goldiñ sie, og lættu hañ fyrir þijnum Myskunar-Eyrum klijngia, so sem Bíøllu andminukrar Losgiørdar mijns Muñs og Hiarta. Eñ þier, þu blessadi Uñustiñ miñar Saalar, sie med Fødur og H. Anda Lof og Dijrd, og Speki, og Packir, og Heidur, og Kraptur, og Styrkleiki, Amen, fraa Eilijfd til Eilijfdar, AMEN.

* * *

# Nijaars-Psalmur,

Med Ton, Gud oß Lærdoom sin livosan gaf, etc.

Þad er ærgiætt ad þacka vel, þier Gud sem geymur Jsrael, og þijnu Nafni lyßtugt Lof, leſa og ſijngia er ei vid Of, endaſt Arid blijdt, aptur byriaſt Nijtt.

Þu DRottinn Noha helgum hietſt, hefur þad efnt og efnir beſt, Tijmum ad ſetia Skap og Skamt, ſkiptir þu þeim, enn blijfur ſamt, endaſt Arid blijdt, aptur byriaſt Nijtt.

Himneſki Fadir þacka eg þier, þijna Bleſſan og Aſtgiafer: Þu hefur mier og mijnum veitt, margt gott, enn fleſtu vondu eydt, endaſt Arid blijdt, aptur byriaſt Nijtt.

Myſkun þijn lijkiſt meſtum Sioo, margur ſiſkar, enn noog er þo, eptir, ſo Nægdinn alldrei dvijn, Oendannleg er Myſkun þijn, endaſt Arid blijdt, aptur byriaſt Nijtt.

Lof, Dijrd, Heidur og Lotning meſt, lifandi Gudi vondum betſt, fyrir þad ſem hann allt og eitt, af Naad hefur oß ſkeinkt og veitt: Endaſt Arid blijdt, aptur byrium Nijtt.

Byrium vort Ar med Bæn i Dag, bleſſadur Gud vorn gimiſt Hag, i DRottins Nafni leggium

Leid, Lijfs ad Hnoſsi vort ſtefni Skeid: Gief oſs Guds Son klaar, gott og farſællt Ar.

JEſus Foringi heilags Hers, hvorium eg ſijng mitt Nij-Ars Vers, vertu med oſs i Filgd og For, farſæla Saaluhoolpna gior: Gief oſs Guds Son klaar, gott og farſællt Ar.

Þar næſt bid eg um̃ þetta Tvent, þitt heilagt Ord og Sacrament, hreint ſie kient, lært og handtierad, himneſkum verdi oſs Notum ad: Gief oſs Guds Son klaar, gott og farſællt Ar.

Klaarra Guds Orda Kienniment, Chriſti Andi vel menti, enn, vandi Lærdoom og Lifnad riett, liiſi odrum i þeirri Stiett: Gief oſs Guds Son klaar, gledilegt Kyrkiu-Ar.

Kongſins Hætign og chriſtid Valld, Kongur Himna i þitt Vardhalld, taktu, og giefdu Gledi, Frid, gooda Lands-Stioorn oſs halltu vid: Gief oſs Guds Son klaar, gott Valldſtioornar-Ar.

Egta gudhræddra Hioona Hws, himneſkur bleſſa vor JEſus, allt hvad til Æru þienar þier, þar um̃ bidium og gyrnunſt vier, Gief oſs Guds Son klaar, gott Hwsſtioornar-Ar.

Ollum Guds Bornum ængrudum, ollum ſiwkum og ſkam̃lijfum, ollum freiſtudum, oſſooktum, ollum Eckium og faaraadum, Gief þu Guds Son klaar, gott Fagnadar-Ar.

Siaa oſs vægd þijnum ſyndugum, ſanni Fadir a Himninum, Nafn þitt Jeſus og nærkvæm Boon, Rafn mitt kvitti æ Himna-Throon, Gief oſs

Guds

Guds Son klaar, gledilegt Naadar-Ar.

Hliif oss Gud fyrir Helviiti, hliif oss vid Diof-uls Ofbelldi, hliif oss DRottinn i hvorri Neyd, hliif og gled oss i Liifi og Deyd, Gief oss Guds Son klaar, gott og farsællt Ar.

Hvors vors Liifs Reisa hefur Þorf, helga þad Gud og oll vor Storf, blessa nu fyrir Born þijn good, bædi Himininn Jord og Flood; Gief oss Guds Son klaar, gott og blessad Ar.

Hvort sem vier hrærunst ut eda inn, Engla Fil-king og Fridur þinn, oss filgi, verndi og veiti Hliif, vidskilda beri i eilijft Liif, Gief oss Guds Son klaar, Gledium eilijf Ar.

Gud Fadir Son og Andi einn, Einn og Þren-ur Heilagur Hreinn, hrein Dijrd Lofgiord og Þock sie þier, þier befolum oss allir vier,
Gief oss Guds Son klaar,
gott og farsællt Ar.
AMEN.



# ERRATA.

Pag. 4. L. 28. giørist (sem stendur i nockrum Exemplaribus) les: giørdist. Pag. 11. L. ult. les: ad ecki skiedur. Pag. 15. L. 19. les: heyrid. Pag. 17. L 17. les: og. Pag. 25. L. 25. les: Sannordur. Pag. 48. lesist þetta Ord: Christur (sem er Custos). Pag. 57. L. 20. Gull, les: Gullid. Pag. 68. L. 21. Vardveitt les: Vardveitti. Pag. 102. Omøgulegi, les: Omøgulegir. Pag. 116. L. 1. føorsma, les forsooma.

Kunni fleyra smaavegis yfir hafa siest i Pryckingunni, er goodfuss Lesari umbedinn ad Lagfæra og lesa i Maalid.



